gengr nú fram it harðasta í trausti Hörðabrúðar ok Irpo; ok nú tekr veðrið at ylgjast í norðrit, ok dregr upp ský dökkt ok dimmt með hafino, ok gengr upp með öllo skjótt; en þat var í þat mund dags, er tók ut eyktina [1]), ok dregr nú yfir skýit skjótt ok fylgir þegar jel, ok þótti þeim, sem þángat væri bæði eldíngar ok reiðarþrumor, því allir Jómsvíkíngar átto at vega í gegn jelino. En þetta jel var svâ með miklom býsnom, ok veðrit þat er fylgði, at ekki mátto sumir menn betr, enn fá staðizt; ok nú er menn höfðu áðr um daginn farit af klæðunom fyrir hita sökum, en nú var veðrit nakkvat öðruvís, ok tekr þeim nú at gnolla, ok er þó svâ, at þeir sœkja bardagann frýjolaust. Þat er sagt at Hávarðr höggvandi, förunautr Búa, sèr fyrstr manna, hvar Hörðabrúðr er í liðe Hákonar jarls, ok margir sjá þat ófreskir menn, ok svâ þeir, er eigi voro ófreskir; ok þat sjá þeir með, þá er líttað linaði jelino, at ör fló, at því er þeim þótti, af hverjom fíngri flagðsins, ok varð ávalt maðr fyrir, svâ at bana fèkk af. Ok nú segja þeir Sigvalda ok öðrum sínom fèlögum; ok nú tekr Sigvaldi til orða ok mælti, þvíat þeir Hákon sóttu þá bardagann, sem þeir mátto, er jelino laust á ok meðan þat hèlzk: égi þykki mèr, segir Sigvaldi, sem vèr egim hèr við menn at berjast í dag,

---

[1]) þá var svâ komit deginum, er þetta var tíðinda, at heldr tók út eyktina, *F; en v. í B, R.*

heldr við en versto tröll, ok mon þat þykkja nokkot mannvandara, at gánga vel í móti tröllunom, ok er þó einsætt at menn herðist við sem bezt. Þat er nú ífrásagt jarlinom Hákoni, at þá er hann finnr [at jelino latra [1]), ok eigi var jafn ákaft, sem verit hafði, þá hèt hann enn á Þorgerðe ákafliga ok systor hennar Irpu, ok telr hann þat til við hana ok þær [2]), hverso mikit hann hefir tilunnit, er hann hefir blótað syne sínom til sigrs sèr. Ok nú rekr at jelino annat sinne, ok í þesso jelino öndverðo þá sèr Hávarðr höggvandi, at 2 konor ero á skipe Hákonar jarls, ok hafa eitt atferli báðar, jafnt sem hann hafðe fyrr sèð til annarrar [3]). Ok

[1]) *eða látra, A;* at eldi nokkut èlit *F;* at élit minkar, *B.*
[2]) *þannig lagfært eptir B, F;* þeir, *A.* [3]) *B bætir þessu við:* þat er sagt, at þeir Hákon jarl gjörðu harðar atlögur ok börðust nú djarfliga. Nú er þess getið at Hákon jarl barðist svo djarfliga, at um síðir steypte hann af sèr brynjunne fyrir hita sakir ok erfiðis, svâ segir Tindr:

Vaðar [1]) gims sem gjörði
[gjog túmum ímu [2]) herða
gayr óx Fjölnis fyrða [3])
fagrlig [4]) sæng jarle;

[þars hríng fjóin [5]) hánga
[hrim serkr víðr um merki
brynju ruðz [6]) riðmarar roðe [7])
'rastar varðar [8]) kasta.

Ok enn kvað hann:

Gat [9]) óhræðinn æðru
odd [10]) galdrs enn Sigvaldi
vítt sökk nære njótar
viðrnám Búa kvánti;

áðr mót röðuls [11]) máttu
magrendr [12]) grímnis vagna [13])
saung at sverða þíngi
sárla þrænskum [14]) jarli.

[1]) varða, *hefir afskriftin No. 288 í 4, sem úr er tekinn orðamunr til vísnanna, sem B. bætir við.* [2]) gerðr bjúglimum. [3]) fura. [4]) farlig. [5]) þá er hríng fám, [6]) hryn serk viðurr brynju hruðuz. [7]) roða. [8]) varð að. [9]) bat. [10]) óðs. [11]) róðurs. [12]) margrendir. [13]) vánga. [14]) þrángs úiu.

nú tekr Sigvaldi til orða ok mælti: nú vil ek brott flýja, segir hann, ok geri svâ allir mínir

Ok enn kvað hann:

Dreif at Viðris veðri
vargi grím á margan
verð [1]) auðkundu [2]) viðri
vagl agls [3]) tímis hagli [4])
þars [5]) í sundr á landi
Sörla bligs [6]) fyrir jarli
þess hafa seggir sessi
[serk hríng [7]) ofin merki.

þá hruðust af Jómsvíkingum hálfr þriðe togr skipa, ok þat segir Tindr Hallkelsson í flokki þeim, er hann orti um Jómsvíkínga, ok hevir svâ þar til, at hann var þar sjálfr:

Vann at níunda [8]) sinne [9])
verð bjóði hugins ferðar
beit sólgagar [10]) sveita
sverð eggja spor leggi;
at hjör [11]) meiðar herðir
hætting var þat mætti
leiðar lánga skeiða
liðs hálfan tog [12]) þriðja.

Ok enn kvað hann:

Forráð jarlenn ára
hendr [13]) hermörum kendi
[Göndlar dóms at glaumi
geirs tírar för meire;
undz þá er hrauð enn hauðri
hjaldr ræsi ek þat gjöldum
minnar fús á mæti
morðr víkínga skeiðar [14]).

Ok enn kvað hann:

Gjörðust Göndlar borða
glaumr óx þar at er naumu
auði gríms at [15]) eyðist
öll lönd Dana brandi;
kent hefir hægr at höggva
hræ her birtíngum sénar [16])
veðz eggi undum viggjar
veggs [17]) niðs [18]) um þat Skeggi.

Ok enn kvað hann:

Saddi jarl þars [19]) odda
of [þíng saman [20]) gengu
van hugða [21]) valt húngri [22])
Hrana hyrgis nafni;
[morð skýar [23]) varð mönnum
Mistar gott til vista.
heiðins dóms at haða
öld vann markar síðu

1) varð. 2) auðkunda. 3) algs. 4) agli. 5) þarfs. 6) blings. 7) serkhríng. 8) Vinda. 9) sini. 10) sólgángins. 11) hjörð. 12) tug. 13) hend. 14)
hjaldr ræsi ek þat gjöldum
minnar fúsa mæti;
morð víkíngu skerðir
gulnar dóms at glumi
geirs tírar för meiri
auðs þá er hrauð enn hauðri.
15) er, *b. v.* 16) sjónar. 17) veg. 18) Snids. 19) sár er. 20) þíng sumar. 21) huga. 22) hængr. 23) morðskigr.

menn, ok er nú því verr enn fyrr, þá er ek gat umb þetta, at vèr berjomst nú við 2 flögðin, er þá var eitt, enda skal nú eigi lengr viðhaldast; enda er þát til kostar, at eigi flýjum vèr fyrir mönnonum, þótt vèr haldim undan, ekki strengðu vèr þess heit, at berjast við tröll. Ok nú snýr Sigvaldi undan skipe síno, ok kallar á þá Vagn ok Búa, at þeir skyldu undan flýja sem harðast. Ok nú í því bile, er Sigvaldi hafði frá flotanom leyst skip sitt, ok hann kallar á þá Búa ok Vagn, þá hleypr Þorkell miðlángr af skipe síno ok á skipit Búa, ok höggr þegar til Búa, ok berr þetta nú allbráðum (at). Hann höggr af honum vörina ok hökuna alla niðr í gegnum, svâ at þat fèll þegar niðr í skipit, ok fuko tennrnar or Búa við höggvit, þat er hann fèkk. Þá mælti Búi, er hann fèkk sárit: versna mon enne dönsku

---

Ok enn kvað hann:

Þat vill öld meðan aldir
ýngs kveðju menn byggja
gnógt þat er göglum veitti
glaum Hákonar æfi;

Því hykk bitrum beita
band at villdu [1]) landi
hykk lár eiðe lýða
lætr [2]) hverjum gram betri.

Hrauð en hroptr um [3]) náði
hjaldr ský́a val nýum [4])

Þar var lindz [5]) fyri landi
leiðángr [6]) Dana skeiðar.

Þessi hríð var nú harla ógrlig af atsókn djöflanna með því illa veðri, er þar fylgði, ok af atgángi liðsins, en viðrtakan var ok allhörð af Jómsvíkíngum, þvíat báðir þeir Búi ok Vagn ok allir þeir, er þeim fylgðu, börðust ok alldjarfliga með mikilli hreysti ok ágætri vörn.

---

[1]) villa. [2]) læzt. [3]) hoptum. [4]) mýum. [5]) língs. [6]) leiðgángr.

þykkja at kyssa oss, segir hann, í Borgundarhólme, þótt vèr komem enn þángat þesso næst. Búi höggr í mót til Þorkels, en hált var á skipino, er blóðugt var, ok fellr hann Þorkell í skjaldrinna [1]), er hann vildi forða sèr við höggino, ok kömr nú höggit á hann miðjan, Þorkel, ok höggr Búi hann í sundr í tvâ hluti út við skipsborðit. Ok þegar eptir þetta, þá tekr Búi gullkistor sínar í sína hönd hvâra, ok hleypr síðan fyrir borð með kistornar báðar, ok kömr hvârke upp síðan, svâ at menn sæi kistornar nè hann. Þat segja sumir menn, þá er Búi stè upp á borðit, ok ætlaði at gánga fyrir borð, sem hann gerði síðan, at hann hafi mælt þessom orðum: fyrir borð, allir Búa' liðar! segir hann, ok þá þegar stígr hann fyrir borðit [2]). Nú er þar til at taka, er Sigvaldi dregst út frá flotanom, ok gáir eigi þess, er Búi er

---

[1]) *þannig A;* skjaldrimina, *R.* [2]) *B. bætir þessu við:* ok er þat mál manna, at engi einn hafi meiri kappi verit í liði þeirra Jómsvíkinga, enn Búi digri, hafði hann ok svâ margan mann drepit í bardaganum, at þat kunni enginn maðr at telja; svâ segir Tindr:

þá er fyri borð á barða
í brúðarfáng at gánga
veðr magnanda Viðris
virðendr Búa kendu;

mikinn gjörði herr hjörva
hljómr Búi sunnan
baugz skerðr [1]) at breiðu
baldr Hákonar valdi.

Undr er þreytt af þrindi [2])
þann kendi [3]) val er sendir [4])
gulli [5]) safnaðar [6]) gumna
Goðinar [7]) bræum firri.

Svâ heitir fjörðrinn. Nú falla margir menn Búa, en sumir hlaupa fyri borð, ok hafði hverr þeirra áðr marga menn felda.

---

[1]) skeiðir. [2]) þundi. [3]) bendir. [4]) sendi. [5]) gulls. [6]) safnanda. [7]) geðinnar.

fyrir borð gingenn, ok kallar nú á þá Vagn ok Búa, at þeir skyldi flýja sem hann. En Vagn svarar honum ok kvað víso:

Sigvaldi hefir [1] setta
sjálfa oss und kylfo,
en [fárhugaðr fnauði [2])
fór heim [3]) til Danmarkar;
hyggr [4]) í faðm at falla
fljótt und [5]) kono sinne,
en fyrir borð et breiða
Búi gekk með hugrekki [6]).

Þat er sagt at Sigvalda var orðit kalt í jelino, ok hleypr hann til ára, ok vill láta orna sèr, en annarr maðr sezk við stjórnina; ok er Vagn hafði kveðit vísona, ok hann sèr Sigvalda, þá fleygir hann spjóti til hans, ok ætlaði at hann sæti enn við stjórnina, en Sigvaldi var þá þó við árar, ok hlaut sendíngina sá er stýrðe. Ok þá er Vagn fleygði af hendi spjótino, þá mælti hann til Sigvalda, at hann skyldi fara manna armastr. En Þorkell háfi, bróðir Sigvalda, ferr í brott þegar, er Sigvaldi var farinn, ok hafði 6 skip, ok svâ Sigurðr kápa, þvíat Búi bróðir hans var þá fyrir borð gingenn, ok var þá ekki hans at bíða, ok þykkist nú hvârtveggi þeirra hafa efnt [7]) sína heitstrengíng,

---

1) svâ, *h. v. B.* 2) fáhróðigr flýði, *B;* fárhugaðr flæði, *R.* 3) *þannig lagfært í A fyrir* aptr. 4) hygzt, *B.* 5) nú *eða* aa, *B;* avrr, *R;* vin, *F.* 6) hugreiði, *B.* 7) *Lagfært fyrir* hefnt, *A;* ent, *F.*

Þorkels ok Sigurðar, ok fara þeir nú allir, þar til er þeir koma heim til Danmerkr, ok höfðu í brott með sèr 4 skip ok 20; en allt þat, er afkomsk þeim skipom, er eptir voru, þá hlaupa þeir allir upp á skeiðina Vagns, ok verjast þar allir saman et hvatligsta, allt þar til er myrkva tók[1]), en þá sleit bardaganom, ok stóðu þá enn upp mjök margir menn á skeiðinne Vagns, ok varð þeim Hákoni jarli dagfátt til at leita um skipen, hvat lífvænt væri eða lífs, ok lètu vörðu á halda um nóttina, at engi maðr skyldi komast af skiponom þeirra um nóttina, Jómsvíkínga, ok tóko frá reiðin öll frá skiponum. Ok er þetta var atgjört, þá róa þeir Hákon jarl til lands, ok skjóta yfir sik skjöldum[2]), ok þykkjast nú eiga sigri at hrósa. Nú síðan vega þeir haglkornin, ok reyna svå ágæti þeirra systra, Þorgerðar ok Irpo, ok þykkir vel reynast, ok er þat frásagt, at eyri vægi eitthvert haglkornet, ok vâgu þeir í skálum. Ok nú eptir þetta, þá ero bundin sár manna, ok vaka þeir of nóttina Hákon jarl sjálfr ok Gudbrandr or Dölum.

45. Nú er at segja frá þeim Vagne ok

---

[1]) *B bætir þessu við:* ok fá þeir eigi unnið skeiðina Vagns þetta kveld; kvað Vigfús Vígaglúmsson þá, er menn sóktu at skeiðinni Vagns Ákasonar:

Varðar hægt þar er hurðir
hjörhlofnar sá ek hroma
hátt saung hjörva geitis
hers til Vagns át leggja;

þar gengum vér þröngvar
þunn íse bauð grimnar
straung var danskra drengja
dörrinn flaug til knarrar.

[2]) tjöldum, *F.*

Birne enom brezka, at þeir ræða um með sèr, hvat þeir skulo til raða taka: ok er annattveggja til, segir Vagn, at vera hèr á skiponom, þar til er dagar, ok láta þá taka oss hèr höndum, ok er sá úkjörligr, en hinn er annarr, at leggja til lands ok gera þeim þat íllt, er vèr megum, ok leita síðan at koma oss undan at forða oss. Þat ráða þeir nú or allir saman, at þeir taka siglotrèit [ok rána [1]) ok fara af skipino, ok flytjast þar á, ok ero saman 80 manna, ok flytjast á trjánom í myrkrino, ok vildu til landsins flytjast, ok komast í sker eitt, ok þóttost þá komnir á meginland, ok voro þá farnir margir menninner mjök, ok þar lètu 10 menn líf sitt um náttina, þeir er sárir voru, en 70 lifðu eptir, ok voru þó margir raunar mjök þrekaðir, ok verðr nú ekki farit lengra; ero þar of nóttina. Þat er nú ok frásagt, þá er Sigvaldi hafði undan flýit, at þá tók af jelit ok eldíngar ok reiðarþrumor allar, ok varð eptir þat veðrit kyrt ok kalt, ok svâ er nú ok um nóttina, er þeir Vagn ero í skerino, þar til er dagr er, ok allt til þess er ljóst er orðit. Þat er sagt, at þá er skamt er til dags, at þeir menn jarls ero þá enn at binda sár sín, ok hafa at verit alla nóttina, frá því er þeir lögðu at landi, ok olli þat því, at fjöldi manna var sárr orðinn, en þó höfðu þeir nú lokit mjök svâ. En nú eptir þetta þá heyra þeir, at strengr

[1]) *þannig B, R, F; v. í A.*

gellr út á skipi, ok flýgr ör af skipino, því er Búi hefir á verit, ok kömr undir hönd honum Gudbrandi frænda jarls, svâ at hann þarf eigi fleira, ok er hann þegar dauðr, ok þykkir jarli ok öllum þeim þetta vera enn mesti skaði, ok taka þeir at búa of lík hans, svâ sem þeim sýnest, þvíat þar voru engi önnor efni at. Þess er viðgetið, at maðr einn stóð hjá tjaldsduronom, ok þá er Eiríkr gekk inn í tjaldit, þá spyrr Eiríkr: hví stendr þú hèr, segir hann, eða hví ertu þannig yfirlits, sem þú sèr at bana kominn, eða hvârt ertu sárr? [Þar var Þorleifr skúma. Eiríkr mælti: þat kann ek sjá, segir hann, at þú ert at bana kominn [1]). Þorleifr svarar honum: eigi munda ek vita, segir hann, at blóðrefillinn Vagns Ákasonar kœmi við mik í gær líttað, þá er ek laust hann kylfohöggit. Jarl mælti þá: illa hefir þinn faðir þá haldit [út á landino, segir hann, ef þú skalt nú deyja [2]). Þetta heyrðe Einarr skálaglamm, er jarl mælti; þá verðr honum Einari vísa á munne:

Þat kvað jarl at ærri [3])
unnvigs [4]) fyrir haf sunnan
þá er á seima særi
sárr elda spjör [5]) váro [6]):
öllúngis hefir illa

---

[1]) *þannig F, B, v. í A.* [2]) *v. í R;* út á Islandi e. þ. sk. nú d. svâ röskr drengr, *B;* á landinu út e. þ. s. hèr deyja, *F.* [3]) ærri, *R;* væri, *B.* [4]) brenvígs, B. [5]) spor, *R;* spör, *B;* spavr, *F.* [6]) vöru, *B.*

eybaugs, ef skalt [1]) deyja,
vèr [2]) hyggjom þat, viggja [3])
valdr þinn faðir haldit.

Ok nú fellr Þorleifr skúma niðr dauðr eptir þetta.

46. Ok þegar er ljóst var orðit um morguninn, þá fara þeir jarl at kanna skipin, ok koma á þat skip, er Búi hafði átt, ok vildu allrahelzt verða varir við, hverr skótið hefði um nóttina, ok þótti þeim sá maðr ills verðr vera; ok er þeir koma á skipit, þá finna þeir þar einn mann, þann er [í-endr var ok litlo meirr [4]), en þar var Hávarðr höggvandi, er verit hafði fylgðarmaðr Búa, en hann var þó sárr mjök, svât fœtrnir báðir voro höggnir undan honum fyrir neðan knè. En þeir Sveinn Hákonarson ok Þorkell leira gánga þángat at honum; ok er þeir koma þar, þá spurðe Hávarðr: hvernig er, sveinar! segir hann, hvârt kom hèðan nokkor sendíng af skipino í nótt þángat á land til yðvar eða engi? Þeir svara: kom at víso, segja þeir, eða hvârt hefir þú því valdit? Ekki er þess at dylja, segir hann, at ek senda yðr, eða hvârt varð nokkorum manni mein at, er örin nam staðar? Þeir svara: bana fèkk sá af, segja þeir, er fyrir varð. Vel er þá, segir hann, eða hverr varð fyrir, maðrinn? Guðbrandr hvíte, segja

[1]) þú skalt, *B*, skal, *R*, *F*. [2]) víst, *B*., [3]) viggjar, *B*, vígea, *F*. [4]) líf hafði *F*.

þeir. Já! segir hann, þess varð nú eigi auðit, er ek vildag helzt; jarl hafða ek ætlat; en þó skal nú vel yfir láta, er nokkor varð fyrir, sá er yðr þótti skaðe at. Egi er á at líta, segir Þorkell leira, drepum þenna hund sem skjótast, ok höggr síðan til hans, ok þegar hlaupa til aðrir, ok bera vâpn á hann, ok saxa hann, þartil er hann hefir bana. Spurt höfðu þeir hann áðr at nafne, ok sagðe hann til sín et sanna. Ok nú fara þeir síðan til lands inn, er þeir höfðu þetta atgjört, ok sögðu jarli deili á, hvern þeir höfðu drepit, sögðu þat eigi meðalfarbauta vera, ok þat eitt kvoðost þeir á finna á hans orðum, at eigi mundi skaplyndit umbœta. Nú eptir þetta þá sjá þeir, hvar menn ero á skerino mjök margir saman, ok biðr jarl nú fara eptir þeim, ok taka þá höndum gjörvalla ok fœra sèr, ok lèzk hann vildu ráða fyrir lífe þeirra. Nú gingo menn jarls á eitt skip, ok fóru út til skersins, ok var þar bæði um þá menn, er fyrir voru, at fáir voru vel liðfœrir, bæði fyrir sára sakir ok kulda, enda er ekki frá því sagt, at nè einn maðr verðist; voru þeir nú allir þar hannteknir af jarlsmönnum, ok fluttir til lands á fund jarls, ok voru þeir þá saman 70 [1]) manna. Ok eptir þetta lèt jarl leiða þá á land upp, Vagn ok hans fèlaga, ok ero nú reknar hendr þeirra á bak aptr, ok bundinn hverr hjá öðrum með einom streng ok eigi þörmsamliga. En jarl

[1]) 6, F.

ok hans menn brjóta upp vistir, ok setjast til matar, ok ætlar jarl þá í œrno tóme um daginn, at höggva [1]) þessa menn alla, Jómsvíkínga, ok þeir höfðu nú höndum á komit. Ok áðr þeir settist til matar, þá voru skip þeirra Jómsvíkínga flutt at landi ok svå fjárhlutr, ok var fèit til stánga borit, ok skipti Hákon jarl ok hans lið fèno með sèr gjörvöllu ok svå våpnom þeirra, ok þykkjast þeir nú allskostar hafa unninn mikinn sigr, er þeir hafa fèit allt, en hönlat þá Jómsvíkínga, en elta suma í brott, en þat þó mestr hluti, er drepinn er, ok gambra þeir nú et mesta. Ok nú er þeir jarl ero mettir, þá gánga þeir út or herbúðunom, ok fara þángat til, er þeir ero bandíngjarnir, ok er þat sagt, at Þorkell leira væri tilætlaðr at höggva þá alla. Þeir hafa áðr orð við þá Jómsvíkínga, ok spyrja: hvårt þeir væri menn svå harðir, sem frá þeim var sagt; en þeir Jómsvíkíngar svara þeim öngu um þetta, svåt hèr sè frásagt.

47. Frá því er nú at segja þesso næst, at nú ero menn leystir or strengnum nokkorir, þeir er sárir ero mjök; en þeir Skopti Karkr [2]) ok aðrir þrælar hafa varðveitta þá, ok haldit strengnum. En nu er menninnir voro leystir, þá gera þeir þat at, þrælarnir, at þeir snúa vöndu í hár þeim Jómsvíkíngum; ok ero nú leiddir

---

[1]) skyli, *b. v. F.* [2]) Skopti ok Karkr, *F.*

fram fyrst sárir menn þrír [1]) með þessom búnínge, ok gengr Þorkell síðan at þeim, ok höggr höfuð af hverjom þeirra, ok mælte síðan við fèlaga sína; ok spyr ef honum hefði nokkvat brugðit við þessa sýslo, svât þeir fyndi þat: þvíat þat er mál manna, segir hann, at öllum mönnum bregði við, ef þrjá menn höggva hvern eptir annann. En Hákon jarl svarar honum: ekki sjá vèr þèr brugðit hafa við þetta, segir jarl, en þó [sýndist mèr þèr áðr brugðit [2]). Nú er leiddr or strenginom enn 4ði maðr ok snúinn vöndr í hár þeim, ok leiddr til þángat, er Þorkell hjó þá; þessi maðr er enn sárr mjök. Ok er hann kömr þar, þá mælti Þorkell við hann, áðr hann veitti honum tilræði, ok spurðe, hverso hann hygðe til bana síns. En hann svarar: gott hygg ek til bana míns, segir hann, þat mon mèr verða sem mínom föður, at ek mon deyja; ok nú eptir þetta þá höggr Þorkell höfuð af þessum manni, ok lauk svâ hans æfi. Nú er leystr or strenginum enn fimti maðr, ok leiddr þángat; ok er hann kömr þar, þá segir Þorkell leira: hvern veg er þèr um [at deyja? Hann segir: eigi man ek þá lög Jómsvíkinga, ef ek kvíði við bana, eða mæla ek æðruorð; eitt sinn skal hverr deyja. Höggr Þorkell þann. Nú ætla þeir at spyrja hvern þeirra, áðr þeir sè

---

1) *þannig B, F, R; v. í A.* 2) sýnist oss þèr mjög brugðit, *R*; sýnist mèr, sem þèr sè mjök brugðit, hvat sem eptir kemr, *F*.

drepnir, ok reyna svâ liðit, hvårt svå sè fræknt, sem sagt er, ok þykkir þá reynt, ef eingi mælir æðruorð. Þá var tilleiddr enn 6ti maðr, ok snúinn vöndr í hár. Þorkell segir með sama hætti; honum kveðst gott þykkja at deyja við góðan orðstír: en þú, Þorkell! munt lifa við skömm. Höggr hann þenna. Þá er þángat leiddr enn 7di, ok spyrr Þorkell eptir vanda. Ek hygg allgott til at deyja, en þú högg mik skjótt; ek held á tygilkníff, því at vèr höfum átt opt um at ræða, Jómsvíkíngar, hvårt maðr vissi nökkvat, ef hann væri allskjótt höggvinn, þá er höfuðit væri af; en þat mun til merkis, at ek mun vísa fram kníffinum, ef ek veit nökkuð, ella mun hann niðrfalla. Þorkell höggr þann, ok fauk af höfuðit, en knífrinn fèll niðr. Þá var tekinn enn átti maðr, ok spurði Þorkell eptir vanda. Hann kveðst gott til hyggja, ok þá er honum þótti, sem skamt mundi at bíða: hrútr! segir hann. Þorkell stöðvaði höggit, ok spurði, hví honum yrði þat at munni. Hann segir: þó mon eigi ofskipat til ánna, þeirra er þèr nefndut í gær, jarlsménn! þá er þèr fenguð áverka. Manna armastr! segir Þorkell, ok lætr skjalla honum höggit. Þá var leystr enn 9di maðr. Þorkell segir eptir vanda. Hann segir: gott hygg ek til bana míns, sem allir vårir fèlagar, en ek vil eigi láta mik höggva sem sauð, heldr vil ek sitja fyrir; en þú högg framan í andlit mèr, ok hygg at vand-

liga, hvårt ek blöskra nökkut, þvíat vèr höfum þar opt átt um at ræða. Nú er svå gjört, at hann sitr fyrir, en þorkell gengr at framan, ok höggr í andlit honum, ok blöskrar hann eigi, nema sigu saman augun, þá er dauðinn fór á. Þá var tilleiddr enn 10di maðr, ok spyrr þorkell enn. Hann segir: þat vil ek at þú bíðir, meðan ek bjarga brókum mínum. Þat skal veita þèr, segir þorkell. Ok er hann hafði þat gjört, mælti hann: mart verðr annann veg enn maðrinn ætlar, ek hugða at koma í rekkju hjá þóru Skagadóttur, konu jarls, ok hristi fèlagann, kippir upp síðan brókunum. Hákon jarl mælti: högg þenna sem tíðast, sjá hefir lengi íllt haft í hug. Höggr þorkell þann. Þá var leiddr til maðr úngr, sá hefir hár mikit ok gult sem silki. Þorkell spyrr eptir vanda. Hann segir: lifat hefi ek nú et fegrsta, þeir hafa nú látið líf fyrir skömmu, er mèr þykkir ekki í veitt at lifa, en eigi vil ek, at mik leiði þrælar til höggs, heldr sá maðr, er eigi er verri drengr enn þú, ok mun sá óvandfenginn, ok haldi hárino fram frá höfðinu ok hnykki höfðino, at hárit verði eigi blóðukt. Hirðmaðr einn gengr til, ok tekr hárit, ok vefr um hönd sèr; en þorkell [1]) reiðir at sverðit, ok ætlar

[1]) *þetta vantar í A allt frá því um fimmta manninn:* „hvernveg er þèr um," *og af því at hèr er blaðaskipti, þykir sem blaðkorn hafi týnzt úr A, er þat því tekit úr R, þó frásögnin sè hèr að líkindum nokkuð styttri, enn í A hefir verit. B og F hafa þetta allt, og nærri sömu orðum sem R.*

at veita honum þat tilræði, er hann gat, at höggva hann hart ok skjótt, ok höggr hann til. En þessi enn únge maðr, er hann heyrir hvinena af höggino, þá hnykkir hann hart höfðino, ok bar þannig til, at sá hlýtr höggit, er honum hèlt, ok höggr Þorkell af honum, hirðmanninom, hendrnar báðar í ölbogabótom. En hann sprettr upp, enn únge maðr, ok bregðr á gamanmál, ok mælti: hverr á sveina, segir hann, hendr í hári mèr? Hákon jarl tekr þá til orða ok mælti: stór-úfarar gerast nú, segir hann, of menn þessa, er eptir ero í strengnum, ok taki sem skjótast ok drepi, ok hefir hann þó miklo slise á oss komit, ok er einsætt, at þeir sè drepnir allir sem skjótast, er eptir ero, þvíat miklo ero menn þessir óðinndælli [1]), enn vèr fáim við þeim sèð, ok hafa eigi ofsögur verit frásagðar þeirra garpskap ok herði. Eiríkr tók nú til orða ok svarar föður sínom: vita viljo vèr nú, faðir! segir hann, hverir menninnir sè, áðr drepnir sè allir; eða hvat heitir þú, enn únge maðr? segir Eiríkr. Sveinn heiti ek at nafne, segir hann. Hvers son ertu, Sveinn! segir Eiríkr, eða hvert er kynferði þitt? Búi digri heitir faðir minn, segir hann, ok var Veseta son or Borgundarhólme, ok em ek danskr at kyne. Hverso gamall maðr ertu? segir Eiríkr. Ef ek líð yfir þenna vetrinn, segir hann, þá em ek 18 vetra gamall at aldri. En þú skalt

[1]) verri viðfángs, R.

ok yfirlíða vetrinn, segir Eiríkr, ef vèr megum ráða, ok skal þik eigi drepa; ok tekr Eiríkr hann nú í frið, ok lætr hann nú vera í sveit með sèr ok sínom mönnum. Ok er Hákon jarl sèr þetta, þá tekr hann til orða ok mælti: eigi veit ek nú, segir hann, hverso þú ætlar til, ef þú villt þenna manninn undan þiggja, er oss hefir svâ mikla skömm ok háðúng gjörva, sem þessi enn únge maðr, er vèr höfum verst af honum hlotið, en þó kann ek eigi þat sjá, at ek mona sœkja eptir manninom í hendr þèr, ok muntu nú ráða verða at sinne. Ok nú verðr svâ búit at vera, sem Eiríkr vill. Ok nú mælti Hákon jarl við Þorkel leiro: högg enn menn-ina sýsliga, segir hann. Eiríkr svarar: eigi skal nú höggva mennina, segir hann, fyrr enn ek hefi aðr haft orð við þá, ok vil ek vita, hverr hvergi sè.

48. Þá er maðr enn leystr or strenginom á því mælino, ok hefir strengrinn brugðizt líttað af fótum honum, svât festi nokkót. Þessi maðr er mikill vexti ok vænn, úngr at aldri ok enn vaskligsti. Þorkell spyrr hann, hverso hann hygði til at deyja. Gott hygg ek til þess, segir hann, ef ek gæta áðr enda heitstrengíng mína. Eiríkr jarl mælti: hvert er nafn þitt, segir hann, eða hver er sú heitstrengíng þín, er þú vildir áðr einkum at framkœmi, áðr enn þú lètir líf þitt? Hann svarar: Vagn heiti ek, segir hann, ok em ek son Áka Pálnatókasonar af

Fjóne, svå er mèr til kennt. Hvers strengðir þú heit, Vagn! segir Eiríkr, þess, er þèr kveðst þú þá þykkja gott at deyja, ef hún væri fram komin ok efnd eptir því sem þú vildir? Þess strengða ek heit, segir Vagn, at ek skylda kominn í rekkjo Íngibjargar, dóttur Þorkels leiro, on hans ráði ok allra hennar frænda, [en drepa sjálfan hann [1]), ef ek kœmag í Noreg [2]), ok þyki mèr mikit atskorta um mitt mál, ef ek skal þessu eigi framkoma, áðr enn ek deyja. Ek skal at því göra, segir Þorkell, at þú skalt þessu eigi framkoma áðr, ok hleypr at honum Vagni, ok höggr til hans báðum höndum; en Björn hinn brezki, fóstri hans, spyrndi til Vagns *fœti sínum*, ok hratt honum hart undan högginu. Þorkell höggr yfir Vagn, en sverðit kemr á strenginn, er Vagn er bundinn með, ok gekk hann í sundr, er Vagn nú lauss, en ekki sárr. Þorkell steyptist við, er hann misti mannsins, ok fellr hann, en sverðit rauk or hendi honum. Svâ hafði Björn hart spyrnt til Vagns, at hann hafði fallit við, en eigi lá hann lengi, ok sprettr upp þegar skjótt; hann tekr sverðit, er Þorkell hafði haft, ok höggr Þorkel þegar banahögg. Nú hefi ek efnda aðra heitstrenging

*1) þannig R; vantar í A.* *2) Hèðan frá er eptir ein blaðsíða í A, næstum öll ólæsilig, en hitt vántar, og er tekit úr F, sem þykir næst koma A að orðatiltæki og frásagnar lengð; en R er styttri hèðan af, enn A þykir hafa verið.*

mína, segir Vagn, ok uni ek nú þegar sýnu betr við, enn áðr. Hákon jarl mælti: láti þèr hann nú eigi lausan viðleika lengi, ok drepi þèr hann fyrst, þvíat hann hefir unnit oss mikinn skaða. Eigi skal hann drepa, segir Eiríkr, ef ek má ráða, fyrr enn oss, ok skal ek Vagn undan þiggja. Hákon jarl mælti: eigi þurfum vèr nú til at hlutast, einn viltu nú ráða, frændi! segir hann. Gott er mannkaup í Vagni, faðir! segir Eiríkr, ok sýnist mèr því vel keypt, at vèr takim hann í virðíngar ok metnað, sem haft hefir Þorkell; átti Þorkell þessa af von, sem nú hlaut hann, þvíat nú kemr at því, sem opt er mælt, at spá er spaks geta, en þú sátt þegar í dag feigðina á honum; ok nú tekr Eiríkr Vagn á sitt vald, ok er honum nú við öngvu hætt, ok þá mælti Vagn: því at eins þykki mèr betra at þiggja grið af þèr, Eiríkr! ef þeim öllum eru grið gefin, er eptir eru vorra fèlaga, ellegar munu vèr fara allir saman förina fèlagar. Eiríkr svarar: ek vil nú hafa orð við þessa fèlaga þína, en þó fyrirtek ek ekki þat, er þú beiðir; ok nú gengr Eiríkr til, þángat sem var Björn inn brezki, ok spyrr, hverr hann væri, eðr hvat er hann hèti. Hann svarar ok lèzt Björn heita. Ertu sá Björn, er bezt sóttir eptir manninum í höll Sveins konúngs. Eigi veit ek þat, segir Björn, at ek sækta bezt eptir, en þó kom ek þaðan manninum í brott. Hvat áttir þú at oss at sækja, segir Eiríkr, gamall maðr, er þú

hefir farit híngat, eða hvat rak þik til þessar ferðar, sköllóttan mann ok hvítan sem maskara [1])? ok er þat satt, segir Eiríkr, at öll strá vildu oss stánga Noregs menn, síðan þèr fórut híngat, jafnvel þeir menn, er komnir eru af fótum fram fyrir aldrs sökum, at berjast við oss, eða hvert vilt þú þiggja líf at mèr? segir Eiríkr, þvíat mèr þykir eigi at þèr vígt, svâ gömlum manni. Björn svarar: þiggja vil ek víst líf at þèr, Eiríkr! segir hann, við þann kost, at Vagn fóstri minn hafi grið, ok allir þeir vorir menn, er eptir eru. Þat skal yðr nú öllum veitt vera, ef ek má nú ráða, segir Eiríkr, en ek skal ráða; ok síðan gengr Eiríkr fyrir [2]) föður sinn, ok biðr hann þess, at þeir hafi allir grið Jómsvíkíngar, er eptir eru, ok þat veitir jarl honum; ok nú eru þeir allir leystir, Jómsvíkíngar, ok þeim trygðir veittar, ok í frið teknir. Ok nú er þann veg tilskipat af þeim Hákoni jarli ok Eiríki, at Björn hinn brezki ferr til bús þess, er átt hefir Hallsteinn kellíngarbani. Þat er sagt at 5 fèlli lendir menn aðrir enn Hallsteinn. Vagn Ákason fór austr til Víkr at ráði Eiríks, ok mælti Eiríkr við Vagn, áðr þeir skildust, at hann skyldi svâ breyta um brúðkaup við Íngibjörgu Þorkelsdóttur, sem hans væri vili til sjálfs. Ok er

---

1) *þannig A*; hvítr sem maskari, *F*; hvítan sem hnjóskara, *B.* hvítan sem snjóskara, *afskriftin* 288 *í* 4. 2) *Hèr er úti sú seinasta blaðsíða af A.*

Vagn kemr austr í Vík, þá gengr hann í sæng hjá Íngibjörgu hinn sama aftan, dóttur Þorkels leiru, ok er Vagn þar um vetrinn; en um vorit eptir ferr Vagn í brott, ok hèlt hvern hlut vel, þann sem hann hafði heitit Eiríki; ok ferr Vagn til Danmerkr heim á Fjón til búa sinna, ok rèð þar fyrir lengi síðan, ok þótti vera hinn mesti afreksmaðr, ok er mart stórmenni frá honum komit. Þat er sagt, at Vagn hafði Íngibjörgu heim með sèr; en Björn hinn brezki ferr heim til Bretlands, ok rèð þar fyrir meðan þeir lifðu, ok þótti vera hinn vaskasti drengr [1].

49. Nú er at segja frá Sigvalda, at þá er hann flýði úr bardaganum, nam hann eigi fyrr staðar, enn hann kom heim í Danmörk, ok var Ástríðr kona hans þar fyrir, er þeir koma heim, ok görði hún veizlu í mót honum. Þeir segja tíðendin frá bardaganum ok frá förinni allri saman, síðan er þeir Jómsvíkíngar fóru heiman or Danmörk, ok þótti mönnum þat mikil skemtan at heyra, er þeir sögðu frá þeim tíðendum; ok þess er viðgetit, at Ástríðr vildi fagna sem bezt Sigvalda jarli hvívetna, ok sýna þat, at hún er fegin orðin hans heimkvomu. Hún lætr göra honum laug, biðr hann síðan fara í laugina: ok veit ek, segir Ástríðr, at leið

[1]) *Hèr segir F nokkuð frá Sigmundi Brestissyni, er því sleppt hèr, eins ok annarstaðar að undanförnu, af því hans er hvergi getið í A.*

svà lángri, sem er or Noregi, þá mun mál at sægja sárin, þau er þèr fengut í bardaganum. Síðan ferr Sigvaldi í laugina, ok hlítir Ástríðr ekki öðrum konum at því, at þjóna honum í lauginni, ok mælti síðan: verit get ek hafa nokkura í bardaganum í liði Jómsvíkínga, er þaðan munu hafa borit rausóttara belginn, enn svà, sem þú hefir borit, þvíat mèr þykir sjá til þess bezt fallinn, at varðveita í hveitimjöl. Sigvaldi svarar: þat mætti verða minnar æfi, at þú ættir eigi slíkum sigri at hrósa, sagði hann, ok hygg þú at því, at þèr líki þá betr; ok þá er ekki sagt frá þeirra viðrtali lengra at sinni. Sigvaldi rèð fyrir Sjálöndum nokkura stund síðan, ok þótti vera hinn vitrasti maðr, ok var eigi þar allr, sem hann var sèn, ok eru mikil tíðendi frá honum sögð í öðrum sögum [1]). En Hákon jarl rèð skamma stund Noregi síðan, ok þótti hann verða hinn ágætasti allskonar af þessu öllu saman ok svà synir hans. Ekki er hèr frá því sagt, hvat Sveinn Búason lagði fyrir sik, hvort hann var með Eiríki, eðr gjörði hann annat af sèr. En Sigurðr kápa, bróðir Búa, fór til Danmerkr, ok tók við föðurleifð sinni eptir Veseta í Borgundarhólmi, ok bjó þar lánga æfi, ok þótti vera hinn bezti drengr, ok er mart manna frá honum komit ok þeim Tófu, ok voru samfarir þeirra góðar síðan. Þorkell hinn hái, bróðir Sigvalda, þótti hinn

[1]) Sonr hans hèt Gyrðr, ok var mikill víkíngr, *b. v. B.*

vitrasti maðr, sem reyndist síðan í mörgum hlutum. En Skjaldmeyjar-Einarr fór til Íslands, ok druknaði á Breiðafirði, ok heita þar af því Skáleyjar, at þar rak skálirnar á land, þær sem jarl gaf honum. En Þórðr örvönd fór heim í Dýrafjörð til Þorkels föður síns í Alviðru, ok verðr hèr svâ sagt, (at) þeir Þorleifr skúma ok Þórðr örvönd hafi bræðr vèrit, ok bjó Þórðr í Alviðru eptir föður sinn, ok er mart manna frá honum komit í Fjörðum vestr [1]), ok sögðu þeir Einarr glöggvast frá þessum tíðendum út til Íslands. En þat er sögn manna síðar, at Búi hafi at ormi orðit ok lagizt á gullkistur sínar; en vèr hyggjum þat til þess haft vera, at þar hafi ormrinn sèzt á Hjörúngavogi, ok kann vera, at nokkur ill vættr hafi lagizt á fèt, ok sýnzt þar síðan; en eigi kunnum vèr at segja hvort heldr er, má ok vera, at hvorki sè satt, því at marga vega má sýnast [2]).

50. Sveinn konúngr Saumæsuson var nú heima í Danmörk. Knútr óx upp, son hans, ok var heima uppfæddr. Þorkell hinn hávi fóstraði hann. Sveinn konúngr herjaði á ríki Aðalsráðs konúngs, ok gjörir hann landflótta suðr um haf. Sveinn konúngr setti Þíngamannalið í tveim stöðum, annat í Lundúnaborg; þar rèð fyrir Eilífr Þorgilsson, bróðir

[1]) *Hèr endar B þannig:* Vigfús Vígaglúmsson fór ok til Íslands, ok sagði þar fyrstr manna þessi tíðindi til Íslands, ok lýkr hèr Jómsvíkinga sögu. Geymi guð þann er ritaði ok sagði, ok alla þá, er hlýddu á, utan enda, amen. [2]) *Hèr endar R, þó orðatiltækið sè nokkuð öðruvísi.*

Ulfs; hann hafði 60 skipa í Temps. Annat þíngamannalið var norðr í Slessvík; þar rèð fyrir Hemíngr jarl, bróðir Þorkels háfa; þar voru enn 60 skipa. Þíngamenn settu þau lög, at engi skyldi kvittr kveikjast, ok engi vera um nótt á brott. Þeir höfðu kyrkjusókn til Búrakyrkju; þar var ein stór klukka; henni skyldi hringja, þá er þriðjúngr lifði nætr, hverja nótt; þá skyldu allir til kyrkju gánga, ok eigi með vopnum; slík lög höfðu þeir í Slessvík. Þórðr hèt maðr ok Auðunn í liðinu.

51. Sá maðr hafði forráð í borginni, er Álrekr Strjóna hèt, bróðir Emmu Ríkgarðs dóttur jarls, föðurs Vilhjálms; hana átti Aðalráðr konúngr. Norðr rèð fyrir Englandi Úlfkell snillíngr; hann átti Úlfhildi dóttur Aðalráðs konúngs. Sveinn konúngr andaðist í Englandi, ok færðu Danir hann til Danmerkr, ok grófu hann í Hróiskeldu hjá föður sínum. Þá var Knútr 10 vetra. Mikit var ríki Þíngamanna. Markaðr var þar tvo tíma á 12 mánaðum, í annat sinn um miðsumar, en annann tíma um miðsvetrar skeið. Eigi þykir enskum mönnum sýnt, at hægra sè öðru sinni at ráða af Þíngamannalið, er Knútr var úngr, en Sveinn andaðr. Hvern vetr í mót jólum fóru vagnar til borgarinnar, ok var þar fjárhlutr sá, er menn voru vanir at hafa til markaðarins; svâ var ok þenna vetr, ok tjaldat yfir öllum; þat var at ráðum, svikum ok vilja Ulfkels snillíngs ok

þeirra bræðra, Aðalráðssona. 7da dag jóla gekk Þórðr utan borgar til húsa konu, þeirrar er honum fylgði; hún bað hann vera þar um nóttina. Hví biðr þú þess, er víti liggr við? Því bið ek þessa, kvað hún, at mèr þykir máli skipta. Við skulum kaupa saman, kvað hann, at ek mun hèr vera, en þú seg mèr, hvat tilberr, er þú biðr þessa. Þat sætir, segir hún, um bæn þessa, at ek veit ráðinn bana öllu Þíngamanna liði. Hví máttu þat vita, kvað hann, er vèr vitum eigi? Þat er svâ viðlátit, segir hún, at menn óku híngat vögnum í borgina, ok lètu sem þeir færi með fjárhlut, en þar var fjölmenni í hverjum vagni, en engi fjárhlutr, ok svâ hafa þeir ok gjört norðr í Slessvík. En þá er þriðjúngr er af nótt, mun hríngt í borginni, skulu þá hermenn búast um miðnætti; skulu menn búast annann veg í borginni. En þá er þriðjúngr lifir nætr, mun hríngt af Búrakyrkju; þá munu þèr ætla til kyrkju slippir, en þá mun sleginn hríngr um kyrkju. Búit er við, kvað Þórðr, at vinsældir þínar sè miklar, ok mun ek segja Eilífi, þótt kvittr þyki vera; en bú þetta skaltu eiga. Þórðr gekk í borgina; hann fann Auðunn fèlaga sinn, gánga þeir ok segja Eilífi. Hann görir menn vara við; sumir trúðu, en sumir kvoðu fælíngar. Heyra þeir hríngíngar eptir vana, ok hyggja margir, at prestr muni hríngja. Þeir menn allir, er orðum Þórðar trúðu, gengu með vopnum en hinir allir slippir.

52. Þá er þeir koma í kyrkjugarð, var þar fjöldi liðs. Þeir máttu þá eigi ná vopnum sínum, þvíat þeir kvomust eigi til húsa sinna. Eilífr spyrr þá ráða, en þeir látast eigi kunna. Eigi þyki mèr vel ráðit, kvað Eilífr, at hlaupa í kyrkju, ef þat verðr at öngu skjóli, en sýna sik í hræðslu. Þat kemr mèr í hug, at vèr munum hlaupa á herðar þeim, er fyrir utan standa garðinn, ok vita ef vèr kæmimst með því undan til skipa, ok svâ gera þeir. Þat varð mannfall mest, er við skip varð. Eilífr komst á burt með 3 skip, en öngir or Slessvík, ok þar fèll Hemíngr. Eilífr ferr til Danmerkr. Nokkuru eptir þetta var Játmundr til konúngs tekinn í Englandi; hann var konúngr 9 mánuðu. Á þeim tíma háði hann 5 orrostur við Knút Sveinsson. Álrekr strjóna, er sumir kölluðu Eirík, var fóstri Játmundar, bróðir Emmu, er átt hafði Aðalráðr Englakonúngr. Þorkell hávi hafði þá mest forráð fyrir Danmörk. Þeir áttu þíng um vorit eptir fall Þíngamanna. Eilífr eggjaði at fara til hefnda, en Þorkell svarar: vèr höfum konúng úngan, en eigi hæfir at herja svâ, at konúngs sè eigi viðgetit, en á þriggja vetra fresti væntir ek, at eigi muni konúng skorta harðfengi, en lið óvarast. Eilífr svarar: ósýnt er, at þeim sè minnisamt á þriggja vetra fresti, er nú þykkir einkis um vert. Eilífr ferr út í Miklagarð, ok gjörðist

höfðíngi fyrir Væríngjaliði, ok fèll þar um síðir. Á þriggja vetra fresti fór Knútr, Þorkell ok Eiríkr með 8 hundrat skipa til Englands. Þorkell hafði 30 skipa, ok drap Úlfkel snillíng, ok hefndi svâ Hemíngs bróður síns, ok gekk at ega Úlfhildi, dóttur Aðalráðs konúngs, er Ulfkell hafði átta. Þar fèll með Ulfkatli hvert mannsbarn af 60 skipa; en Knútr konúngr vann Lundúnaborg. Þorkell fór með landi fram, ok fann Emmu drotníngu á einu skipi; hann flytr hana heim í land með sèr, fýsir Knút konúng at biðja hennar, ok gekk Knútr konúngr at ega hana. Hún ól son um vetrinn, er Haraldr hèt, kenníngarson Knúts; Hörðaknútr var þeirra son. Sveinn var enn son Knúts ok Alfífu; Gunnhildr hèt dóttir Knúts; hana átti Heinrekr keisari Konráðsson; með honum fór Knútr til Róms. Þat var miklu síðar, er Knútr konúngr var at boði hjá Þorkatli háfa, þá sá konúngr Úlfhildi, ok þótti hann hafa svikit sik í kvennaskipti, ok rèð Þorkeli fyrir þá sök bana. Þeir Knútr konúngr ok Játmundr áttu nokkura bardaga. Eptir þat báðu hvorirtveggju, Danir ok Englismenn at þeir skyldu sættast, ok þeir gjörðu svâ, ok skyldi hvorr taka land eptir annann, er lengr lifði. Mánaði síðar var Játmundr veginn af fóstra sínum Álreki strjónu; eptir þat öðlaðis Knútr allt England, ok rèð því 4 vetr ok 20.

# Jómsvíkíngadrápa
## Bjarna bískups.

1. Aungan kveð ek at óði
örum málma rýri
þó gat ek hróðr um hugðan
hljóðs at ferðar þerði [1]);
fram mun ek fyrir öldum
Yggjar bjór um færa,
þó at einigir ýtar
ættgóðir mèr hlýði [2]).

2. Hendir enn sem aðra
úteitan mik sútar
mèr hefir harm á hendi
harðla [3]) fögur kona bundit;
þó em ek óð at auka
ærit gjarn at hvâru,
mjök em ek at mèr orðinn
úgæfr um för vífa.

3. Dreng var dátt um svarra
dorgar vángs fyrir löngo,

1) *er halfmáð í A, en B les* snúði. 2) *Hèr er visað inní í A* rekkar víðar, *en sýnist þó vera hèr ofaukið.* 3) *er óskýrt í A.*

því hefir oss um únga
eldreið skapi haldit;
þó hefi ek ort um ítra
allfátt mjaðar þeHu,
vel samir enn um eina
ölseljo mèr þylja.

4. Varkat ek firri [1]) und forsum
fór ek aldrei at göldrum
. . . . . . . [2])
annat þarf at yrkja;
allstórum mun fleira
. . [2]) greppr um snerto.[3])
þat berum upp fyrir ýta
óhljóð sögu kvæði.

5. . . [2]) gu v sitja
seima guðr at Jómi,
fögur rænir mik flaumi,
fimm höfðíngja snemma;
vel samir víst at telja
vinnar hreysti manna,
þar er um málmþíngs meiða
merkiliga at yrkja.

6. Hvervitna frá ek heyja
Harald bardaga stóra,
þeir ruðu bitra branda
böðgjarnastir niðjar;
sjá knáttu þar síðan
siðfornir glym járna

[1]) *er mát í A; B les* firir. [2]) *það sem hèr vantar, er rifið af bladsíðuhorninu í skinnbókinni A.* [3]) *eða* bjerto.

þótti þeim at efla
þörf Veseta arfa.

7. Geta skal hins hverr hvatra
höfðíngi var drengja,
sá gat sigri at hrósa
snjallastr at gjörvöllu;
hverr var hóti minni
hreysti maðr at flestu
heldr í herðiraunum
hauklyndum syni Áka.

8. Sigvaldi hèt seggja
snarfengra höfðíngi,
ok rèð þar fyrir þegnum
þorkell liði snjöllu;
Búi var at hverjum hjaldri
harðráðr með Sigurði,
frágum Vagn at væri
víst ofrhugi enn mesti.

9. Hèldu dreyrgra darra
Danmarkar til sterkir [1]),
þeim gafst rausn ok ríki,
rjóðendr skipum sínum [2]);
ok auðbrotar erfi
ógnrakkastir [3]) drukku,
þeim frá ek ýmsum aukast
annir, feðra sinna.

10. Enn vildu þá einkum
öldar [4]) menn at skyldo,

[1]) styrkir, O. [2]) síþan, O. [3]) ógnrakkir þar, O.
[4]) öldur, O.

slíkt eru yrkis efni,
ágæta sèr [1]) leita;
ok haukligar [2]) hefja
heitstrengíngar tóku [3]),
eigi segik [4]) at [5]) ýta
ölteiti var lítil.

11. Heitstrengíng frá ek hefja
heiptmildan Sigvalda,
Búi var örr at efla [6])
órækinn þrek [7]) slíkan;
hètuzt þeir af hauðri
Hákun reka fíkjom,
grimm [8]) var frægra [9]) fyrða [10])
fjón [11]), eða lífi ræna.

12. Búi lèzt barr at fylgja
böðmildum Sigvalda
til hjörþrymu harðrar
hugprúðr vera síðan;
hafa kvaðst Hávarð vilja
hrannabrjótr at gunni,
sèr kvað hann eigi illa
Áslák í för líka.

13. Vagn kvað hitt enn hrausti
Hamðis gunnar tömdum
sá lèzt frækn at fylgja
faldr úðr Búa skyldu;

[1]) ágætis síns, *O.* [2]) haukligazt, *O.* [3]) gátu, *O.* [4]) frá ek, *O.* [5]) orð, *O.* [6]) auka, *O.* [7]) styr, *O.* [8]) gram, *O.* [9]) fræknra, *O.* [10]) furða, *O.* [11]) *eða* fíon *i A.*

þá rèð heit til hvítrar
hríngameiðr [1]) at strengja,
mèr kemr harmr at hendi
hættr, Þorketils dóttor.

14. Ein drepr fyrir mèr allri,
útrauðr á lög skeiðum
örr þengill bað ýta,
ítr manns konan teiti;
goðætt of kemr grimmu,
gekk herr á skip darra
hinn er kunni gný guma [2]),
gæðíngs at mèr stríði.

15. Sagt var at sunnan hèldu
snyrtimenn um hrannir,
kaldr dreif marr á meiða
morðbáls, skipa stóli;
lömðu heldir húfar
hríð kannaði lýðr
gnúði svalr á sýjo
sjár ísugar bárur.

16. [Sagt var at [3]) rauðra randa
reynendr flota sínum
jólanótt at Jaðri
Jómsvíkíngar komo [4]);
våru heldr á harðan
hernat fírar gjarnir,
rjóðendr buðu ríki
randorm á [5]) Geirmundi.

[1]) hrigameiðr, er pennavilla i *A.* [2]) gmnia, *A.* [3]) segja, *O.*
[4]) kvæmi, *O.* [5]) rand orma, *O.*

17. Þá buðu þeir á [1]) móti
þeim er sunnan komu [2])
til geirhríðar greppum [3])
görla Noregs jarlar;
þar var mestr á mæli
morðremmandi skömmu
margr var at laufa leiki
landherr saman [4]) fundinn.

18. Ein drepr fyrir mèr allri,
eldr gnauðaði víða
elri skæðr um eyjar,
ítr manns konan teiti;
goðætt of kemr grimmo,
gaus upp logi úr húsum
griðum rænti sá gumna,
gæðíngs at mèr stríði.

19. Ok höfðíngjar hraustir
heyra menn at væri [5]),
þat hefir þjóð at [6]) minnum,
þrír með flokki hvârum;
þar er hreggviðir hittust
hjálmaskóðs á víðum,
fundr þótti sá fyrðum [7])
frægr [8]), Hjörúngavâgi.

20. Hauðr frá ek Hákon verja
hart svâ at eigi skorti,
Eiríkr hefir eggjar

[1]) at, *O.* [2]) kvæmi, *O.* [3]) greipum, *O.* [4]) *er gleymt í A; tekit úr, O.* [5]) voro, *O.* [6]) í, *O.* [7]) fyrða, *O.* [8]) á, *b. v. O.*

ótrauðr verit rjóða;
ok sögðu þar ýtar
Ármóð vera síðan,
sá var greppr við gumna
glaðr, höfðíngja hinn þriðja.

21. Lögðu heiptar hvattir
herði menn þar er börðust,
herr var hauðr at verja
hundíngja, saman randir;
ok víkíngum vâro
varð raun at því einum
þat kveða eigi árla
ýtar fimm á móti.

22. [Ein drept fyrir [1]) mèr allri
atróðr mikinn grimðu
. . . . . . .
[ítr manns konan teiti [1]);
goðætt of kemr grimmu;
glygg magnaðist eggja
. . . . . . . .
gæðíngs at mèr stríði.

23. Sigvaldi bað sína
sóknstránga vel gánga,
hann varat samr á sáttir,
sveit Hákoni á móti;
Haralds arfi klauf hjálma
hildar örr ok skjöldu,

[1]) *þetta er hèr tilsett, eins og það stendr annarstaðar, þó það sè ásamt þeim tveim línum, er í vísuna vanta, rifið af blaðinu í A.*

fram gekk hann fyrir hlífar
hart nâkkvara sinnum.

24. Þar gekk fram í fólki
fránlyndr Búi sínu,
þess kveða verða vissu
vânir, hart með sveina;
ok geirviðir görðu
grimma, höggum rammir
gengu þeir at gunni,
geysta vâpna brestu.

25. Klauf með Yggjar eldi
[ólmr Gullbúi [1]) hjálma,
niðr lèt hann í herðar
hríngserkja böl gánga;
hart vann [2]) högg at stæra
Hávarðr liði fyrða,
við hefir íllt [3]) at ega
Áslák [4]) verit fíkjum.

26. Ein drepr fyrir mèr allri,
el gnúði mjök stála,
álmr spann af sèr odda,
ítr manns konan teiti;
goðætt of kemr grimmur,
gripu þeir í bug snærum
gunnrakkastir gumnar,
gæðíngs at mèr stríði.

27. Þar frá ek vâpnum verjast

[1]) álmr gall, Búi, *O.* [2]) réð, *O.* [3]) illr, *O.* [4]) Aslákr, *O.*

Vagn feldi lið þegna,
hann klauf breiðra brúna
berg hundroðit mörgum;
grimmr var snarpra sverða
söngr, burgust vel drengir,
vann arfþegi Áka
ös, fèll blóð á kesjor.

28. Vagn hefir orðit ýtum
örfengr at böð strángri,
með fullhuga fræknum
framgengu vel drengir;
þar er [1]) í Yggjar èli
Áka sunr hinn ríki
brátt frá ek hann at hlæði
hugprúðum Ármóði.

29. Hvervitna frá ek hölda,
herr æxti gný darra,
fyrir hreggviðum hjörva
hrökva gunnar rökkum [2]);
áðr í örva drífu
ýtum grimmr at blóta,
fram kom heipt hin harða,
Hákon þegar [3]) tæki.

30. Ein drepr fyrir mèr allri,
ylgr gekk á ná bólginn
þar stóð úlfr í átu,
ítr manns konan teiti;
goð ætt of kemr grimmu,

[1]) þars, O. [2]) rekkum, O. [3]) syni, O.

gein vargr um sal mergjar
graðr þvarr gylðis jóða,
gæðíngs at mèr stríði.

31. Þá frá ek el hit illa
æða [1]) Hölgabrúði [2]),
glumði hagl á hlífum [3]),
harða grimt or norðri;
þar er [4]) í ormfrán augu
ýtum skýagrjóti,
þí knátti ben blasa,
barði hreggi keyrðu.

32. Þar [5]) var þörfum meiri
þrekförluðum jarli,
braut hygg [6]) ek hann at hèldi,
hugraun, flota sínum;
snara bað segl við húna
Sigvaldi í [7]) byr köldum [8]),
[gnúði hörð á hlýrum [9])
hríð, fèll [byrr í viðir [10]).

33. Þar lèt Vigfús verða
vegrækinn [11]) Ásláki,
þann era þörf at inna [12])
þátt, helfarar veittar;
Þorleifr of vann þjökva [13])
þrekstærðum Hávarði

---

[1]) ædast, *O.* [2]) Hölga brúðar, *O.* [3]) hjálmum, *O.* [4]) þars, *O.* [5]) þá, *O.* [6]) frà, *O.* [7]) *v. í O.* [8]) köldu, *O.* [9]) glumdi hrönn á höfum, *O.* [10]) í bug vâða, *O.* [11]) *eða* vegrækum *í A.* [12]) segja, *O.* [13]) þykkva, *O.*

hart lèt [1]) hann með kylfu
höggrammr brotit leggi.

34. Ein drepr fyrir mèr allri,
andat fólk at sundi
straumr dró út um eyjar,
ítr manns konan teiti;
goðætt of kemr grimmu,
gífrs hesta brá föstu
gný miklandi geira,
gæðíngs at mèr stríði.

35. Bað fyrir borð at skyldi
böðsvellandi allir,
áðr frá ek vâpnum verjast
Vagns lið, Búa þegnar;
ok hreggboði hjörva,
hraustr með þúngar kistur,
sá var illr af aurum,
útrauðr á kaf rèði.

36. Vann eldbroti Yggjar
ýgr fyrir borð at stíga,
út bar hann af húfum
hraustr, Gullbúi, kistur;
ok optliga eptir
úblauðir þar síðan
knegu lýðir líta
lángan orm á hríngum.

37. Skeið frá ek valt [2]) at verði
Vagn með sína þegna,

1) vá, O. 2) víst, O.

öll vâro þá þeirra
þunn skip hroðin önnur;
upp náðu [1]) þar eigi [2])
[öðlíngs menn [3]) at gánga,
ofan rèðu þeir öfga [4])
Eiríks vini [5]) keyra.

38. Upp stóðu þar eptir,
úngra snyrti drengja,
sveit fylgði vel Vagni
væn, þrír tígir einir;
alls önga frá ek aðra
jafnmarga svâ burgust,
áðr lètti dyn darra
dreng menn hugum strángir.

39. Rèð með danska dólga
drengr á land at gánga,
roðinn frá ek dörr í dreyra,
dauðr lá herr á skeiðum;
Vagn kvað eigi ýtum
undan ráð at skunda,
saman görðu þeir sitja
sáttir á einni náttu [6])

* * *

Þar lèt Eiríkr öndu
átján þegar týna

---

[1]) náði, *O.* [2]) þeigi, *O.* [3]) þengils maðr at gánga, *O.* [4]) ýgja, *O.* [5]) menn at, *O.* [6]) *hèr er drápan úti í A og B, en vísurnar, sem eptir koma, eru teknar úr O.*

heldr frágum þá þverra,
þegna, lið fyrir Vagni;
mæltu hraustar hetjur,
haukligt var þat fikjum,
þau hafa þjóðir uppi,
þróttar orð með fyrðum.

*    *    *

Ok með Fjörnis fálu
fór Þorketill leira,
þá er menbroti mælti
mansaung um Gná hrínga;
gerðist hann at höggva
hauklyndan son Áka,
Vagn gat heldr at hânum
heiptörr vegit furri.

*    *    *

Viltu, kvað hrínga hreitir
hyggjugegn at Vagni,
èlsvellandi yðvart
Yggjar líf of þiggja?
Eigi mun ek, nema efna,
úngr þat er heit nam strengja,
svâ kvað Ullr at jarli
egghríðar, fjör þiggja.

*    *    *

Grið lèt örr ok aura
Eiríkr gefit stórum,

mjök leyfa þat þjóðir,
þegnum tólf með Vagni.

*     *     *

Þá gekk Ullr at eiga
örlyndr þrymu randa,
menn fýstu þess, mæta,
margir, Íngibjörgu.

# Hèr hefr upp Knytlíngasögu.

1. Haraldr Gormsson var tekinn til konúngs í Danmörk eptir föður sinn, hann var ríkr konúngr ok hermaðr mikill; hann eignaðist Holsetaland í Saxlandi, ok hafði hann mikit jarlsríki í Vindlandi; hann lèt þar gjöra Jómsborg, ok setti þar herlið mikit, hann setti þeim mála ok rètt, en þeir unnu landit undir hann; [á sumrum láu þeir í hernaði, en sátu heima [1]) á vetrum, þeir voru kallaðir Jómsvíkíngar. Haraldr konúngr Gormsson rèð svikum ok líflàti Haralds konúngs Gunnhildarsonar, Noregs konúngs, þá er hann fèll at Hálsi í Limafirði [2]), sem ritað er í æfi Noregs konúnga; en síðan fór Haraldr konúngr í Noreg með her sinn, ok lagði land allt undir sik, ok setti þar yfir höfðíngja Hákon jarl Sigurðarson, en Danakonúngr tók skatta af landi öllu. Á dögum Haralds konúngs Gormssonar var keisari í Saxlandi Ottó hinn rauði, hann hafði ófrið við Danakonúng, ok bauð Dönum kristni, en

[1]) *v. í V.* [2]) *þannig leiðrètt, A hefir* Linnafyrði *alstaðar.*

Danakonúngr hafði þar úti her í móti, ok vildi með öngu móti við kristni taka. Haraldr konúngr Gormsson átti mikla orustu við Ottó keisara suðr við Danavirki, þá var þar Hákon jarl af Noregi með Danakonúngi; þar fèkk keisarinn ósigr, en þó vann hann landit nokkru síðar, ok kom þeim þá á flótta Haraldi konúngi ok Hákoni jarli til Limafjarðar, ok allt út í Mársey. Síðan tók Haraldr konúngr við kristni, ok keisarinn veitti guðsifjar Sveini syni hans, ok gaf hönum nafn sitt, ok var hann með því skírðr, at hann hèt Ottó-Sveinn; var þá alkristin Danmörk, ok skildist keisarinn eigi fyrr við.

*Fall Styrbjarnar ens sterka.*

2. Á dögum Haralds konúngs Gormssonar var Styrbjörn enn sterki í hernaði í Austrveg. Styrbjörn var son Ólafs Bjarnarsonar, Svíakonúngs. Styrbjörn kom með her sinn í Danmörk, ok fèkk handtekit Harald konúng; þá gipti Haraldr honum [1]) Þyri dóttur sína, ok fór sjálfr til Svíþjóðar með Styrbirni. Styrbjörn brendi öll skip sín, áðr hann gengi á land upp; en er Haraldr konúngr verðr þess varr, at Styrbjörn er skipalauss, þá hèlt hann skipum sínum út á Löginn ok síðan í braut, ok aptr til Danmerkr. Styrbjörn barðist á Fýrisvöllum við Eirík enn sigrsæla Svíakonúng, föðurbróður sinn; þar fèll Styrbjörn ok mestr hluti liðs hans, en sumt flýði; þat kalla Svíar Fýriseltu.

---

[1]) konúngr. *F.*

*Frá hernaði Haralds konúngs.*

5. Þá er Haraldr konúngr Gormsson hafði skírast látit, sem fyrr var sagt, þá nauðgaði hann Hákoni jarli [Sigurðarsyni [1]) at taka við trú, ok var hann skírðr ok allir menn, þeir sem þá voru með honum af Noregi; fèkk Haraldr konúngr honum þá presta ok aðra lærða menn, ok bauð honum at láta skíra allt fólk í Noregi, ok hèt Hákon jarl því með svardögum; en er þeir skildu konúngr ok jarl, þá fór Hákon til Noregs, en skaut enum vígðum mönnum á land at Hálsi í Limafirði, en hann kastaði kristni, ok efldi síðan hin mestu blót í Noregi [2]). En er Haraldr konúngr spurði þat, at Hákon hafði kastat kristni, ok þat annat, at hann hafði herjat land Danakonúngs, þá fór Haraldr konúngr með her sinn til Noregs, ok eyddi land allt með sjá, svâ at allt var brennt milli Líðandisness ok Staðs, nema fimm bœir í Lœradal í Sogni, en fólk allt flýði á fjöll ok markir með allt lausafè, þat er komizt fèkk. Haraldr konúngr lá um hríð með her sinn í Sólundum, ok ætlaði þá að herja til Íslands með liði því, er hann hafði þar, ok vildi hann hefna níðs þess, er Íslendíngar höfðu gjört um hann, ok níddan hann. Haraldr konúngr bauð kúngum [3]) manni at fara í hamförum til Íslands, ok vita hvat hann kynni þaðan at segja konúngi;

---

1) sigrsæla, V. 2) *hèr vantar í M mikinn kafla.* 3) kunnugum, V.

sá fór í hvalslíki umhverfis landit, ok sagði síðan konúngi at margar kúngar óvættir byggja land þat, en haf svâ mikit milli landanna, at þar var ekki fœrt lángskipum; ok er Haraldr konúngr varð þessa var, þá þóttist hann skilja, at þetta var en mesta ófœra, ok ekki mátti þessu til leiðar koma. Eptir hernat þenna, er Haraldr Gormsson hafði gjört í Noregi, þá snèri hann heim til Danmerkr með lið sitt, en Hákon jarl lèt byggja land allt í Noregi, en galt önga skatta síðan Danakonúngi.

*Fall Haralds konúngs.*

4. Sveinn, son Haralds konúngs Gormssonar, beiddist ríkis nokkurs af Haraldi konúngi feðr sínum, en Haraldr konúngr unni honum lítit, þvíat hann var frilluson, ok vildi hann ekki ríki fá honum til forráða. En er Sveinn gjörðist fullkominn maðr, þá fèkk hann sèr skip ok lið, ok herjaði víða bæði utanlands ok innanlands; þá varð Haraldr konúngr reiðr honum, ok safnaði liði í móti honum; þá var kominn til liðs við Svein Pálnatóki fóstri hans, sem segir í sögu Jómsvíkínga, ok hèldu þeir þá til Sjólands ok inn í Ísafjörð, þar var þá fyrir Haraldr konúngr með skipum sínum. Sveinn lagði þegar til orrostu við hann, varð þar bardagi mikill, dreif þá lið til Haralds konúngs, svâ at Sveinn varð ofrliði borinn, ok flýði hann. Í þeirri orrostu, fèkk Haraldr konúngr banasár, ok var hann skotinn öru til bana, ok var hann

fyrstr Danakonúnga grafinn í vígða jörð; þá hafði hann verit konúngr 80 vetra, 30 vetra at lifanda Gormi konúngi feðr sínum, 50 vetra síðan.

### Frá Sveini konúngi.

5. Sveinn tók konúngdóm í Danmörk eptir Harald konúng feðr sinn, hann var kallaðr Sveinn tjúguskegg, hann var ríkr konúngr. Á hans dögum fór Sigvaldi jarl ok aðrir Jómsvíkíngar til Noregs, ok barðist við Hákon jarl á Mœri á Hjörúngavâgi, þar fèll Búi digri, en Sigvaldi jarl flýði. Eptir þat hvarf ríki á Noregi undan Danakonúngum, en litlu síðar kom Ólafr Tryggvason til Noregs, ok tók ríki. Sveinn konúngr átti Gunnhildi dóttur Búrizlafs Vindakonúngs, ok voru þeirra synir Knútr ok Haraldr. Síðan átti Sveinn konúngr Sigríði ena stórráðu, dóttur Sköglartosta, móður Ólafs Svíakonúngs; hana hafði fyrr átt Eiríkr hinn sigrsæli Svíakonúngr. Dóttir Sveins konúngs ok Sigríðar var Ástríðr, er átti Úlfr jarl, son Þorgils sprakaleggs. Sveinn ok Björn hètu synir þeirra. Gyða hèt enn [1]) dóttir Sveins konúngs tjúguskeggs, hana átti Eiríkr jarl Hákonarson í Noregi; þeirra son var Hákon jarl, er Ólafr hinn helgi tók í Sauðúngs sundi. Sveinn konúngr tjúguskegg var at falli Ólafs konúngs Tryggvasonar með þeim Ólafi sœnska, stjúpsyni sínum, ok Eiríki jarli, mági sínum; þeir börðust við

[1]) *þannig V; ein A.*

Svöldr; ok eptir fall Ólafs konúngs Tryggvasonar eignuðust þeir þrír Noreg, Sveinn Danakonúngr einn þriðjúng, annann Ólafr Svíakonúngr, enn þriðja Eiríkr jarl.

*Enn helgi Játmundr drap Svein konúng.*

6. Sveinn konúngr var hermaðr mikill ok enn ríkasti konúngr; hann herjaði víða bæði um Austrveg ok suðr um Saxland; át lyktum fór hann með her sinn vestr til Englands, ok herjaði þar víða, ok átti þar margar orrostur; þar var þá Aðalráðr konúngr Játgeirsson. Þeir Sveinn konúngr áttu margar orrostur, ok höfðu ýmsir sigr. Sveinn konúngr vann mestan hlut Englands, var hann þá á Englandi marga vetr, ok herjaði víða landit ok brenndi, hann kölluðu þeir fjanda Engla. Í þessum ófrið (flýði) Aðalráðr konúngr landit fyrir Sveini konúngi, en Sveinn konúngr varð bráðdauðr um nótt í rekkju sinni, ok segja þat enskir menn, at Játmundr konúngr enn helgi hafi drepit hann með þeim hætti, sem hinn helgi Merkúríus drap Júlíanum níðíng.

*Frá Þíngamanna liði.*

7. Eptir dauða Sveins konúngs hèldu Danahöfðíngjar því ríki í Englandi, er þeir höfðu unnit af landinu; höfðust þá enn orrostur af nýju, þvíat þegar Sveinn konúngr var dauðr, fór Aðalráðr konúngr heim í landit, ok komst þá í ríki sitt með styrk Ólafs ens helga, svâ sem sagt

er í sögu hans eptir orðum Óttars svarta skálds; hann segir svâ:

Komtu í land ok lendir
láðvörð [1]) Aðalráði
þín naut rekka rúni
ríki efldr at slíku;
harðr var fundr sá er fœrðut
friðlands á vit niðja [2])
rèð ættstuðill [3]) áðan
Játmundar þar grundu.

Í þann tíma settu Danir Þíngamannalið í Englandi, þar vâru þá málamenn, ok var þat eð frœknasta lið, ok hèldu Þíngamenn mjök upp orrostu af hendi Dana við Englismenn.

*Knútr konúngr lagði England (undir sik).*

8. Knútr, son Sveins konúngs tjúguskeggs, var 10 vetra, þá er faðir hans andaðist, var hann þá til konúngs tekinn í Danmörk yfir allt Danaveldi, þvíat Haraldr bróðir hans var andaðr. Danahöfðíngjar, þeir er þá sátu í Englandi, ok þar hèldu landinu, því er Sveinn konúngr hafði unnit, þá sendu þeir þau orð til Danmerkr, at Knútr konúngr skyldi koma vestr til Englands með Danaher til styrks við þá; en með því at Knútr konúngr var þá á barns aldri, ok var ekki vanr herstjórn, þá lögðu vinir hans þat ráð fyrir hann, at hann skyldi senda herlið til Englands, ok setja þar höfðíngja yfir, en fara eigi sjálfr, meðan hann var

1) lávörðr, *V.* 2) niðra, *A.* 3) *þannig leiðrètt;* eðstuðill *A*; ætskuðill, *V.*

eigi meirr á legg kominn, ok svá var gjört at konúngr sat 3 vetr í Danmörku, síðan hann tók konúngdóm; en at liðinni þeirri stundu bauð hann út herliði af Danmörku; hann sendi boð ok til Noregs Eiríki jarli mági sínum, at hann skyldi safna liði ok fara til Englands með honum, þvíat Eiríkr jarl var frægr mjök at hreysti ok at hernaði, er hann hafði borit sigr af þeim tveim orrostum, er frægstar hafa verit á Norðrlöndum: önnur var sú, er þeir Sveinn konúngr tjúguskegg ok Ólafr sœnski Svíakonúngr ok Eiríkr jarl börðust við Ólaf Tryggvason við Svöldr; en önnur sú, er þeir Hákon jarl ok Eiríkr jarl börðust við Jómsvíkínga á Hjörúngavâgi. Knútr konúngr hèlt her sínum vestr til Englands, ok höfðu allmikit lið. Svâ sagði Óttar svarti í Knútsdrápu:

Hrestu lit[1]) gamall lýtir
lavgreiðár fram skeiðum
fór-at fylkir œri
fólk sveimaðr þèr heiman;
hilmir bjóttu ok hættir
harðbrynjuð skip kynjum
reiðr hafðir[2]) þú rauðar
randir Knútr fyrir landi.

Ok enn segir hann svâ:

At[3]) fylgðu þeir[4]) Jótar
auðmildr flugar trauðir

---

[1]) hræztu lít, V. [2]) hafdyr, V. [3]) út, V. [4]) þèr, V.

[skaut reina [1]) bjó skreytir
Skánúnga lið vânir;
vað blès of þèr vísi
vestr settir þú flesta
kunnt gjörðir þú þenna
þitt nafn í haf stafna.

Knúti konúngi fylgðu margir höfðíngjar til Englands; þar var fyrstr maðr Ulfr jarl Sprakaleggsson, mágr hans, hann átti þá Ástríði Sveinsdóttur, systur Knúts konúngs; þar voru ok þeir bræðr, synir Strútharalds jarls, Hemíngr ok Þorkell hái, ok margir höfðíngjar aðrir. Knútr konúngr kom til Englands, ok sigldi utan at Englandi, þar sem Fljót heita. Svâ segir Hallvarðr *Háreksblesi* í Knútsdrápu:

Knútr lèztu fram til Fljóta,
frægr leið vörðr [2]) um ægi
heipt snarr Hildar leiptra,
harðbrynjuð skip dynja;
Ullar lèztu við Ellu
ættleifð ok má reifðir
sverð manns snyrti gerðar
sund vigs flota bundit.

En þegar Knútr konúngr kom til Englands, gekk hann upp, ok herjaði landit, drap mannfólkit, en brendi bygð alla. Svâ segir Óttar svarti:

Herskjöld bartu ok hèlduð
hilmir ríkr af slíku
hykkað ek þengil þektust

[1]) skautrima, *V.* [2]) norðr, *V.*

þik kyrsetu mikla;
ætt drap Jóta drottinn
Játgeirs í för þeirri
þveit rakt [1]) þrár er [2]) heitinn
þeim stillis kom [3]) illan.

Ok enn kvað hann svâ:

Brunnu bygðir manna
buðlúng [4]) fyrir þèr úngum
opt lèztu hús ok heiptir [5])
her kall búendr gjörva.

Landsmenn drógu her saman, ok fóru í móti Dönum, ok hèldu upp orrostum. Svâ sagði Þórðr Kolbeinsson:

Gengu upp þeir er Englum
ár ramn gefendr váru
langa stund á landi
leiðir grund af skeiðum;
en í gegn þeir er gáðu
glaum skers bœi verja
galt hilmis lið hjalta
herferð [6]) búendr gjörðu.

Knútr konúngr átti ena fyrstu orrostu á Englandi í Lindisey, ok varð þar mikit mannfall, þá vann hann ok Hemíngaborg [7]) á Englandi, ok drap þar mikið fólk. Svâ segir Óttar:

Gunni lèztu í grœnni
gramr Lindisey framda

---

1) *á spáziunni í A stendr* rakr. 2) ert *V.* 3) *á spáziunni í A stendr* konr. 4) buðlúngr, *V.* 5) seiptir, *V.* 6) *leiðrètt fyrir* herferðr *A.* 7) Helmíngaborg, *V.*

beldu viðr því er vildu
víkíngar því ríki;
bíða lèztu í breiðri
borg Hemínga [1]) sorgar
œst fyrir Usu vestan
Engst fólk Svía þröngvir.

Því næst átti hann miklar orrostur á Norðimbralandi við Tesu, drap hann þar mikit fólk, en sumt flýði, ok týndist þar sem voru fen nokkur eða díki; síðan flutti Knútr konúngr her sinn lengra suðr á landit, ok lagði allt undir sik þar sem hann fór.

*Knútr konúngr fèkk Emmu.*

9. Aðalráðr Englakonúngr varð sóttdøðr þat sama haust eða sumar, er Knútr konúngr kom með her sinn til Englands; hann hafði þá verit konúngr í Englandi 18 vetr ok 20; en Emma drottníng, kona hans, bjóst þegar eptir andlát hans at fara af landi á brøt, hon ætlaði at fara vestr til Vallands [2]) á fund brœðra sinna, Vilhjálms ok Róberts, þeir voru jarlar í Vallandi. Faðir þeirra var Rikarð Rúðujarl Rikarðsson, Vilhjálmssonar lángaspjóts; hann var son Gönguhrólfs, þess er vann Normandi; hann var son Rögnvalds Mœra jarls. Menn Knúts konúngs urðu varir við för Emmu drotníngar; þá er hon ok hennar voru búnir til hafs, þá komu þar menn Knúts konúngs, ok tóku skipit ok allt þat er á var; fluttu þeir drotníngu á

1) Helmínga, V. 2) Englands, V.

fund Knúts konúngs; ok var þat ráð höfðingja með konúngi, at Knútr konúngr skyldi fá Emmu drotníngar, ok svå var gjört.

*Frá Játmundi konúngi.*

10. Eptir andlát Aðalráðs konúngs voru til konúnga teknir synir hans ok Emmu drotníngar: Játmundr hinn sterki var elztr; annar Játgeirr; þriði var Játvígr; fjórði Játvarðr enn góði. Játmundr konúngr dró nú her saman mikinn, ok fór síðan í móti Knúti konúngi, ok varð fundr þeirra þar sem heitir at Skorsteini, ok var þat en frægsta orrosta, er í þann tíma hafði verit; varð þar eð mesta mannfall í hvârutveggja liði. Játmundr kónúngr reið fram í miðjan Danaher, ok kom svå nær Knúti konúngi, mági sínum, at hann náði til hans með sverðshöggvi. Knútr konúngr skaut skildinum fram [yfir háls [1]) hestinum, er hann sat á, en höggit kom á skjöldinn litlu fyrir neðan mundriðann, ok varð höggit svå mikit, at sundr tók skjöldinn, ok fyrir framan söðulinn klauf hann í sundr hestinn í bógunum, en þá sóttu Danir at honum svå fast, at Játmundr konúngr snèri aptr til sinna manna, ok hafði hann þá þó áðr drepit marga Dani, en konúngrinn varð lítt sárr eðr ekki. En er konúngrinn hafði framriðit allt frá liði sínu, þá hugðu hans menn at hann mundi vera fallinn, er þeir sá hann hvergi, ok kom þá flótti í lið þeirra, en sumir

1) fyrir sik ok á háls, V.

sá at hann reið undan Dönum; flýðu þá allir, þeir er þat sá, en konúngr kallaði hátt, bað herinn aptr snúa ok berjast, en þá lèt engi sem heyrði; flýði þá allr herinn, ok varð þá einna ákafast mannfallit, ok ráku Danir flóttann allt til nætr. Svâ segir Óttar svarti:

Úngr fylkir lèztu Engla
allnær Thesu falla
flœði djúpt of dauða
dík Norðimbra líkum;
svefn braut svörtum hrafni
sunnar havtuðr gunnar
olli sókn enn snjalli
Sveins mögr at Skorsteini.

*Frá Úlfi jarli.*

11. Úlfr jarl var þá enn sem optar í fremra lagi af mönnum Knúts konúngs, ok fylgði lengst flóttamönnum; hann var þá kominn í skóg nokkurn svâ þröngvan, at hann komst ekki or á allri nóttinni, fyrr enn lýsti; þá sá hann á völlum nokkurum fyrir sèr at smali var rekinn, ok sveinn nokkur vel frumvaxta rak fèið. Úlfr jarl gekk at sveininum, ok heilsaði honum, ok spurði hann nafns. Hann svaraði: ek heiti Guðini; eða ertu af Knúts mönnum? Úlfr jarl svarar: ek em einn víst af leiðángrsmönnum hans; eða hversu lángt er nú til skipa vârra? Ekki veit ek, segir sveinninn, at þèr Danir megit vænta af oss liðsinnis, ok hafi þèr Danir

heldr til annars gjört. Ulfr jarl svarar: þiggja munda ek nú þó af þèr, sveinn! ef þú vildir greiða ferð mína til skipa vârra. Sveinninn svârar: þú hefir beint þvers farit frá skipunum, ok lángt á land upp yfir eyðiskóga, en þèr Knúts menn erut ekki hèr mjög þokkaðir af landsmönnum, ok þikkir mönnum þó nokkur vârkunn til þess, en nú er spurt í bygðina mannfall þat, er varð í gær at Skorsteini, ok muntu hvergi grið hafa, ok enginn annara Knútsmanna, ef bœndr finna þik, ok svâ ef nokkur helpr þèr; en svâ lízt mèr á þik, sem gott mannkaup muni í þèr vera, ok ætla ek þik annann mann, enn þú segir. Ulfr jarl tók þá gullhríng af hendi sèr ok segir: gefa vil ek þèr hríng þenna, ef þú vilt fylgja mèr til vârra manna. Guðini [1]) sá upp á hann um stund, ok mælti seint: eigi vil ek þiggja hrínginn, en freista mun ek nú, ef ek má koma þèr til þinna manna, ok vil ek heldr eiga undir þèr launin, ef ek fæ þèr nokkvat viðhólpit, en ef þèr verðr þetta at öngri liðveizlu, þá er öngra launa fyrir vert; skaltu nú fyrst fara heim til feðr míns með mèr. Þeir gjörðu svâ; en er þeir komu til bœjarins, gengu þeir til litlu stofu, ok lèt Guðini setja þar borð, ok var þar gefinn góðr drykkr. Ulfr jarl sá, at þar var góðr húsabœr ok vel búinn. Þá kom til þeirra bóndi ok húsfreya, þau voru fríðir menn bæði ok vel

[1]) Guðni, V.

húin; fögnuðu þau vel gestnum, ok sat hann þar um daginn, ok var hann þar í enum bezta fagnaði; en í móti nótt voru þar búnir tveir góðir hestar með enu bezta reiði. Þá mæltu [1]) þau við Úlf: far þú nú vel, ok fæ ek þèr í hendr son minn, þann einn er ek á; nú bið ek, ef þú kemr til konúngsins, ok megi þín orð nâkkvað standast, þá kom þú honum þar í þjónostu, því at ekki má hann með mèr vera síðan, ef vârir landsmenn spyrja, at hann hafi þèr á brøt fylgt, hversu sem ek fæ undan stýrt. Úlfr jarl hèt því at koma Guðina þar í sveit. Guðini var enn fríðasti maðr sýnum, ok vel at orði farinn. Bóndi nefndist Úlfnaðr. Þeir Úlfr jarl ríða þá nótt alla, en at morni, þá er ljóst var orðit, koma þeir til skipa Knúts konúngs, ok voru menn á landi uppi; en er þeir sá jarl, ok kendu hann, þá hurfu menn þegar at honum allir, ok fögnuðu honum, ok þóttust hann or helju heimt hafa, þvíat hann var svâ vinsæll, at allir menn unnu honum hugástum. Varð Guðini [2]) þá hið fyrsta viss, hverjum hann hafði fylgt. Jarl setti Guðina í hásæti hjá sèr, ok hèlt hann at öllu sem sjálfan sik eða son sinn, ok er þat skjótast af at segja, at jarl gipti honum Gyðu systur sína, ok með framkvæmd Úlfs jarls ok liðveizlu, þá gaf Knútr konúngr Guðina jarldóm

---

[1]) *þannig K.* mælti, *A.* [2]) Gudni, *V.*

fyrir (sakir) Úlfs jarls mágs síns. Voru synir þeirra Guðina ok Gyðu: Haraldr Englakonúngr ok Tosti jarl, er kallaðr var trèspjót, Maurukári jarl ok Valþjófr jarl ok Sveinn jarl; þaðan er mart stórmenni komit í Englandi ok í Danmörku ok í Svíaríki ok austr í Garðaríki; eru þat konúngaættir í Danaríki. Gyða hèt dóttir Haralds konúngs Guðinasonar, hana átti Valdamar konúngr í Hólmgarði; þeirra son var Haraldr konúngr, hann átti dœtr 2 [1]), er enn skal frá segja síðar.

### *Frá Knúti konúngi.*

12. Knútr konúngr átti aðra orustu við borg, þá er Brandfurða heitir, varð þar enn mikil orrosta, ok hafði Knútr konúngr sigr, en Aðalráðs synir flýðu, ok lètu lið mikit, en Danir brutu borgina. Svâ segir Óttar svarti:

Fjörlausa hýr [2]) Frísi
friðskerðir þeir gjörðu
brauztu með bygðu setri
Brandfurðu þèr randa;
Játmundar laút undir
ættniðr göfugr hættir
danskr her skaut þá dörum
drótt er [3]) þú rakt flótta.

Knútr konúngr átti ena þriðju orrostu við Aðalráðs sonu, þar sem heita Assatún, varð þar enn mikil orrosta, þat er norðr frá Danaskógum. Svâ segir Óttarr:

[1]) 3, *V.* [2]) hyrr, *V.* hyk, *M.* [3]) en, *V.*

Skjöldúngr vantu und skildi
skœru verk enn sterki
fèkk blóðtrani bráðir
brúnar Assatúnum;
vâttu en valfall þótti
verðúng jöfurr sverði
nær [norðan fyrir [1]) stóru
nafngnóg Danaskóga.

Knútr konúngr átti ena fjórðu orrostu við Játmund konúng ok þá brœðr í Norðvík [2]), varð þar enn mikil orrosta ok mannfall mikit, ok fèkk Knútr konúngr sigr, en Aðalráðs synir flýðu. Svâ segir Óttarr svarti:

Bjóð [3]) vantu brynjur rauðar
blíð [4]) stórgjafa síðan
lætr þú önd áðr þrek þrjóti
þinn fyrir Norðvík innan.

*Frá Knúti konúngi.*

13. Síðan heldr Knútr konúngr öllu liðinu til Tempsár, þvíat hann spurði at Játmundr konúngr ok þeir brœðr hefði flýið til Lundúnaborgar; en er Knútr konúngr kom til Tempsármynnis, þá sigldi þar af hafi utan Eiríkr jarl Hákonarson, mágr hans, ok fundust þeir þar, ok lögðu síðan upp í ána með herinn. Svâ segir Þórðr Kolbeinsson í Eiríksdrápu:

---

1) fyrir norðan, *V.* 2) Norðrvík, *V.* 3) bjóðr, *V.* 4) blíðr, *V.*

Ítr þrifust jöfra hleti [1])
eggveðrs í favr seggja
skeið hèlt mörg í móðu
misslaung sem ek vissa;
bládýrum hèlt báru
brands [svâ nær [2]) landi
Ullr, at enska völlu
áttstórr sjá knátti.

Ok enn kvað hann:

Enn at eyrar grunni
endr [3]) skjöldúngum renndi
sá er kjölslóðir kníði
Knútr lángskipum utan;
varð þar er vildu fyrðar
varrláð koma báðir
hjálmað [4]) jarls ok hilmis [5])
hœgr fundr á því dœgri.

Útí ánni Temps var gjörr kastali mikill, ok settr þar í herr manns til landvarnar, at eigi skyldi skipaherr mega upp fara í ána. Knútr konúngr lagði þegar upp í ána, ok at kastalanum, ok barðist við þá, en enskir menn lögðu skipaherr frá Lundúnum ok út eptir ánni, lögðu þeir til orrostu við Dani. Sva segir Óttar svarti:

Fram gekk enn þar er unnuð
álmr gall hátt við málma
knáttuð sæ þar er sóttuð
sverð kastala verða;

[1]) hlæti, *V.* hlerti *á spázíunni í A.* [2]) nær svâ, *V.*
[3]) *V. K.* end, *A.* [4]) hjálmaðs, *V. K.* [5]) hilmir, *A.*

unnuð eigi minni.
Úlfs [1]) gómr veit þat rómu
hnekkir [2]) hleypi blakka
hlunns á Tempsár grunni.

*Atsókn Knúts konúngs.*

14. Knútr konúngr lagði öllum hernum upp til Lundúnaborgar, ok setti þar um herbúðir sínar; síðan veittu þeir atsókn til borgarinnar, en borgarmenn vörðu. Svâ segir í flokki þeim, er þá var ortr af liðsmönnum:

Hvern [3]) morgin sèr horna
Hlökk á Tempsár bakka
skala hánga má húngra
hræskóð lituð blóði;
hve sigrfíkinn sœkir
snarla borgarkarla,
dynr á brezkar brynjur
blóð-ís, Dana vísi.

Ok enn þetta:

Margr [4]) fer Ullr í illan
od-sennu dag þenna
frár þar fœddir várum
fornan serk um bornir;
en á enskra manna
ölum gjóð Hnikars [5]) blóði
œrt [6]) mun skáld í skyrtu
skœðazt hamri sœða.

---

1) *V. K.* Úlf, *A.* 2) *V. K.* hekkir, *A.* 3) *V. K.* hver, *A.* 4) *V. K.* marg, *A* 5) *þannig V.* hikars, *A.* 6) ort, *V.*

Knútr konúngr átti þar marga bardaga, ok fèkk eigi unnit borgina.

*Frá Eiríki jarli.*

15. Eiríkr jarl fór með suman herinn upp á landit, ok fylgðu honum þíngamenn í móti enskum her, er fyrir rèð Úlfkell snillíngr, mikill höfðíngi, varð þar orrosta, ok hafði Eiríkr sigr, en Úlfkell flýði. Svâ segir Þórðr Kolbeinsson í Eiríksdrápu:

Gullkennir lèt gunni
grœðis hests [1]) fyrir vestan
þundr vâ [2]) leyfr til landa
Lundún saman bundit;
fèkk regn þorinn rekka
rönn af þíngamönnum
[œglig högg [3]) þar er eggjar
[Úlfkels blá skulfu [4]).

Aðra orrostu átti Eiríkr jarl á Hríngmaraheiði við enska menn. Svâ segir Þórðr Kolbeinsson:

Hvatr vann Freyr á flotna
fólk stafns sá er gaf hrafni
sollit hold nè sjaldan
sverðs eggja spor leggi;
snjallr lèt opt ok olli
Eiríkr bana þeirra
rauð Hríngmaraheiði
her Engla lið þverra [5]).

Þar hafði Eiríkr jarl sigr. Enn segir Þórðr

[1]) grœðishest, V. [2]) na, V. [3]) ok högg, V. [4]) Ulfkell fèkk blárskulfu, V [5]) þvera, V.

Kolbeinsson fleira í Eiríksdrápu frá hernaði hans:

Gengu upp þeir er Englum
ár hrafn gefendr váru
lánga stund á landi
leiðir upp frá skeiðum;
en í gegn þeir er gáðu
glaum skers bœi verja
galt hjálmað lið hjalta
herferð bœndr gjörðu.

*Sætt konúnga.*

16. Knútr konúngr sat um Lundúnaborg, en Játmundr konúngr ok þeir brœðr vörðu borgina; þá fóru menn á millum þeirra. Knútr konúngr átti Emmu drottníngu, móður þeirra, ok kom svo, at gislar voru settir í millum þeirra, ok voru grið sett til tals ok umleitanar meiri sætta; ok á þeim stefnum var sætt gjör millum þeirra, svå at skipta skyldi í helmínga landi með þeim, ok hafa hálft ríki hvår, meðan þeir lifði, en ef annarhvår andaðist barnlaus, þá skyldi sá taka allt ríki með frjálsu, er eptir lifði, ok var sú sætt eiðum bundin. Heiðrekr strjóna hèt einn ríkr maðr, er fè tók til þess af Knúti konúngi, at hann sviki Játmund konúng, ok dræpi hann með morðvígi, ok þetta varð hans bani. Heiðrekr var þó fóstri Játmundar konúngs, ok trúði hann honum sem sjálfum sèr. Síðan rak Knútr konúngr braut af Englandi alla syni Aðalráðs konúngs, ok urðu um þat

orrostu-slög mörg, en eigi fengu þeir styrk fjölmennis í móti Knúti konúngi, síðan Játmundr konúngr var drepinn. Svâ segir Sighvatr skáld í Knútsdrápu:

> Ok senn sonu
> sló hvern ok þó
> Aðalráðs eða
> út flæmdi [1]) Knútr.

Synir Aðalráðs konúngs voru þá vestr í Vallandi í Normandí, ok voru þar lengi með móðurbrœðrum sínum, Róðbert ok Vilhjálmi, svâ sem sagt er í sögu Ólafs ens helga. Eiríkr jarl Hákonarson andaðist á Englandi, ok var hann þá búinn til Rómferðar; honum var skorinn úfr, ok varð eigi blóð stöðvað, fèkk hann af því bana. Knútr konúngr ok Emma drotníng áttu 3 börn: Haraldr var elztr, annar Hörða-Knútr; dóttir þeirra var Gunnhildr, er síðan var gipt Heinreki keisara enum milda, er hinn þriði var sinna lángfeðga með því nafni. Sveinn hèt enn þriði son Knúts konúngs; hans móðir var Alfífa en ríka, dóttir Álfrúns jarls.

### *Sveinn konúngr kom í Noreg.*

17. Í þann tíma er Knútr konúngr rèð Englandi ok Danmörk, þá rèð Ólafr Haraldsson fyrir Noregi. En er Ólafr konúngr kom þar til ríkis, þá stukku or landi fyrir honum Sveinn jarl Hákonarson ok Hákon jarl Eiríksson, systurson Knúts konúngs; hann fór til Englands á

---

[1]) rak, *V.*

fund Knúts konúngs frænda síns, ok tók hann vel við honum. Síðan ófriðaðist með þeim Ólafi konúngi ok Knúti konúngi. Knútr konúngr ok Hákon jarl komu í Noreg með her óvígjan, var þat ovarla á dögum Ólafs konúngs, ok lögðu þeir land allt undir sik. Knútr konúngr setti þá Hákon frænda sinn til ríkis í Noregi, en hann fór þaðan til Danmerkr, en Ólafr konúngr flýði þá landit, ok fór þá austr í Garðaríki, ok kom þá aptr í Noreg tveim vetrum síðarr, ok átti þá orrostu mikla á Stiklarstöðum við lenda menn sína, er þá höfðu gjörzt honum ótrúir, ok voru þá mótstöðumenn hans; þar fèll Ólafr konúngr, sem alkunna er orðit, ok er hann heilagr, ok liggr í skríni í Níðarósi. Hákon jarl Eiríksson týndist í Englandshafi einum vetri áðr Ólafr konúngr enn helgi fèll. Þá kom Sveinn, son Knúts konúngs ok Alfífu, í Noreg, ok var hann þá til konúngs tekinn yfir land allt at tilskipan Knúts konúngs föður síns. Knútr konúngr setti Hörða-Knút son sinn yfir Danaveldi, ok skyldi hann þar konúngr vera. Knútr konúngr hafði ok til forráða mikinn hlut af Skotlandi, ok setti hann þar Harald, son sinn, konúng yfir, en þó var Knútr konúngr yfirkonúngr allra þeirra; hann var kallaðr Knútr hinn ríki eða Knútr gamli, hann hefir verit ríkastr konúngr ok víðlendastr á danska túngu. Knútr konúngr byrjaði ferð sína af landi í brøt, ok

fór hann suðr til Rúms, ok hafði hann í þeirri ferð svâ mikinn fèkostnað, at engi maðr kunni markatal um ok varla pundatal; hann hafði of lausafjâr af sínu ríki, en tók ikeisarans fè at frjálsu, hvar sem hann vildi. Meðan Knútr konúngr var á Rúmavegi, þá þyrfti engi maðr sèr matar at biðja, sá er hans fundi mátti ná, so gaf hann öllum nóga skotpennínga. Knútr konúngr gekk af Flæmíngjalandi til Rómaborgar. Svâ segir Sighvatr skáld:

Svâ mun fár ferill
fetum suðr metinn
hríngdrifr [1]) hafa
höfuð fremst [2]) jöfur.

Knútr konúngr setti spítala, þann er alla menn skyldi fœða um nótt, þá er þar kœmi af danskri túngu; víða gaf hann ok til stórfè, þar sem voru klaustr eða aðrir stórir staðir.

### *Andlát Knúts.*

18. En er Knútr konúngr kom aptr til Englands í ríki sitt, þá fèkk hann sjúkleik, ok var fyrst með því móti, sem gulusótt er köllut; hann lá lengi um sumarið, ok um haustið andaðist hann íðus Nóvembris, þat var í borg þeirri [er heitir [3]) í Mórstr, þat er mikill höfuðstaðr, ok er hann þar jarðaðr. Þá hafði hann at aldri 17 vetr ok 20, þá hafði hann verit konúngr yfir Danmörku 7 vetr ok 20, en ráðit fyrir Englandi

---

1) *þannig M.* hríngdifr *A.* 2) fremstr, *V.* 3) *þannig V. v. í hina.*

4 vetr ok 20, en fyrir Noregi 7 vetr. Þat er allra manna mál, at Knútr konúngr hafi ríkastr verit ok víðlendastr konúnga á Norðrlöndum.

*Frá Knúti konúngi.*

19. Knútr konúngr hefir verit örvastr konúnga á Norðrlöndum, þvíat þat er sannliga sagt, at eigi hafði hann þat miðr umfram aðra konúnga, hversu mikit fè hann veitti í vingjafir á hverju ári, heldr enn hitt, at hann tók miklu meira í skatta ok skuldir á hverju ári af 5 þjóðlöndum enn hverr sá annarra, er hafði eitt konúngsríki fyrir at ráða, ok þó þat með at England er auðgast at lausafè allra Norðrlanda. Þat var eitt màrk um örleik hans, at maðr er nefndr Þórarinn loftúnga, íslenzkr, hann var skáld mikit, ok hafði hann bundizt á höndum konúngum ok [1]) ríkum mönnum lánga æfi, ok var þá gamall, er hann sótti til fundar við Knút konúng, ok hafði ort kvæði um hann, en þat var þá, er hann gekk fyrir konúnginn, ok kvaddi hann, ok spurði ef hann vildi hlýða til kvæðis, er hann hafði ort um hann; en þat var þá er konúngr sat yfir borðum, ok vist var upptekin; menn nokkurir stóðu fyrir borðinu, þeir er töluðu mál sitt, ok hlýddi konúngr þeim fyrst, en er þeir luku sinni rœðu, þá mælti Þórarinn, þvíat hann var maðr konúngdjarfr, ok hafði opt flutt mál sitt fyrir höfðíngjum: herra! segir hann, enn vil ek biðja, at þèr

[1]) öðrum *b. v. V.*

heyrið kvæði mitt, ok mun yðr þat skömm dvöl vera, þvíat þat eru fár vísur. Knútr svarar, ok leit til hans heldr reiðuliga: þat hefir engi maðr fyrr gjört enn þú, at yrkja um mik dræplínga, ok vittu þat víst, at á morgin at döguröar [1]) máli kom þú hèr, ok flyt mèr þá þrítuga drápu eða lengri, þá er þú hefir nú ort um mik á þessi stundu, en at öðrum kosti skaltu deya. Þá gekk Þórarinn í brøt, ok tók at yrkja drápu um Knút konúng, ok er sú drápa kölluð Höfuðlausn, ok nýtti hann allt úr flokkinum, þat er svâ mátti, ok eptir um daginn flutti hann kvæðit at konúngs borði, ok tókst honum eð bezta. Konúngr launaði honum kvæðit, ok gaf honum 50 marka skírra [2]). Síðan orti Þórarinn aðra drápu um Knút konúng, ok er þat kölluð Tugdrápa; þar segir svâ:

Gjöld hefi ek marka
málmdyns fyrir hlyn
fram fimm tigu
forvist borit;
þeirra er veitti
víghagr [3]) brag
mèr morðstórir
mannbaldr er ek fann.

Knútr konúngr gaf Bersa Skáldtorfusyni tvâ gullhrínga, er báðir stóðu mörk, ok þar með sverð gullbúit. Svâ segir Sighvatr skáld:

Knútr hefir okkr enn ítri

---

[1]) dögverðar, *V.* [2]) skíra, *V.* [3]) fyrir *b. v. M.*

[all-dáðgöfugr báðum [1])
hendr er hilmi [fundum [2])
húns skrautliga búnar;
þèr gaf hann mörk eða meira
margvitr ok hjör bitran
gulls, ræðr gjörfa öllu
gud sjálfr, en mèr hálfa.

Þá er Knútr konúngr andaðist í Englandi, endist sá hinn mikli höfðíngskapr Danakonúnga, er þeir lángfeðgar höfðu haft, at hverr enn síðarri hafði meira ríki enn hans faðir.

*Frá Knúti ok Sveini.*

20. Knútr var manna mestr vexti ok sterkr [3]) at afli, manna fríðastr, nema nef hans var þunt, ok eigi lágt, ok nåkkvað bjúgt, hann var ljóslitaðr, fagrhárr [4]) ok mjök hærðr, hverjum manni var hann betr eygðr, bæði fagreygðr ok snareygðr; hann var ör maðr, hermaðr mikill ok enn våpndjarfasti, sigrsæll, hamíngjumaðr mikill um alla hluti, þá er til ríkdóms heyrði; ekki var hann stórvitr maðr, ok svå Sveinn konúngr með sama hætti, ok enn áðr Haraldr ok Gormr, at þeir voru öngir spekíngar at viti.

*Frá Hörða-Knúti.*

21. Hörða-Knútr, son gamla Knúts, tók ríki allt í Danmörku eptir föður sinn, en Haraldr, annarr son gamla Knúts, tók ríki yfir Eng-

---

[1]) alldafugr báðum, *V.* báðum *v.* í *A.* [2]) fundu, *V.*
[3]) sterkastr, *V.* [4]) fagrhærðr, *V.*

landi eptir föður sinn; þá kom til Englands Játvarðr enn góði Aðalráðsson, bróðir þeirra Haralds ok Hörða-Knúts, hafði hann í Englandi gott yfirlát, sem vert var. Tveim vetrum eptir andlát gamla Knúts andaðist Gunnhildr drottníng í Saxlandi, dóttir Knúts konúngs, er Heinrekr keisari hafði átt; en þrim vetrum síðarr andaðist Haraldr Knútsson Englakonúngr, ok er hann jarðaðr hjá föður sínum í Morstr [1]), tók þá Hörða-Knútr bróðir hans bæði ríkin, England ok Danmörk, en Magnús son Ólafs ens helga, svarabróðir Hörða-Knúts, rèð þá Noregi, svå sem ritað er í æfi Noregs konúnga; en tveim vetrum eptir andlát Haralds Knútssonar andaðist Hörða-Knútr, var hann ok jarðaðr í Morstr [2]) hjá gamla Knúti, feðr sínum. Eptir dauða Hörða-Knúts var aldauða en forna ætt Danakonúnga. Þá var Játvarðr Aðalráðsson til konúngs tekinn yfir Englandi, var hann þar lengi konúngr, ok eignuðust Danakonúngar aldregi England síðan. En þá tók Magnús, son Ólafs ens helga, ríki í Danmörk, var hann þá þar konúngr yfir, sem segir í æfi Noregs konúnga; hann rèð einn Danmörk, áðr þar hófst til ríkis í móti honum Sveinn, sá er sagt er, Magnús hèti öðru nafni; hann var son Ulfs jarls Þorgilssonar sprakaleggs. Móðir Sveins var Ástríðr, dóttir Sveins konúngs

---

1) *V.* Mostr, *A.* 2) *V.* Most, *A.*

tjúguskeggs, var hún systir Knúts konúngs gamla, en móðir Ástríðar var Sigríðr hin stórráða, dóttir Sköglar-Tosta, hon var ok móðir Olafs sœnska.

*Frá Dana konúngi* [1]).

22. Sveinn Úlfsson tók jarldóm af Magnúsi konúngi Ólafssyni, ok þar með Danaveldi til forráða ok yfirsóknar, þá er þeir fundust í Gautelfi [2]), ok batt Sveinn eiðum sætt þeirra, fór Magnús þá norðr í Noreg, en Sveinn til Danmerkr. Þat sama haust tóku Danir Svein Úlfsson til konúngs, ok lagði hann þá land allt undir sik, [ok gjörðist konúngr yfir [3]); þat spurði Magnús konúngr, ok eptir um várið fór Magnús [4]) til Danmerkr með mikinn her. Þat sumar barðist Magnús konúngr á Vindlandi við Jómsborg, ok fèkk sigr, brendi hann borgina ok víða annarstaðar landit. Aðra orrostu átti Magnús konúngr um haustið næsta dag fyrir Mikkjáls [5]) messu á Jótlandi, skamt norðr frá Heiðabœ á Hlýrskógsheiði [6]) við Skotborgará; þá barðist hann við Vindr, þar sigraði Magnús konúngr með heilagleik ok jarteiknagjörð Ólafs konúngs föður síns, ok drap þar ógrynni hers [7]) heiðinna manna. Þat er sögn sumra manna at Sveinn Úlfsson hafi verit í þeirri orrustu með

---

1) *hèr byrjar S. V. C.* 2) Elfinni, *S. V. C.* 3) *v. í S. V. C.* 4) suðr, *b. v. S. V. C.* 5) Michels, *S. V. C.* 6) Lyrskógsheiði, *S. V. C.* 7) *v. í S. V. C.*

Magnúsi konúngi, ok sætt þeirra hèldist þá enn. Svâ segir Þorleikr fagri í flokki þeim, er hann orti um Svein Úlfsson:

Fur sendir vann [1]) fjandum
fjörspell í gný hjörfa [2])
[bráð [3]) fèkk hrafn fyrir Heiða- [4])
hauk storða bœ norðan;
rákust Vindr [5]) en vakar
vals ginu [6]) þeir um [7]) halsa,
dauðr lá herr á heiði
hund margr, [fáir undan [8]).

Þat sama haust áttu þeir orrostu á öndurðum vetri, Magnús konúngr ok Sveinn konúngr [9]) Úlfsson, við Erri [10]); þar hafði Magnús konúngr sigr, en Sveinn flýði til Jótlands. Aðra orrostu áttu þeir litlu fyrir jól, fyrir Jótlandi fyrir sunnan Árós; þar var hörð orrosta, ok mikið mannfall, þar flýði Sveinn konúngr, ok lèt þar 7 skip, sem segir í sögu Magnús konúngs ens góða. Sveinn flýði fyrst til Sjólands, með [þat lið er undan hafði komizt, ok honum vildi fylgja [11]), en Magnús konúngr sigldi þegar eptir honum, ok kom at Sveini, þar sem heitir í Höfn, lá hann þar fyrir fám skipum; varð þar skömm viðrtaka, flýði Sveinn á land upp, fèll

---

1) *S. V. C.* var, *A.* 2) jörfa, *S. V.* örfa *C.* 3) bravð, *S. V.* 4) herða, *C.* 5) Vindar, *C.* 6) gnýu, *S. V.* gum *C.* 7) *S. V. C.* und, *A.* 8) fá undir, *C.* 9) *v. i S. V. C.* 10) Eyri, *S. V.* 11) sínum mönnum, *S. V. C.*

þar enn mart lið hans. Sveinn flýði þá til Fjóns, en Magnús konúngr hèlt eptir honum, ok urðu [þar enn mörg slög veitt Sveins mönnum, ok voru þat ekki stórar orrostur, en þó [1]) segir Arnór jarlaskáld í Magnúsardrápu:

Fjórar hefir þú [randa rýrir [2])
reyrar setrs á einum vetri
allvaldr ertu ofveg [3]) kallaðr
örva [4]) hríðir frœknum gjörvar [5]).

Sveinn konúngr gekk á skip, ok hèlt austr fyrir Skáni, ok fór þar upp á land, ok svâ austr í Svíaveldi á fund Önundar konúngs Ólafssonar, frænda síns, ok dvaldist þar til vârs. Magnús konúngr fór um vârið til Noregs, ok dvaldist þar lengi um sumarit, en er Sveinn spurði þat, fór hann þegar út í Danmörk, ok lagði land undir sik; ok er Magnús konúngr spurði þat til Noregs, þá fór hann til Danmerkr [um haustið með her sinn, ok var [6]) fundr þeirra Sveins, þar sem heitir Helganes, þar varð allmikil orrosta, ok flýði Sveinn á land upp um síðir, ok lèt öll skipin. [Svâ segir Arnór í Magnúsdrápu:

Keppinn vantu, þat er ey mun uppi
Yggjar veðr, meðan heimrinn byggist,

1) þá mörg slög með Norðmönnum ok Dönum, svâ, *S. V. C.* 2) rimmur reyar, *S. V.* rumnur reyrir, *C.* 3) ofvægr *S. V. C.* 4) avrferð, *S. V.* 5) hirðir frægn af gjörvann, *S. V. C.* 6) varð, *S. V. C.*

valgammr skók í vâpna rímmu
við Helganes blóðugt fiðri;
ýngvi fèktu öll með hríngum
jarl vissi sik foldar missa
þjóðkuðr en þú tókt síðan
þeirra flaust við sigri meira [1]).

Sveinn flýðr þá enn til Svíþjóðar, ok dvaldist þar annann vetr, en Magnús konúngr fór þá til Noregs. Haraldr Sigurðarson kom þat vâr til Svíþjóðar austan or Garðaríki, mágr Sveins. Haraldr átti þá Ellisif, dóttur Jarizleifs konúngs or Hólmgarði [2]); móðir hennar var Íngigerðr, dóttir Olafs sœnska, [en hann var móðurbróðir Sveins Úlfssonar [3]). Sveinn ok Haraldr gjörðu fèlagskap sinn, ok drógu her saman, ok fóru síðan til Danmerkr, foru þar allt herskildi yfir, ok lögðu land allt undir sik. En er Magnús konúngr spurði þat, þá fór hann móti þeim með her or Noregi, þá fór Hallkell móðurbróðir þeirra Olafs ens helga ok Haraldar Sigurðarsonar af Magnúsar liði á fund Haralds Sigurdarsonar [4]), ok gjörði sætt á milli þeirra Magnús konúngs; fór þá Haraldr til Noregs, ok tók þar halft ríki af Magnúsi konúngi-frænda sínum, en Sveinn flýði þá enn til Svíþjóðar, ok fór þá aptr út í Danmörk, þegar er konúngarnir voru norðr farnir, vár hann í Danmörk um vetrinn, en eptir [5]) um sumarit fór Magnús konúngr

1) *frá* [ *v. í S. V. C.* 2) Hólmgörðum, *S. V. C.* 3) *v. í S. V. C.* 4) frænda síns, *S. V. C.* 5) *hèr byrjar E.*

ok Haraldr til Danmerkr. Sveinn var þá [á Skáni [1]). Þat haust varð Magnús konúngr sóttdauðr á Jótlandi, en allr Norðmannaherr fylgði líki hans norðr í Noreg; en Sveinn varð konúngr at Danmörk at frjálsu, ok rèð því ríki lengi síðan; en Haraldr var þá konúngr í Noregi, ok stóð lengi [2]) ófriðr milli þeirra, ok herjaði Haraldr konúngr hvert sumar í Danmörk, ok eru um þat lángar frásagnir í sögu Haralds konúngs [3]). [Þá er Haraldr hafði verit 16 vetr yfir Noregi, áttu þeir Sveinn konúngr orrostu mikla fyrir Hallandi á Jöfnfirði [4]) fyrir Nizi, þar hafði Haraldr konúngr sigr, en Sveinn konúngr flýði; þrim vetrum síðar gjörðu þeir sætt sína Haraldr ok Sveinn ok [5]) frið millum landanna; einum vetri síðarr fèll Haraldr konúngr á Englandi. Sveinn konúngr hafði ok ófrið við Steinkel Svíakonúng, ok fór hann með herr sinn [6]) á hendr Sveini konúngi, ok vann ekki af landi hans. [Svå segir Þorleikr fagri:

Hætt hafa sèr þeir er sóttu
Sveins fundar til stundum
litt hefir þeir [7]) at þreyta

1) i Skaney, *S. V. C*, 2) yfrið, *b. v. E.* 3) Sigurðarsonar, *S. V. C. E.* 4) Lofnfirði, *M.* 5) en þó sættust þeir um síðir æptir því sem segir í æfisögu Noregs konúnga ok settu þeir, *S. V. C. E.* 6) í Danmörk, *b. v. S. V. C. E.* 7) þeim, *M.*

þrimr bragníngum hagnað;
þó hefir höldvinr haldit
(hann er snjallr konúngr) allri
Jótagrund með endum
ógnsterkr ok Danmörku [1]).

*Frá börnum Sveins konúngs.*

23. Sveinn konúngr Ulfsson átti Gunnhildi, dóttur Sveins jarls Hákonarsonar; þeirra sun hèt Sveinn. Sveinn konúngr átti mörg frillubörn, hann átti 14 sonu, þá er or barnœsku komust: Knútr hèt enn elzti, hann andaðist at lifanda feðr sínum í Rúmferð; annarr hèt Haraldr; þriði Knútr enn helgi; 4ði Ólafr; 5ti Sveinn; 6ti Eríkr enn góði; 7di Þorgils; 8di Sigurðr; 9di Benedikt; 10di Björn; 11ti Guttormr [2]); 12ti Eymundr [3]); 13di Nikulás; 14di Úlfr, er Ubbi var kallaðr. Þær voru dœtr Sveins konúngs: Íngiríðr, er síðan átti Ólafr kyrri Noregs konúngr Haraldsson; önnur var Ragnhildr, er átti Sveinn, son Áskels Erlíngssonar, þeirra son var Knútr á Sóla. Sveinn Úlfsson var ágætr konúngr ok vinsæll, svâ at [eigi hefir einhverr [4]) Danakonúnga ástsælli verit af öllu landsfólkinu [5]), [hann var lengi konúngr yfir Danmörk [6]). Þorgils, son Sveins konúngs, fór austr í Garðaríki, þar átti hann móðurætt göfga, fœddist hann þar upp, ok

1) *frá* [*v. í S. V. C. E.* 2) Gutthormr, *E.* 3) Eyvindr, *V. G.* 4) engi hefir einn, *S. V. C. E.* 5) Dana landsfólki, *S. V. C. E.* 6) *v. í S. V. C. E.*

var þar til konúngs tekinn, ok kom ekki síðan til Danmerkr. Sigurðr, son Sveins konúngs, fèll á Vindlandi [1].

*Frá Sveini konúngi.*

24. Þá er Sveinn konúngr hafði ráðit fyrir Danmörku 9 vetr ok 20, síðan Magnús konúngr enn góði andaðist, þá var hann staddr austr [2]) á Jótlandi; hann lèt þá þíngs kveðja, ok var þar allfjölment; en er þíngit var sett, þá talaði [3]) Sveinn konúngr ok mælti: guð launi ok þakki yðr Dönum ást ok hlýðni, er þèr hafit við mik lánga stund haft; vænti ek at enn muni svâ vera um þá hluti, er mèr þikkja miklu máli skipta; ek hefi haldit lög forn við yðr Dani, en nú [4]) er sá hlutr í málinu, er yðr man ek þikkja taka um fram lögin, er þat ok svâ; ek vil þess biðja, at þèr látit mik kjósa konúng eptir mik, bið ek þess fyrir þá sök, at ek á marga sonu ok vel mannaða, vil ek heldr skipta ríki með þeim ok konúngdómi, enn þeir deilir með ófriði sín í milli, ok verði fyrir þat styrjöld í landinu ok hernaðr. [Konúngrinn talaði ekki lángt [5]), en er hann hætti rœðunni, þá varð góðr rómr at máli hans, ok játuðu allir honum bœn sína fyrir sakir vinsælda hans ok ástar, er allt fólk unni honum, var þat þá gjört lögtekit, ok átt vâpnatak at, at Sveinn konúngr skyldi kjósa þann af sonum sínum,

---

[1]) Vinnlandi, *E.* [2]) vestr, *S.* [3]) *þannig S. V. E.* svaraði, *A.* [4]) einn, *V.* [5]) *v. í S. V. C. E.*

sem hann vildi, til konúngs eptir sik í Danmörk. Þá tók Sveinn konúngr til máls ok sagði svâ: Haraldr er elztr sona minna, sem þèr vitið, at vetratali, en Knútr er [röskastr í skapi ok [1]) bezt at íþróttum búinn allra sona minna, er hann nú ok reyndr at herstjórn [2]), ok þikki mèr hann bazt til konúngs fallinn af sonum mínum [3]), vil ek hann til konúngs kjósa eptir mik. Var þá slitit þínginu.

### *Andlát Sveins.*

25. Síðan fór Sveinn konúngr aptr í þorpið, þar sem hann hafði áðr veizlu haft, þar heitir Suddaþorp. En er konúngr kom [til herbergis [4]), þá lèt hann búa hvílu sína, ok lagðist í sótt, ok leiddi sú sótt hann til bana. Lík hans var flutt til Hríngstaða, [[ok var hann þar jarðaðr. Kálfr Mánason segir svâ [í kvæði því, er hann orti um Knút enn helga, son Sveins konúngs [5]), at líkit Sveins konúngs var flutt á 13 dögum [sunnan af Jótlandi ok norðr [6]) til Hríngstaða með miklum prís ok virðulegri líkfylgju [7]). Sveinn konúngr andaðist þriðja Kal. Mají, þá hafði hann verit konúngr at Danmörku 9 vetr ok 20, síðan Magnús konúngr andaðist, en áðr 2 vetr í úfriði við Magnús konúng. Sveinn konúngr andaðist 10 vetrum

---

1) *v. í S. V. C. E.* 2) hirðstjórn, *S. V. C. E.* 3) hèr í Danmörk, *b. v. S. V. C. E.* 4) í þorpið, *S. V. C. E.* 5) *v. í C. E.* 6) *v. í C. E.* 7) frá [[ *v. í S. V.*

eptir fall Haraldanna [1]) á Englandi. Þá voru liðnir frá andláti gamla Knúts 40 vetra. Sveinn konúngr var allra manna fríðastr, hann var ok hverjum manni meiri ok sterkari, lítillátr ok blíðmæltr [2]), manna örvastr, snjallr í máli, stjórnsamr ok rèttlátr [3]), þolinmóðr, enn hraustasti [ok enn vâpndjarfasti [4]); ekki var hann sigrsæll í orróstum, [svâ sem hèr er áðr sagt [5]). Svâ segir Steinn Herdísarson [í Nizar vísum [6]), er hann orti um Harald konúng Sigurðarson:

Oss dugir hrafns ens hvassa
húngr-deyfi [7]) svâ [8]) leyfa,
linns at lastim [9]) annan [10])
látrs [11]) sveiganda [12]) eigi;
[aldregi kvöddust oddum,
annað hverjum manni
tál er um tiggja at mæla,
tveir fullhugar meiri.

Ok enn kvað hann:

Eigi mundi undan
allvaldr Dana halda,
oss dugir satt um snotran
sælínga kon mæla;
ef menn fyrir sjá sunnan
sverð reiddust [13]) at ferðir

---

1) Haralds konúngs, *S. V. Hèr byrjar F.* 2) blíðleytr, *V*, 3) rèttdæmr, *S. V. C. E. F.* 4) í öllum mannraunum, *S. V. C. E.* 5) *v. í C. E. F,* 6) *v. í C. E. F.* 7) deump, *C. E. F.* 8) fè, *S.* 9) *K.* lastinn, *A.* lastni, *S. E.* lästum, *F.* 10) annat, *S. C. E.* 11) látur, *S. C. E.*, 12) sveigandi, *S. C.* sveigan, *F.* 13) *v. frá* [ *í S. T. E.*

þeir er [1]) herskildi hèldu
hrafn fæði [2]) vel tæði [3]).

*Haraldr til konúngs tekinn.*

26. Eptir andlát Sveins konúngs varð þegar sundrþykki mikit með sonum hans, ok dró hverr þeirra at sèr vini sína, ok leitaði sèr fulltíngs [4]). Ásbjörn Eydana [5]) jarl [6]) hafði gipt dóttur sína Haraldi, syni Sveins konúngs, ok gekk hann at með enu mesta kappi, at halda Haraldi til konúngs, ok hurfu at því margir aðrir höfðíngjar með honum; drógu þeir þat fram, sem forn lög voru, at enn elzti konúngsson skyldi konúngr vera, en hirtu ekki, hvat Sveinn konúngr hafði þarum mælt, eðr hverju þeir höfðu honum heitit. Knútr, son Sveins konúngs, hafði [áðr verit [7]) í hernaði í Austrveg, ok hafði hann lið mikit ok góðan skipakost. Svâ segir Kálfr Mánason í kvæði sínu, at Knútr hafi sigrað 10 konúnga, þá er hann var í hernaði í Austrveg. Þeir báðir brœðr Knútr ok Haraldr sóttu nú til Jótlands, [þvíat þar skyldi [8]) konúng taka á Vebjarga þíngi, var þar allmikit fjölmenni. En er þíngit var sett, ok höfðíngjar þar komnir, þeir sem vân var, þá talaði [þar annar [9]) at öðrum, ok birtist þá hverr hverjum [fulltíngði [10]); fór svâ

[1]) *v. í F.* [2]) hrafn fœðir, *F.* [3]) *v. í V. frá* [ [4]) við *b. v. C. án hvíldarmerkis.* [5]) Eydanna, *V.* [6]) hann *b. v. C,* [7]) þá verit um hríð, *S. V. C. E.* [8]) Danir skyldu sèr, *S. V. C.* [9]) hvör, *S. V. C. E.* [10]) vildi fylgja, *S. V. C. E.*

þann dag allan til nætr, [ok var ekki þá nær lyktinni [1]) enn áðr; en annann dag, er menn komu á þíngit, ok nökkurir menn höfðu talat, þá stóð upp einn maðr í bóndaliðinu, ok talaði ok mælti svá: vèr Jótarnir höfum lengi haft vald til þess, at kjósa konúng yfir Danaveldi, höfum vèr Danir verit jafnan konúngsælir, ok þessi konúngr, er nu var næstum, hafði alla hluti [þá með sèr [2]), er konúng príðir [3]), en þat er herða [4]) ok stjórn at gæta landsins, þvíat land vårt er mjök herskátt af víkíngum; þurfum vèr þann konúng, at áðr sè reyndr í bardögum ok at stjórn hersins ok þar með lands ok laga; [hafi hann ok bæði til [5]) vit ok vanda [6]) at vera höfðíngi; konúngr þarf að vera snjallr í máli [7]) ok stiltr vel, ok þó harðr til rèttra refsínga, örr af fè, þvíat hann tekr af mörgum, skal hann af því mikit gefa; þat er ok hans prýði, at hann sè fríðr ok fagr, ok sæmiligr í enum beztá búnaði; tökum þann til konúngs, er þessa hluti hefir einn alla, sem nú eru upptaldir, þvíat góðr konúngr er oss betri ok nytsamligri enn öll en fornu lög vår. - Knútr einn hefir þetta með sèr, er nú er upptalt, [hann viljum vèr til konúngs taka [8]); var ok

---

[1]) at ekki var nær, *S. V.* var þá ekki at nær heldr, *C.*
[2]) til þá, *S. V. C. E.* [3]) príða, *V. S. C. E.*
[4]) hræðsla, *S. V.* hræresla, *C. E.* [5]) hafi þartil, *S. V.*
[6]) vilja, *S. V. C. E.* [7]) stjórnsamr, *b. v. S. V. C. E.*
[8]) *v. í S. V.*

Sveinn konúngr svâ heilráðr sínu landsfólki, at þat mun öllum bazt gegna, at hafa hans forsjá um slíka hluti, er oss liggr svâ stórt við. Þá varð at máli hans rómr mikill, ok þótti öllum vel mælt. Eyvindr bifra hèt einn ríkr maðr, vinr mikill Ásbjarnar jarls, hann stóð þá upp, ok talaði, þegar hljóð fèkst, ok tók svâ til orðs: mikit vandamál egum vèr [hèr at kæra, en þó eigi at síðr heldr oss [1]) nauðsyn til, at taka einnhvern konúng yfir oss; allir megu [2]) þat sjá, at Knútr hefir flesta hluti til þess, að vera konúngr yfir Danmörk, þó at forn lög vâr vísi heldr til annars, ok eigi vildum vèr í móti honum mæla; en þó ef vèr skulum lögin brjóta, þá hæfir þat, at allir landsstjórnarmenn ok höfðíngjar gjaldi þar til jáyrði, ok verði allir á eitt sáttir; Björn konúngs bróðir er eigi hèr á þínginu, er einn er ágætastr af lands [3]) mönnum [ok mest ráðandi, en þetta er ekki svâ lítit vandamál, ok sýnist oss ráð, at hafa hèr við alla ena beztu menn, þá er nokkurs eru ráðandi, finnumst hèr á morgin, ok tökum oss þá konúng at lögum, þó at Knútr sè nú líkastr til. Sleit svâ [4]) þínginu, ok fór Knútr til skipa sinna. Á þeirri nótt áttu höfðíngjar stefnu ok [tal sitt [5]), var þar Haraldr Sveinsson ok Ásbjörn jarl, mágr hans, Björn konúngs [6]) bróðir

[1]) Danir ok er þó, *S. V. C. E.* [2]) megum vèr, *S. V. C. E.* [3]) vorum, *S. V. C. E.* [4]) en er Eyvindr hætti ræðu sinni, þá var ok slitið, *S. V. C. E.* [5]) ráðagjörðir, *S. V. C. E.* [6]) Knúts, S.

ok Eyvindr bifra ok margir aðrir [vinir þeirra [1]), þeir er Harald vildu til konúngs taka. Þá talaði Eyvindr bifra, ok mælti svâ: þíng áttum vèr í dag við Knút, ok fór þar, sem ek sagða yðr áðr, at Knútr var mjök flytjandi síns máls, en hann hafði ólög [2]) at mæla, en þó kom hann svâ sínu máli, at þat þótti öllum áheyriligt, bar til þess snild hans ok prettr [sá, er hann hafði skotit í munn manni þeim, er talaði í flokki vârum, svâ at allr múgr geystist fram með einu samþykki, at vilja Knút hafa til konúngs, brá ek fyrir þá sök [3]) upp þínginu, mun oss ekki annat duga, ef vèr viljum þó kapp á leggja, at Haraldr verði konúngr, [at fullna þat svâ, at Knútr sè hvergi [4]) nær; skolum vèr fá nú til menn at eiga þíng við Knút, þá er snjallir sè ok slægir, en sumir skolu sitja á meðan launþíng, ok taka Harald þar til konúngs. Þetta ráð líkaði öllum vel, ok var svâ gjört, var Eyvindr bifra sendr at þínga við Knút, ok með honum mikit bóndalið. En er þíngið var sett, þá kom Knútr þar, hann stóð upp, ok talaði lángt [5]) ok snjalt, ok beiddi bœndr gefa sèr konúngsnafn, sem áðr var rætt. Þá svaraði Eyvindr bifra, [bað bœndr bíða þess, er [6]) jarl eða aðrir höfðíngjar kæmi til þíngsins, þeir

---

[1]) höfðíngjar, *S. V. C. E.* [2]) órètt, *S. V. C. E,* [3]) ok því brá, *S. V. C. E.* [4]) at láta Knút hvörgi vera nær, *S. V. C. E.* [5]) erindi, *b. v. S. V. C. E.* [6]) Asbjörn, *b. v. F.*

er þángat var vân, ok þikkir oss þat meiri sœmd [1]), at sem flestir sè við, [þeir er nokkurs sè ráðandi, enn vèr væntum at hèr mæli engi í móti [2]). Síðan veik hann svâ rœðunni, [at hann taldi upp mannkosti Knúts, talaði þar um lángt ok snjalt [3]), at hann væri bazt til konúngs fallinn [af öllum sonum Sveins konúngs, fann hann til þess mörg sönn orð; hann talaði lengi [4]), en áðr hann hafði lokit tölunni, þá komu menn á þíngit, ok sögðu þau tíðindi, at Haraldr Sveinsson var til konúngs tekinn yfir öllu Danaveldi. En er Knútr heyrði þetta sagt, stóð hann þegar upp, ok gekk í braut ok til skipa sinna, en er hann kom á skipin, þá undruðust allir menn, þeir er hann sá, hvílíkr hann var, sumir hugðu [hann sjúkan [5]) orðinn, þvíat andlit hans var svâ rautt sem blóð; hann settist niðr á hásætis kistuna, ok mælti ekki, engi þorði at krefja hann máls, ok var svâ lánga stund dags. Eyvindr bifra fór þegar á fund [Haralds ok [6]) Ásbjarnar jarls ok [annarra þeirra höfðíngja, er at þessu ráði höfðu horfit; hann [7]) sagði þeim þessi tíðindi, ok lèt þat fylgja, at hann hugði þat, at vís

---

1) þess viljum vèr biðja at fleiri menn komi til þíngsins, þykir oss Knúti í því mest sæmd, *S. V. C. E.* 2) þvíat þessu má engi maðr í móti mæla, S. *V. C. E.* 3) til Knúts ok lofaði hann í hvörju ok sagði, *S. V. C. E.* 4) fyrir margra hluta sakir, *S. V. C. E.* 5) *þannig S. V. C. E.* at hann væri sár *A.* 6) *v. í S. V. C. E.* 7) *v. í S. V. C. E.*

### *Andlát Ólafs konúngs.*

69. Ólafr Sveinsson átti Íngiríði, dóttur Haralds konúngs Sigurðarsonar, Noregs konúngs, systur Ólafs konúngs kyrra. Ólafr Sveinsson var ríkr maðr ok grimmr ok óvinsæll, hann var ágjarn ok fègjarn; var um hans daga í Danmörk hallæri mikit ok lögleysur; mæltu þat þá margir menn, þeir er eigi höfðu verit í mótgángi við Knút konúng, at því hefði óheppiliga verit umskipt, ok þeim hefði at illu reift: þvíat konúngr þessi lætr öngvan mann frjálsan vera [1]). Ólafr var konúngr 8 vetr í Danmörk; hann varð sóttdauðr, ok var hann ekki [2]) harmdauði Dönum [3]).

### *Frá Eiríki jarli Sveinssyni.*

70. Eirekr jarl hafði haldit ríki sínu í Sjólandi um daga Ólafs konúngs, því er Knútr bróðir háns hafði veitt honum. Eirekr var ríkr maðr ok vinsæll, hann hafði [jafnan fjölmenni um sik [4]), hann herjaði jafnan í Austrveg, ok herjaði á heiðíngja, en lèt alla kristna menn fara í friði [fyrir sèr [5]) ok svâ kaupmenn; við þessa hans meðferð varð hann frægr ok vinsæll um allan Austrveg [6]); hann fór allt austr í Garð-

---

[1]) lætr hann gánga með myklu meiri frekju, enn fyrr hafi verit; sönnuðu þat þá allir, *b. v. F, K.* [2]) lítt, *F.* [3]) alþýðu manns, *F.* [4]) löngum mikla hirð með sèr, *F.* [5]) þannog sem hverjum líkaði bezt, *F.* [6]) svâ at hverr maðr, sá er nokkurs þótti verðr, kunni skyn á hans nafni, *b. v. F.*

ariki, ok sótti þar heim [marga höfðíngja ágæta [1]), ok tóku þéir honum allvel ok sæmiliga; þá hann þar gjafir margar af höfðíngjum [2]). Svâ segir Markús Skeggjason í Eiríksdrápu [3]):

Fæðir sótti fremdar ráða
foldar vörðu austr í Görðum [4])
auði gæddu allvald prúðan
ítrir menn [5]) er hneyki [6]) slíta;
stillir [7]) varð um Austrveg allan
einkar tíðr [8]) hinn mærðar blíði
hinn var engr [9]) er hans nafn kunnit [10])
heiðar [11]) manns í lofi reiða.

Eiríkr jarl fór um öndvert vorit austan úr Görðum [12]), sigldi hann austan um öndvert sumar, ok heim til Danmörk í ríki sitt. Svâ segir Markús:

Vor öndvert bjó Vinda rírir [13])
vegligt flaustr [14]) úr Görðum austan,
hlýrum skaut á hola báru
helmíngs oddr í sumars broddi;
hlýðu [15]) studdi [16]) borðvið breiðan
bróðir Knúts í veðri óðu,

---

1) höfðíngja ok ríkismenn, *F.* 2) ríkis mönnum, *F.* 3) sinni drápu, *S. V.* 4) Garða, *F. K.* 5) þeir, *b. v. F.* 6) hnöggvi, *F. K.* 7) stillr, *F.* 8) *F*; tíðum, *B.* 9) *K*; honum varð engi, *B.* 10) *F.* kunnigt, *B.* 11) herðar, *B.* 12) ok lèt setja fram skip sín, þegar ísa leysti, ok búa þau at öllu sem hann hafði bast efni til, *b. v. F. K.* 13) tírir, *B.* 14) flaust, *F.*; veglig flaust, *K.* 15) lýðum, *K.* *í uthugagreinunum.* 16) *F, K*; studdu, *B.*

síðan knáði [1]) svik-fólks eyðir
snilli kendr við Danmörk lenda.

*Eiríkr enn góði varð konúngr.*

71. Eiríkr tók þá konúngdóm í Danmörk eptir Ólaf bróður sinn, sem lög stóðu til, þvíat hann var elztr sona Sveins konúngs, þeirra er þá voru á lífi [2]). En er Eiríkr var konúngr orðinn í Danmörk, þá reisti hann upp lög í landinu, ok leiðrètti siðu manna, þvíat margar óvenjur ok siðleysur hafði yfir landit gengit, meðan Ólafr lifði. Eiríkr konúngr siðaði vel fólk, ok gjörði sèr alla kæra hina beztu menn í ríki sínu; hann var örr af fè, bæði við höfðíngja ok [við vini sína [3]), ok veitti stórfè [4]) öllum þeim, er hans fund sóttu, ok þeim öllum mest, er lengst sóttu til hans, hann gaf ok mikit fátækum mönnum [5]); hann varð brátt vinsæll af Dönum; hann var kallaðr Eiríkr hinn góði, ok sögðu þat menn at honum væri þetta sannefni, þvíat allir þóttust gott af honum hljóta, þeir er til hans komu. Svå segir Markús:

Drengir þágu auð af [6]) Ýngva,
örr fylkir gaf sverð ok knörru,
Eirekr veitti opt ok stórum
armleggjar röf dýrum [7]) seggjum;
hríngum eyddi harra [8]) slaungvir,

---

[1]) knátti, *F.* [2]) var þat þá vili ok samþykki allra höfðíngja ok alþyðu í Danmörk, *b. v. F.* [3]) hirð sína, *F.* [4]) í vingjafir, *b. v. F.* [5]) ef þeir komu á fund hans *b. v. F.* [6]) at, *S. F.* [7]) dyrðar, *F.* [8]) herra, *S. F.*

hildar rammr enn stillir [1]) framdi [2])
firða kyn [3]) at flestir urðu
Fróða stóls af honum góðir.

*Um Eirík.*

72. En er Eiríkr konúngr hafði skamma stund ráðit fyrir Danmörk, þá kom þar sá hinn sami prestr, er fyrr hafði tjáð helgi Knúts konúngs fyrir Ólafi konúngi; ok þegar er Eiríkr konúngr sá hann, þá heimti konúngr hann á eintal, ok spurði hvat hann kynni at segja honum frá táknum þeim, er yrði um helgi Knúts konúngs: var oss þess fyrir laungu von, segir konúngr, at þar mundi þau efni í vera, viljum vèr vita þat sem gjörst, því öllum oss væri mestr fagnaðr í því, ef þat mætti með sannleik segja [4]). Prestr svarar: já, herra! segír hann, fagrt er þar frá at segja ok satt, þvíat þat er með sönnu at segja, ad öngvir kalla þeir með góðfýsi [5]) á hans nafn, at eigi fái þeir skjótt bót allra meina sinna, hvat sem þeim er [at ángri [6]); ok þetta vissu margir með prestinum sannorðir menn; höfðu [7]) þá margir áheit við Knút konúng, ok urðu margar fagrar jarteignir at hans helgi; gjörðist þá kunnigt um helgi hans um alla Danmörk.

---

1) stild, *B.* 2) framl, *S. V.* 3) svâ, *b. v. F*, *K.* 4) enn gæti þó þess, er mest liggr við, at menn segi þat eigi fyrri, enn menn vita áðr sannleik á, hvat er mæla skulu, *b. v. F.* 5) náliga, *b. v. F.* 6) áðr at meini, *F.* 7) hófu, *F.*

*Frá Eiríki konúngi.*

75. Eiríkr konúngr gjörðist nú ríkr höfðíngi ok ágætr, hann var allra konúnga vinsælastr, hann hegndi mjök ósiðu manna, hann eyddi víkíngum ok vondum [1]) mönnum, hann lèt drepa þjófa ok ránsmenn, eða hamla á höndum eða á fótum, eða veita aðrar stórar refsíngar, svâ at engi mátti vondra manna þrífast í Danmörk fyrir honum, hann var rèttdæmr, ok hèlt ríkuliga guðs lög. Svâ segir Markús:

Vörgum eyddi Vinda fergir,
víkíngum hepti konúngr síkjum,
þjófa hendr lèt þengill stýfa,
þegnum kunni hann ósið hegna;
aldri fráttu [2]) at Eiríkr vildi
allrèttligum dómi at [3]) halla,
hála [4]) kunni sèr til sælu
sigrs valdari guðs lög halda.

Eiríkr konúngr var vitr maðr ok góðr klerkr, ok kunni margar túngur, manna minnigastr [5]) ok snjallastr í máli. Svâ segir Markús:

Hróðigr átti brynþíngs [6]) beiðir
bjartan auð ok fræklikt [7]) hjarta,
minni gnógt ok mannvit annat
mest, fylgðu því hvergi lestir;
alla hafði öðlíngr snilli,
úngr nam hann margar túngur,

[1]) úændis, *F.* [2]) frást, *K;* fanstu, *S, V;* frèttu, *F.* [3]) *v. í F, K.* [4]) *F, K;* haga, *B.* [5]) megnastr, *S, V;* minngastr, *F.* [6]) *F, K;* byrðings, *B.* [7]) *S, V, F.* frækuligt, *K;* frægligt, *B.*

Eiríkr var, sá er [1]) mátti meira,
mestr ofrhugi, jöfri [2]) flestum.

*Brottferð Eiríks.*

74. Eiríkr konúngr bjó ferð sína af Danmörk, hann gjörði mönnum þat kunnigt, at hann ætlaði suðr til Róms [3]), hann hafði virðuligt föruneyti með sèr; hann skipaði ríki sínu meðan í vald vina sinna til stjórnar; eigi hafði hann með sèr mikit fjölmenni; hann gekk alla leið suðr til Róms. Svâ segir Markús:

Lýst skal hitt er lofðúngr fýstist
lángan veg til Róms at gánga
fylkir sá þar friðland bálkat
Feneyjar hlið [4]) dýrð at nema [5]).

Síðan fór hann [6]) út í Fenedí ok í Bár, ok sótti heim marga helga staði, ok gekk jafnan. Svâ segir Markús:

Bróðir gekk í Bár út síðan
bragníngr vildi guddóm magna
hylli guðs mun hlífa stilli [7])
höfuðskjöldúnga fimm [8]) at gjöldum.

Eiríkr konúngr [9]) varði í þessari ferð stórfè, þar sem voru klaustr eða aðrir helgir staðir. Síðan snèri hann aptr ferð sinni, ok kom þá enn til Rómaborgar, er hann fór sunnan. Svâ segir Markús:

---

1) eigi, *S. V.* 2) í ófrið, *S. V.* 3) Róma, *B.* 4) lið, *F.* 5) venja, *F. K.* 6) þaðan, *b. v. F.* 7) stillir, *V.* 8) fiim, *S. V.* 9) sótti heim marga höfuðstaði, *b. v. F.*

Stóra sótti Haralds hlýri
helga dóma út frá Rómi,
hríngum varði [1]) áttkonr [2]) Ýngva
auðig skrín ok [3]) gulli rauðu;
mildíngr fór um múnkaveldi
móðum fæti sál at bæta,
sveitir [kníði allvaldr [4]) utan
Eiríkr var til Róms í þeirri.

Eiríkr konúngr dvaldi nokkura stund í Rómaborg, ok gjörði sèr at vinum marga höfðíngja þar í borginni ok víða annarsstaðar, ok kom sèr í hina mestu kærleika við þá; hann þurfti hvergi túlk fyrir sèr, þar sem hann kom. Í þenna tíma var Paskalis páfi í Róma, er annar hefir verit með því nafni, hann tók sæmiliga við Eiríki konúngi, ok gjörði hann sèr kæran í vináttu. Eiríkr þá lof til þess af páfanum, at erkistóll [5]) skyldi vera í Danmörk, en áðr var engi norðar enn í Brimum [6]) í Saxlandi. Svâ segir Markús:

Eiríkr náði utan at færa
erkistól um Saxa merki,
hljótum vèr þat er hag vorn bætir
híngat norðr at [7]) skjöldúngs orðum.

Marga hluti aðra þá Eiríkr af páfanum, þá er nytsamligir hafa verit á Norðrlöndum. Pávinn

---

[1]) *þannig S. V*; vandi, *B*; eyddi, *F*. [2]) *þannig F.* at kom, *B*. [3]) *K.* með, *F.* í, *B* [4]) *þannig F.* kendu allvalds, *B*. [5]) erkibiskupsstóll, *F.* ok *K*. [6]) *þannig F*; Bremen, *B*. [7]) af, *V*.

leyfði honum at taka upp úr jörðu helgandóm Knúts konúngs. Svâ segir Markús:

Eyðist hitt at jafn stórt ráði [1])
[annarr gramr [2]) til þurftar mönnum;
leyfði allt, sem konúngr krafði,
[Krists unnandi pávi sunnan [3]).

Síðan skildu þeir pávinn ok Eiríkr með vináttu ok miklum kærleikum. Eiríkr konúngr snèri þá til heimferðar, en er hann kom til borgarinnar Placencía, þá setti hann spítala skamt frá borginni; en er hann kom til borgarinnar, er Lúka [4]) heitir, þá gaf hann þar fè til þess, at allir pílagrímar, þeir er [á dönsku töluðu [5]), skyldu þar ókeypis nóg vín drekka, ok heimila gistíng eiga [6]). Eptir þetta fór Eiríkr konúngr heim til Danmerkr í ríki sitt, varð hann allfrægr af för þessari.

*Frá Heinreki keisara.*

75. Nú var í þenna tíma keisari í Saxlandi Heinrekr, son Heinreks keisara hins milda, hann var [7]) hermaðr mikill, ok er hann spurði at Eiríkr konúngr var úr landi farinn, þá stefndi hann miklum her saman í ríki sínu, ok fór með her þann til Vindlands, ok vann þar mikinn hernat í ríki því, er Dana konúngar höfðu átt þar lengi [8]); játaði þar allt fólk hlýðni keis-

[1]) *F, K;* jafnan stórræði, *B.* [2]) *F, K;* annan gram, *B.* [3]) *v. í S. F.* [4]) Líka, *F.* [5]) danska túngu mælti, *F.* [6]) at þeim spítala, er hann hafði settan ok áðr var frásagt, *b. v. F.* [7]) ríkr höfðingi ok, *b. v. F.* [8]) lagði keisarinn undir sik ríkit ok, *b. v. F.*

aranum; heiðit var allt fólk í Vindlandi þá í þenna tíma. Keisarinn setti þar yfir marga höfðíngja til gæzlu yfir ríki þat, er hann hafði unnit; einn af þeim hèt Björn, sá var ríkastr. Björn mælti til keisara: við slíkt stórvirki, sem vèr höfum unnit á ríki Danakonúngs, þá þurfum vèr mjök yðvarn afla; vil ek nú þess beiða, at þèr unnit oss teingda [1]) við yðr; vil ek nú þess ok biðja ok hafa tilmæli, er frú Bóthildr [2]) er, systir yður [3]), þvíat mèr sýnist þetta eigi hættulaust, at sitja hèr fyrir Dönum; er yðr ok kunnig ætt mín ok atferð. Keisari lèzt mundi veita honum þetta [4]), ef hann vildi sik allan tilleggja, at verja þetta ríki fyrir Dönum eðr öðrum þeim, er til vildi kalla. Síðan gipti keisari frú Bótildi Birni [5]); þat er sagt frá hennar ætt, hún var systir keisara sammædd, en faðir hennar hèt Þorgautr, hann var danskr at ætt, hann var hirðmaðr [6]) Sveins konúngs Ulfssonar, hann var manna fríðastr, hann kallaði Haraldr konúngr Sigurðarson fögrumskinna; faðir hans hèt Ulfr, hann var jarl í Danmörk, hann var hermaðr mikill; hann fór í vestrvíking, ok vann [Galizuland [7]) ok eyddi, ok gjörði þar mikinn hernað, ok því var hann kallaðr Galizu-úlfr; hann átti Bóthildi, dóttur Hákonar jarls Eiríkssonar, var hún móðir Þorgauts fögr-

[1]) mægða, *F.* [2]) *S, V*; Bótild, *B.* [3]) yðar, *S. V.*
[4]) ok slíkar aðrar sæmdir, sem hann beiddi, *F.* [5]) *v. í B.*
[6]) hirðjarl, *F.* [7]) Vestr-Galicíaland, *B.*

umskinna. Keisari setti nú Björn mág sinn höfðíngja yfir því ríki [1]), sem hann hafði unnit í Vindlandi; en Heinrekr keisari snèri þá heim aptr í Saxland; en Björn settist í ríki Danakonúngs, ok hugðist halda mundu því ríki fyrir Dönum. [Í þenna tíma kom Eiríkr konúngr sunnan frá Rómi, er Vindr höfðu gengit undan hlýðni við hann, ok gafst þeim svå sinn útrúnaðr, sem enn mun síðar verða frásagt [2]). Svå segir Markús:

Veldi þorðut [3]) Vindr [4]) at halda
villan gjörðist þeim at illu
sunnan kom þá svikdóms manna
sátta rof, þat er buðlúngr átti [5]).

*Frá Eiríki.*

76. Þá er Eiríkr konúngr kom heim í ríki sitt, ok hann spurði þenna ófrið, er keisarinn hafði gjört í Vindlandi, þá átti hann þegar þíng við höfðíngja ok bændr, ok talaði hann svå: Öllum mönnum er kunnigr suðrmanna ágángr á ríki þau, er Danakonúngar, vòrir frændr, hafa lengi átt í Vindlandi; nú skulu þat vita allir mínir menn, at vèr ætlum þessum ófriði af oss at [6]) hrinda, eða bíða bana ella. Síðan sendi hann hèrboð um allt sitt ríki, ok

[1]) Dana konúngs, *b. v. F.* [2]) *þannig K;* Eiríkr konúngr kom svå fremi (su fregn *S.*) sunnan, er Vindar höfðu gengit undir hlýðni við Heinrek, sem enn mun sagt verða frá því, hversu þeim gafst þat, *B.* [3]) þorðu, *S, V.* [4]) Vindar, *B.* [5]) *hèr endar F.* [6]) reka eða, *b. v. B.*

dró saman herlið mikit, aflaði sèr síðan til skipa, ok sigldi með allan herinn til Vindlands. Svâ segir Markús:

Yngvi hèlt í óða straúngum
öldugángi skipum [1]) þángat;
hlýðan [2]) skalf, en [3]) hristi græðir
hèlug [4]) börð [5]), fyrir Vinda görðum [6]).

En er Vindahöfðíngjar, þeir sem keisari hafði þar yfir skipat, spurðu at Danaher bjóst á hendr þeim, þá stefndu þeir liði saman, ok bjuggust til bardaga. Eiríkr spurði þat, at Vindar vildu verja honum ríki sitt, gekk hann þá á land með lið sitt, ok fylktu þá hvorir með sínu liði. Eiríkr konúngr fylkti svâ sínu liði, at rani var á framan á fylkíngunni, ok lukt allt utan með skjaldborg. Svâ segir Markús:

Röndu lauk um rekka kindir
risnu maðr [7]), svâ at hver tók aðra;
hamalt, knáttu þá hlífar glymja,
hildíngr fylkti liði miklu.

Síðan lèt Eiríkr konúngr bera fram merki sitt, tókst þar hin snarpasta orrosta. Eiríkr konúngr var framarliga í orrostu, ok barðist alldjarfliga, hann var í brynju, ok hafði hjálm á höfði. Svâ segir Markús:

Styrjöld óx um stilli örvan,
stengr báru fram vísis drengir [8]),

---

[1]) skíðum, *S. V.* [2]) *M. K.* hlundan, *B.* [3]) er, *B.* [4]) *þannig M*; herlug, *B.* [5]) horð, *B.* [6]) gerðum, *B.* [7]) mar, *S. V.* [8]) *þannig S. V. K*; drengi, *B.*

mildíngr gekk at miklum hjaldri
málmi skrýddr ok faldinn hjálmi.

Síðan lögðust Vindar á flótta, ok héldu sik á ýmsum stöðum í borgum ok í kastölum, en Danir sóttu eptir þeim, ok áttu við þá bardaga, ok drápu mart af þeim. Svâ segir Markús:

Hörga [1]) varðist herr í borgum,
hjaldr gánga var snörut [2]) þángat,
[harðir knídust [3]) menn at morði,
merki blès um hilmi [4]) sterkan;
Eiríkr vakti odda skúrir,
eggjar týndu lífi seggja;
súngu járn, en svæfðust [5]) drengir,
sveiti fèll á valköst heitan.

Blóðit dreif á randgarð rauðan,
rógs hegnir drap ótal þegna,
framdi sik; þar er fólkvopn glumdu,
fylkir úngr, en brynjur sprúngu.

Vindar sáu þann sinn kost beztan, at gánga til handa Eiríki konúngi, ok hætta nú til, hverja miskunn hann vill gjöra þeim. Svâ segir Márkús:

Heiðinn vildi herr um síðir
hömlu vígs úr porti gömlu,
urðu þeir, er virkit vöru,
vángi næst á hönd at gánga.

1) hörða, *B.* 2) snarut, *B.* 3) harðir tíndust, *S. V.* harðar kindr, *B.* 4) hilmir, *S. V.* 5) *þannig S. V.* sæfðuz, *K.* svæfðumst, *B.*

þar var orðit svå mikit mannfall, at engi kom tölu á, þar hafði ok fallit Björn, mágr keisarans, ok nær allt lið þat, er honum hafði fylgt; þar tók Eririkr konúngr mikit herfáng, ok skipti því öllu með sínum mönnum, en hann sjálfr vildi ekki af hafa. Eiríkr konúngr lèt brenna bygðir víða um landit, ok varð fólkit svâ hrætt, at flýði undan víðs vegar. Svå segir Markús:

Heiðin voru hjörtun lýða
hrygðafull í Vinda bygðum,
eldrinn sveif um ótal hölda,
Eiríkr brendi sali þeirra;
eisur kyndust hátt í húsum,
hallir náðu vítt at falla,
óttu leið, en uppi þóttu
elris grand í himni [1]) standa.

þat var ok, sem Markús sagði, at í þessum hernaði lèt margr maðr sitt líf bæði fyrir eldi ok vopnum; fóru sumir Vindar þá á fund Eiríks konúngs. Konúngrinn lagði á þá stór fègjöld, ok táldi þat ríki arftekna jörð sína, er Danakonúngar höfðu átt í Vindlandi, síðan er Sveinn konúngr tjúguskegg lagði þat undir sik. Svå segir Markús:

Eiríkr var með uppreist harri,
undan flýðu Vindr af stundu,
gjöld festu [2]) þá grimmir höldar
gumnar voru sigri numnir [3]);
ýngvi taldi erfðir þángat,

[1]) himin, *S. V.* himnum, *B.* [2]) feldu, *K.* [3]) unnir, *B.*

alþýða varð stilli at hlýða,
veldi rèð því ástvinr [1]) aldar,
einatt lá þat fyrr und Sveini.

Eiríkr konúngr setti þar menn til gæzlu í Vindlandi, ok því ríki hèldu þeir undir Danakonúnga; síðan fór Eiríkr konúngr heim með sigri miklum til Danmerkr, kom hann fyrst við Eyland skipum sínum, er hann kom sunnan af Vindlandi, sem Markús segir:

Flaustum [2]) lukti [fólka treystir
fòldar síðu brimi kníða
örr vísi bað oddum læsa
úrga strönd ok svalri [3]) röndu;
hlífum keyrði hersa reifir
harðla nýtr um landit ytra,
hilmir lauk við hernað ólman
hauðr [Eydana [4]) skjaldborg rauðri.

Eptir þetta settist Eiríkr konúngr um kyrt heima í ríki sínu, ok varð enn frægr ok ágætr af ferð þessari.

*Upptekinn heilagr dómr Knúts konúngs.*

77. Eiríkr konúngr lèt kalla saman alla hina vitrustu menn í ríki sínu, lærða ok ólærða. Konúngrinn segir, at þat er hans vili, at leitat sè til graptar Knúts konúngs, ef þat væri eigi á móti vilja kennimanna, segir [þó á þeirra

1) astvin *S. V.* 2) flaustrinn *S. V.* 3) snjalki *S. V.* snjallri, *B.* 4) *S. V. K;* ey Dana, *B.*

forsjá vera skyldu [1]). Allir báðu konúng fyrir at sjá; ok þá með samþykki biskupanna ok allrar alþýðu ok konúngs atkvæði fóru þeir til Fjóns með miklu fjölmenni, voru þar þá með konúngi allir hinir beztu menn í Danmörk. Síðan var leitat til leiðis Knúts konúngs, ok tekin upp kistan, ok var heilagr dómr hans borinn um kirkju með lofsaungum, en fyrir austan kirkju sat einn maðr, sá er lengi hafði kryplíngr verit, hann varð fyrir þeim mönnum, er helgan dómina báru, en er þeir báru fram yfir hann kistuna, þa stóð hann heill upp, ok gekk með öðrum mönnum um kirkjuna, lofandi guð ok hinn heilaga Knút konúng. Síðan var heilagr dómr borinn í kirkjuna, ok var settr á mitt kirkjugólfit; eptir þat gekk konúngrinn til ok kennimenn, ok var upplokin kista Knúts konúngs, ok líkami hans var með heilu líki, sem hann væri þá nýandaðr, ok þótti öllum mönnum þetta mikils vert; þá var líkaminn tekinn úr kistunni, ok lagðr á barar. Þá mæltu menn, at reyna skyldi helgan dóminn, ok viku þessu allir til konúngs atkvæða. Konúngr mælti: þess em ek fúsari, at reyndr sè, þvíat þat kann vera, ef eigi er reyndr, at þat sè mælt at þetta sè fals ok nýúng vor, Dana; en vèr væntum þess, at guð muni þat [2]) veita fyrir verðleik síns píníngarvotts, Knúts konúngs, at þá skuli öllum

---

[1]) svá at þeirra forsjá ráða skyldi *S. V.* [2]) *hér byrjar síðara brot af H.*

enn auðsærra vera ok óefanligra um hans helgi, er þar sè meiri raun til gjör, svâ at þá megi engi ifa um. Þá lèt Eiríkr konúngr taka lèrept óhreint [1]) ok vefja saman í brúðu, til þess at þat var eigi meira [2]) nè skemra enn líkami Knúts konúngs; síðan var þessi brúða lögð ofan á líkamann, þá var tekinn vígðr eldr, ok lagðr í brúðuna, ok hún brann svâ, at aska ein var eptir, en líkamr hins helga Knúts konúngs var óbrunninn ok svâ alheill, at öngu hári var skatt, en líkaminn var miklu bjartari enn áðr; hófu lærðir menn upp *Te deum*, ok lofaðu allir almátkan guð, ok þenna hans píníngar vott [3]); var þá þegar tekinn í mikit hald hans lífláts dagr, ok er um alla Danmörk hans messudagr haldinn, sem hinar hæstu hátíðir. Þá var úr jörðu tekinn líkkista Benedikts konúngsbróðurs, ok voru sár hans öll gróin, þau er horft höfðu at Knúti konúngi. Eiríkr konúngr lèt gjöra virðuligt skrín, var þar í lagðr heilagr dómr konúngs, var skrínit sett yfir altari. I öðru skríni hvílir Benedikt í Óðinsve [4]) á Fjóni. I þessi sömu kirkju, er nú er helgut Knúti konúngi, veitir guð fyrir hans bænir ok árnaðarorð mykla miskunn ok margar jarteignir: þar fá blindir menn sýn, haltir gánga, líkþráir hreinsast, djöflar flýja frá óðum mönnum; veitist þessi hjálp ok víða, þar sem á hann er heitit eða

---

1) hreint *S.* lín óvent *V.* K.; lín óreint *H.* 2) mjórra *V. H.*
3) enn helga Knút konúng *b. v. H.* 4) Óðinsey, *H.*

kallat með rèttri trú, at samvinnanda drottni vorum Jesú Kristó, þeim er lifir ok ríkir einn guð at eilífu utan enda, amen.

*Frá sonum Eiríks konúngs.*

78. Eiríkr konúngr hafði tekit at herfángi frú Bóthildi, systur Heinreks keisara, er átt hafði Björn, sem fyrr var ritat; fór hún til Danmerkr með Eiríki konúngi; við henni gat Eiríkr konúngr son; sá sveinn hèt eptir Knúti hinum helga, bróður hans, hann var snemma vænligr ok fríðr sýnum; en er hann var úngr at aldri, þa sagði Eiríkr konúngr frú Bóthildi svå: nú hafa vistir þínar verit hèr nokkurar stundir, en nú mun þat þrjóta, mun ek nú láta fylgja þèr heim til frænda þinna. Hún svarar: ek ætla okkr lítt til ástarfunda auðit hafa vorðit, ok hafit þèr meirr gert samlag við mik af heipt enn ást; munu þèr þá, herra! unna mèr þess, at Knútr, son okkar, fari með mèr til hugganar [1]). Konúngr svarar: ekki á ek svå gott at launa frændum þínum, at ek unna þeim þess, at þessi maðr vaxi þar upp, þvíat þat er hugboð mitt, at hann verði at sæmd sínum frændum ok mörgum öðrum. Síðan var henni fylgt heim til frænda sinna, fèkk konúngr henni sæmiligt föruneyti [2]). En Knútr óx upp í hirð föður síns, hann var vinsæll ok vel mentr í alla staði; konúngrinn unni honum

[1]) huganar B. [2]) tók keisárinn vel við henni ok svå aðrir frændr hennar b. v. H.

mikit ok þarmeð öll alþýða. Eiríkr konúngr átti 2 sonu aðra, þá er ellri voru, hèt annarr Eiríkr [1]), en annarr Haraldr kesja, þeir voru báðir efniligir menn. Eiríkr konúngr átti eina dóttur [2]), hún var gipt þeim manni, er hèt Hákon hinn nærræni, hann var ok kallaðr Hákon Sunnifuson; Sunnifa var dóttir Hákonar jarls Ívarssonar ok Ragnhildar, dóttur Magnúss konúngs hins góða. Sonr Hákonar hins norræna ok Ragnhildar, dóttur Eiríks konúngs, hèt Eiríkr lamb, er enn mun síðar verða frá sagt. Eiríkr konúngr hafði laungum starfsamt í ríki sínu, á meðan hann rèði fyrir Danmörk; hann lagði mikla stund á stjórn bæði lands ok laga; hann hafði ok mikinn hug á at styðja staði þá, er niðr voro fallnir eða hrörnaðir; hann lèt gjöra 5 steinkyrkjur af sjálfs síns kostnaði, ok lagði síðan fè til. Svå segir Markús:

Víða setti vísdóms [3]) græðir
virki skrýddar [4]) höfuð kyrkjur,
gjöra [5]) lèt [þar hollr um [6]) hèruð [7])
[hrein musteri fimm af steini [8]);
voru þau með trygðar tíri
tíða flaustr, er gramr lèt smíða [9])

---

[1]) *hèr er stykki rifit af H. til* Ragnhildar. [2]) *puta:* Ragnhildam, *á spátsíunni í S. V.* [3]) vísdóm, *B.* [4]) skrýdd at, *H.* [5]) gerva, *H.* [6]) *þannig, K. í athugagr.* þar hollr vinr, *B.* hann helzt um, *S. V.* [7]) herjat, *H.* [8]) *H. K;* af hreinum ok musteri steini, *S. V.* ok must. 5 af st. hreinum, *B.* [9]) *H. K.* síðan, *B.*

böðvar snjallr ok beztr at öllu
borði[1]) merkt[2]) fyrir Saxa[3]) norðan.

*Jórsalaferð Eiríks konúngs.*

79. Þat var eitt sinn at Eiríkr konúngr átti fjölment þíng, hann tók svâ til orðs: guð þakki yðr Dönum ást ok hlýðni ok marga góða hluti, er þèr hafit til mín gjört, meðan vort samveldi hefir verit, en nú ætla ek mèr ferð úr landi til Jórsala, er þat eigi víst, hvort mèr verðr auðit aptrkomu [4]), skal fara með mèr Eiríkr son minn, ok þar með aðrir höfðíngjar, þeir er (ek) ræð til at nefna; Haraldr son minn skal vera eptir til landsstjórnar í Danmörk, meðan ek em á braut. Knúti syni mínum vil ek gefa hertogadóm, ok þarmeð Heiðabý ok þat ríki, er þar fylgir; en þat er öllum mönnum kunnigt, at Nikulás bróðir minn er nærstr konúngdóminum eptir minn dag fyrir laga sakir, vil ek ok eigi ræna hann sinni sæmd ok ríki, vænti ek at hann muni mèr þat vel launa; þikjumst ek eiga at honum góða frændsemi, at hann veiti Knúti syni mínum vináttu ok styrk, til at halda ríki því, er ek fæ honum í hendr, þvíat hann er sjálfr barn at aldri; [vildi ek [5]) at þeir frændr byggi [6]) vel saman, vil ek ok þess biðja alla mína vini, at þeir gjöri vel til sveinsins ok sæmi-

1) boði *eða* borði, H. 2) merktr, *B.* merkti, *H.*
3) Saxland, *H. K.* 4) híngat til Danmerkr, *b. v. H.*
5) ok þiki mèr þat allmiklu máli skipta, *H.* 6) bjuggu, *B.*

liga. Síðan bjó Eiríkr konúngr ferð sína [1]) með miklum kostnaði, ok spurðist víða þessi hans fyriræetlan, réðust ok margir ríkismenn til þessarar ferðar, bæði útlenzkir ok innlenzkir [2]). Í þenna tíma sendi Frakkakonúngr Eiríki konúngi sæmiligar gjafir, áðr hann fór úr landi. Þat er flestra manna sögn, at þá hafi verit gjör sátt í millum Heinreks keisara ok Eiríks Danakonúngs, svâ at þeir sjálfir sendust gjöfum í millum. Keisarinn sendi Eiríki konúngi [3]) herlið mikit [4]) af sínu ríki [5]). Svâ segir Márkús:

Blíðan [6]) gæddi björtum auði
Bjarnar hlýra Frakklands stýrir,
stórar lèt sèr [randgarðs rýrir [7])
ríks keisara gjafir líka;
honum lèt til [8]) hervígs [9]) búna
harra spjalli [láð menn [10]) snjalla [11])
alla [12]) leið, áðr öðlíngr náði [13])
Jóta grundar Cesars fundi [14]).

*Frá erkibiskupi.*

80. Í þenna tíma var Özur, son Sveins Þórgunnusonar, biskup í Lund í Skáney, hann

---

[1]) í tómi, *b. v. H.* [2]) ok margir höfðíngjar efldu hann með fègjöfum til þessarar ferðar, þeir er spurðu fyriætlan hans, *b. v. H.* [3]) storgjafir ok fèkk honum, *b. v. H.* [4]) ok láðmenn, *b. v. H.* [5]) alla leið út til Miklagarðs, *b. v. H.* [6]) blíðum, *B. hèr byrjar síðara brot af G.* [7]) rauðgarðs reyrir, *S. V.* randgriðs rýrir, *H.* [8]) *hèr endar H.* [9]) hvorigs, *S. V.* [10]) leiðmenn, *V.* [11]) alla, *B.* [12]) snjalla, *B.* [13]) næði, *G.* [14]) fyndi, *B.*

var ríkr ok stórættaðr, ok hinn mesti höfðíngi, hann átti frændaafla mikinn, ok sýndist mörgum mönnum hann vel til erkibiskups fallinn, ok með forsjó Eiríks konúngs ok allra samþykki í Danmörk, þá var Özur kosinn til erkibiskups í Danmörk, ok skyldi erkistóll vera í Lundi, skyldu þar allir Danir til þjóna. Svâ segir Markús:

Dróttum [1]) lèt í Danmörk settan
döglíng [2]) grundar skamt frá Lundi
erkistól, þann er öll þjóð dýrkar,
eljun [3]) þúngr, á danska túngu;
hildíngr framdi heilagt veldi,
hvar gegnan má Özur fregna
honum vísar hölda reynir
himna stig [4]), til biskups vígðan.

*Frá Eiríki konúngi.*

81. Nú er Eiríkr konúngr hafði búit lið sitt, sem honum líkaði, þá fór hann úr landi með fríðu [5]) föruneyti; hann hafði mikit riddaralið, ok marga fótgángandi menn. Svâ segir Markús:

Lýst skal hitt er læknast fýstist
lið hraustr [6]) konúngr [sár en iðri [7]);
[norðan fór með helmíng harðan [8])
hersa mæðir sál at græða;

---

[1]) Drottinn, *G. K.* [2]) döglings, *G. K.* [3]) *M. K.* elli mun, *S. V.* [4]) stigr, *B.* [5]) miklu, *S.* [6]) harðr, *S.* [7]) fór sá norðan, *B.* [8]) hörðum enn með hilmir vörðu, *S. V.* en með helmíng hörðum vörðu, *B.*

harri bjóst til heims ins dýrra [1])
hann gjörði för út at [2]) kanna,
böðlúngr vildi bjart líf öðlast,
bygð Jórsala í [3]) friði trygða.

Eiríkr konúngr fór ríkuliga ok með pris miklum; ok í hverri borg, er hann kom, þá var hans sæmd gjör, gengu kennimenn í móti honum með prócessíóne ok helgum dómi. Svâ segir Markús:

Báru menn úr borgum stórum
bleyði skjars á móti harra [4]);
súngit var þá herr [5]) tók hríngja,
hnossum gölgud skrín ok krossa [6]);
aldri fær [7]) í annars veldi
jöfra ríkr [8]) metnað slíkan,
eitt var sèr þat er jafnast mátti
engi maðr við Dana þengil.

Eiríkr konúngr fór til þess, er hann kom til Miklagarðs, þá var Alexis Grikkjakonúngr, hann tók vel við Eiríki konúngi, ok veitti honum virðuliga veizlu. Alexis konúngr bauð Eiríki konúngi, hvört hann vildi heldr þiggja af honum hálfa lest gulls, eða lèti hann leika fyrir honum þann leik, er Grikkjar kalla [9]) paðreims leik, ok konúngr er vanr at láta leika á paðreimi [10]), í þeim stað er svâ heitir, ok sögðu allir at eigi kostaði konúnginn minna leikrinn,

---

[1]) dýra, *B*; hýra, *S. V.* [2]) *hèr byrjar G. K. aptr.* [3]) *v. í G.* [4]) herra, *S. V.* [5]) *þannig, G.* hèr, *B.* [6]) krossar, *S. V.* [7]) fæst, *S. V.* [8]) ríkir, *G. K.* [9]) *hèr er stykki burtu af G.* [10]) paðreimsleik, *B*; *v. í V.*

enn þetta gull, er hann bauð Eiríki konúngi; en fyrir því at Eiríki konúngi var kostnaðarsamt, er hann hèlt fjölmenni mikit, ok eyddist mjök lausafè hans, en farvegr lángr fyrir hendi, þá kaus hann fyrir þá sök gullit. Þessi sami Alexis Grikkjakonúngr bauð síðan Sigurði Noregskonúngi jórsalafara slíkan kost, en með því at Sigurðr fór þá heimleiðis, ok hafði þá lokit hinum mesta fèkostnaði, þá kaus hann fyrir því leikinn, ok greinast menn á fyrir því, hvört höfðíngligra þótti [1]). Grikkjakonúngr [2]) gaf Eiríki konúngi tignarklæði sín, ok hann gaf honum 14 herskip, ok marga hluti veitti hann honum stórmannliga í fègjöfum. Svâ segir Markús:

Hildíngr þá við hæst [3]) lof aldar
höfgan auð [í gulli rauðu [4])
hálfa lest af harra sjálfum
harðla [5]) ríkr í Miklagarði;
áðan tók við allvalds skrúði
Eiríkr, þó at gefit var fleira,
reynir veitti herskip honum
hersa máttar sex ok átta.

Skildu þeir Alexis [6]) konúngr ok Eiríkr konúngr með allmikilli blíðu ok vináttu. Eiríkr sigldi þá frá Miklagarði með miklu liði, ok er hann kom við eyna Kipr [7]), þá tók hann þar

[1]) væri, *S. V.* [2]) *hèr byrjar G. aptr.* [3]) hæðst, *S. V.* [4]) ok gullið rauða, *S. V.* [5]) harða, *G.* [6]) Alexíus, *S.* [7]) Ciphur, *V. S*; Kifr, *B.*

sótt, þá er hann leiddi til bana; hann andaðist í borg þeirri, er Basta heitir, ok fèkk þat öllum hans mönnum mikillar hrygðar ok víða annarsstaðar, þar er menn spurðu þessi tíðindi. Svâ segir Markús:

Andar krafði út í löndum
allsstýrandi konúng[1]) snjallan
elli beiðat[2]) ofvægr[3]) stillir[4])
aldr[5]) stríð, er frægt[6]) er víða;
síðan harma siklíngs[7]) dauða
snjallir menn um heimsbygð alla,
drúpir[8]) her[9]) [at dólga steypi[10])
dyggan, [þótti veröld hryggva[11]).

Eiríkr konúngr var mjök harmdauði öllum þeim, er hann var kunnigr, svâ at þat er sannliga sagt, at engi Danakonúngr hafi ástsælli verit af allri alþýðu í þann tíma; hann var 8 vetr konúngr í Danmörk, ok stýrði því veldi með miklum ríkdóm ok skörúngskap; öngvir höfðíngjar gengu á ríki hans eðr hans sona, eða ríki þeirra mínkaðist við þá; hann var grimmr óvinum sínum, ok stóð þeim því ótti af honum, hann var blíðr ok kátr við vini sína, varð hann af því vinsæll. Svâ segir Markús:

Hvörgi stóðust hjörva borgar
hristi[12]) meiðar konúngs reiði

1) konúnginn, *B.* 2) beiðir, *B.* 3) *hèr er stykki burtu af G.* 4) stilli, *S. V.* 5) aldrei, *S. V.* 6) fregit, *S. V.* 7) siklíng, *S. V.* 8) draup, *S. V.* 9) heimr, *B.* 10) en dólgum stypi, *B.* 11) þat tær ver. hr. *K*; þótti ver. hryggja, *S. V.* 12) hreisti, *S. V.*

raunar [1]) varðat rönd við hånum
reist, gjörðust þess jöfrar freista;
ógnin stóð af jarla meiði [2]),
engi þorði kapp at strengja,
flestir [ugðu foldvörð hraustan [3]),
fylkir snarr við Dana harra [4]).

*Ættir i Danmörk.*

82. Eptir þat er Eiríkr konúngr fór úr Danmörk, tók Haraldr kesja stjórn ok forráð ríkisins yfir öllu Danaveldi, eptir því sem Eiríkr konúngr hafði tilskipat; hann var þá fullkominn maðr fyrir aldrs sakir, hann var vinsæll af sínum mönnum, ok naut hann þó mest vinsælda föður síns. Haraldr kesja átti einn son, er Björn hèt, ok var kallaðr járnsíða, hann átti dóttur Ínga Steinkelssonar Svíakonúngs, er Katrín hèt; þeirra dóttir hèt Kristín, er átti Eiríkr [5]) hinn helgi Játvarðsson Svíakonúngr, ok voro börn þeirra: Knútr Svíakonúngr ok Margrèt drottníng, er átti Sverrir Noregs konúngr, ok Katrín er átti Nikulás blaka: þeirra dóttir var frú Kristín, er átti Hákon jarl gamli í Noregi, ok var þeirra sonr [6]) Knútr [jarl í Noregi [7]). Haraldr kesja átti Ragnhildi, dóttur Magnúss berfætts, Noregs konúngs; voro þeirra synir Magnús ok Ólafr,

---

1) rannar, *B.* 2) heyni, *M.* 3) hugðu foldná hraustann, *S. V.* 4) hjara, *S. V.* 5) *hèr endar G. en byrjar aptr M.* 6) Stunpa, *b. v. M.* 7) *v. í B. S. V. C. tekit af M.*

er enn mun síðar frá sagt, ok [1]) Haraldr ok Knútr.

*Frá Nikolási konúngi.*

83. Nikulás Sveinsson tók nú konúngdóm í Danmörk eptir Eirík konúng, bróður sinn, þá voru andaðir allir synir Sveins konúngs. Á því sama sumri sendi Paskalis páfi pallíum Özuri erkibiskupi at bæn ok tilskipan Eiríks konúngs. Özur var lengi síðan erkibiskup í Lundi, hann var ríkr höfðíngi. Nikolás konúngr gjörðist ok höfðíngi mikill, hann fèkk Margrètar Íngadóttur, er fyrr hafði átt Magnús konúngr berbeinn. Haraldr kesja [2]) var kær vin Nikoláss konúngs, frænda síns, ok var laungum innan hirðar með honum, stundum sat hann í Róiskeldu í Sjólandi, ok hèlt þar mikla sveit manna, ok efldi þann stað mjök. Eiríkr, son Eiríks konúngs, var eigi jafnkær Nikolási konúngi.

*Upphaf Knúts lávarðar.*

84. Knútr son Eiríks konúngs, hafði hertugadæmi í Heiðabý, sem Eiríkr konúngr, faðir hans, hafði gefit honum; hann var allra manna vinsælastr ok örvastr af fè, ok bezt þokkaðr af alþýðu, þótt Nikolás konúngr eða Magnús son hans hefði ríki meira, því var hann kallaðr Knútr lávarðr. Þat bar mest til vinsælda hans, at hann lèt öllum mönnum heimilt fè sitt, er hafa þurftu, en þeir gættu eigi hófs, er hafa vildu,

1) *S. V.* 2) Eiríksson, *b. v. M.*

ok urðu framlögin minni í móti, enn nauðsyn krafði, ok gekk upp fyrir honum mjök lausafèit; ekki var mart um með þeim Nikolási konúngi ok Knúti lávarði; öfundudu þeir feðgar [1]) mjök vinsæld Knúts; var þat ok mjök rètt at segja, at hverr maðr í Danmörk vildi svå sitja ok standa sem Knútr vildi; var Magnús þó jafnan færri til hans. Nökkurum vetrum eptir andlát Eiríks konúngs andaðist Heinrekr keisari í Saxlandi, var síðan keisari Heinrekr son hans; en er Knútr spurði þat, at Heinrekr, móðurbróðir hans, var andaðr, en Heinrekr son hans keisari orðinn, þá fýstist hann at finna frænda sinn, keisarann, ok fór hann með virðuligu föruneyti; ok er keisarinn spurði til frænda síns, þá lèt hann búa virðuliga veizlu á móti honum, ok fagnaði honum með blíðu, er þeir fundust. Dvaldist Knútr með keisara um hríð í hinum mestum kærleikum ok prís.

*Frá Knúti lavarð.*

85. Þat var eitt sinn, er þeir töluðu Heinrekr keisari ok Knútr lávarðr, þá mælti hertoginn til keisara: herra! segir hann, ek hefi veitt yðr heimsókn í minni tilkomu, at sækja at yðr heil ráð fyrir frændsemi sakir, vænti ek hèr sæmdar, sem þèr erut, ok at þèr munit meira meta við mik frændsemi enn viðskipti minna fyrri frænda, en ríki mitt stendr mjök til auðnar, en hugr minn fýsist ad halda sæmdum,

[1]) *vantar í B.*

vilda ek eigi láta þat vald, er faðir minn fèkk mèr í hendr, vildum vèr gjarna þar til hafa heil ráð af yðr, hversu með skal fara [1]. Keisari svarar: ek hefi spurt vinsæld yðra, ok at þèr hafit hvers manns lof, ok er hin mesta nauðsyn, at þèr fáit ríki yðru haldit ok sæmdum; nú er þat siðr vor, segir keisarinn, hèr í Saxlandi ok enn víða annarsstaðar at læsa hafnir fyrir landinu, ok taka þar toll af, ok láta aunga ná at leggja skipum sínum í höfnina, nema leigu leggi eptir; nú kann vera at þetta þikir hart, þar er menn eru óvanir þessu, en svå mikinn framgáng hefir yður sæmd áðr fengit, at mik væntir at hún mun ekki við þetta minkast; því-at þat er ríkra manna siðr víða í löndum, at læsa hafnir fyrir landi sínu, ok taka menn þar stórfè eptir, en þat er þó gæzla mikil ríkinu við ófriði; þarmeð skal ek fá þèr nökkut í fjármunum, svå at þú megir halda sóma þínum fyrir þessa sök. Hertoginn þakkaði keisaranum fyrir sín tillög, ok kallaði vel tilfallit í sínu landi, at læsa hafnir, ok kallaði svå háttat landinu, at þat væri auðvelt víða. Síðan fór hertoginn heim í ríki sitt með stórmannligum fègjöfum ok mörgum sæmiligum hlutum, er hann hafði þegit af keisara.

*Læstar hafnir.*

86. Þá var mjök herskátt í Danmörk af

[1]) en fjárabli minn gjörist nú ekki mikill, *b. v. M.*

heiðnum mönnum [1]), þeim er laungum lágu í hernaði á sumrum, ok rændu kaupmenn eða landsmenn. Ok er Knútr lávarðr hafði eigi lánga stund heima verit í ríki sínu, þá lèt hann gjöra kástala á tveim megin Slesvíkur, þar sem mjóst var yfir sundit, er utan gengr at Heiðabý; síðan lèt hann gjöra yfir sundit járnrekendr, en sumt af viðum, svá at læsa mátti sundit, settu síðan menn í kastalann at gæta [2]), ok láta þau ein skip þar inn leggja, [er þeir tæki fè af hverju skipi [3]). [Hertoginn sat laungum í Heiðabý, var hann nú hirðr fyrir öllum ófriði; styrktist hann nú mjök að [4]) peníngum, en hèlt þó öllum vinsældum, eptir því sem keisarinn hafði getit til [5]).

*Frá Víðgauti.*

87. Víðgautr [6]) hèt maðr, hann var ættaðr af Sámlandi, hann var maðr heiðinn, hann var kaupmaðr, ok var stórauðigr ok vel mentr um marga hluti, hann sigldi jafnan kaupferðir í Austrveg. Þat var eitt sumar, er hann sigldi austan at Kúrlandi [7]), þá lágu Kúrir þar fyrir honum á herskipum, ok lögðu þegar at honum, ok vildu drepa hann [8]); en með því at hann

---

1) ok öðrum austrvegs mönnum, *b. v. M.* 2) hans, *b. v. S. V.* 3) er þeim likaði, ok höfðu þó toll af hverju skipi, er þar lagði inn, *M.* 4) öllum, *b. v. V.* 5) *frá* [ *v. í M.* 6) Þjóðgautr smálendski, *á spazíunni í M.* 7) Kyrlandi, *B; v. í M.* ok ætlaði þá heim at halda, at hann varð síðbúinn, ok hann kom austan at Kúrlandi, *b. v. M.* 8) ok taka fè hans til sín, *b. v. M.*

var einskipa [1]), þá sá hann sik aunga viðtöku mega hafa, ok setr upp segl, ok ætlar at sigla heim til Sámlands [2]). Kúrir sigldu þegar eptir; [ok komast í millum Sámlands ok hans [3]); sèr hann at hann hefir 2 kosti fyrir höndum: at hætta á fund þeirra, hver yrði, eða sigla á haf undan, ok snúa til kristinna landa, ok þótti honum hvorgi góðr. Tók hann þó þat til ráðs, at sigla á haf ok austan til Danmerkr; hann hafði haft spurn af Knúti lávarði, ok þat með at allir hlytu gott af honum, er á hans fund kæmi; vænti hann sèr þar sóma, er margir fengu aðrir; rèð hann þá þat af, at sigla til Heiðabæjar, sigldi hann þá at sundinu, því er læst var, þá kallar hann á varðmennina, þá er í kastalanum voru, sagðist hann vildu leggja inn í höfnina [4]). Varðmaðrinn spur, hverr hann væri. Hann svarar: ek heiti Víðgautr. Varðmaðrinn svarar: ekki býðr Knútr lávarðr, at vèr lúkum upp hafnir fyrir mönnum, er vèr vitum eigi skyn á. Víðgautr svarar: láttu upp höfnina, góðr maðr! þvíat ek vil Knút finna, skal ek ok fyrir þik svara, ef hertogi vill þik nokkut um þetta kunna. Varðmaðrinn mælti: vel er tilmælt, segir hann. Luku þeir þá upp sundinu, ok lagði Víðgautr inn skipi sínu, ok fór síðan

---

1) en þeir Kúrir höfðu lið mikit, *b. v. M.* 2) Smálands, *leiðrètt til* Sámlands, *i V.* 3) ok bægðu honum þegar frá landinu, ok vildu gjarna hafa líf hans ok fè, *M.* 4) sundin, *M.*

á fund hertoga. Knútr spurði: hverir þeir væri. Víðgautr sagði, at þeir væri af Sámlandi. Knútr svarar: heyrt hefi ek þín getit, ok er mèr sagt, at þú munir vera heiðinn maðr. Víðgautr svarar: víst erum vèr heiðnir menn. Hertogi mælti: tveir eru kostir til, at þèr takit við kristni, ok látið skírast, skuluð þèr vera hèr þá allir velkomnir, eða hætta til ella, hvat fyrir liggr. Víðgautr svarar: mun eigi einsætt, herra! at kjósa hinn betra sèr til handa, ef þess er kostr; vil ek gjarna taka við trú, ok þiggja síðan sóma af yðr. Síðan voru þeir skírðir, ok voru með Knúti lávarði um vetrinn í góðu yfirlæti. Víðgautr var laungum á tali við hertoga, kunni hann frá mörgu at segja, þvíat hann var vitr maðr, ok hafði víða farit. Hertogi spurði hann margs úr Austrvegi, ok kunni hann þaðan mart at segja [1]).

*Kvánfáng Knúts lávarðar.*

88. Haraldr var konúngr austr í Hólmgarði, son Valdimars konúngs Jarislafssonar [2]), Valdimarssonar [3]). Móðir Haralds var Gyða, dóttir Haralds Englakonúngs, Guðinasonar. Haraldr átti Kristínu, dóttur Ínga Svíakonúngs, Steinkelssonar, systur Margrètar drottníngar, er þá átti Nikolás Danakonúngr. Dætr Haralds ok Kristínar voru þær Málmfríðr, er átti Sigurðr konúngr jórsalafari, ok Íngibjörg [4]). En er

---

[1]) þat er hann vildi forvitnast, *b. v. M.* [2]) Jarizleifssonar, *M.* [3]) fóstra Olafs konúngs Tryggvasonar *b. v. M.* [4]) Engilborg, *M. K. alstaðdr.*

Víðgautr hafði verit einn vetr með Knúti lávarði í miklum kærleikum, þá beiddi hertogi at hann mundi fara sendiför hans austr til Hólmgarðs, ok biðja Íngibjargar, dóttur Haralds konúngs, til handa honum. Víðgautr svarar: herra! segir hann, einn hlutr er sá, er [1]) ek em tilfær yðvart erindi at flytja, at fè skortir mik eigi, en þó at ek sè fyrir margra hluta sakir vanfær til yðvart erindi at flytja, þá verð ek þó skyldr til at gjöra yðvarn vilja um allt, þat sem þèr vilit mik til nýta. Hertogi þakkar honum, ok lèzt því þetta mál við hann talat hafa, at honum þætti hann bezt tilfallinn, þeirra manna er í hans valdi voru, bæði fyrir (sakir) [vits ok framkvæmdar [2]). Síðan var búin ferð hans, ok áðr enn Víðgautr færi á burt, mælti hann til hertoga: herra! segir hann, þèr hafit gjört til vor í vetr með miklum sóma, ok veitt oss stórmannliga, en launin munu vera minni af minni hendi enn vert væri; þèr skulið þiggja af mèr 40 serkja grárra skinna, en 5 timbr eru í serk hverjum, enn 40 [3]) skinna í timbr. Hertogi þakkaði honum gjöfina, ok kvaðst eigi betri gjöf þegit hafa. Víðgautr siglir nú í burt með sínu föruneyti, ok lètti eigi fyrr enn hann kemr austr í Hólmgarð á fund Haralds konúngs; heimti hann sik fram með fègjöfum við konúnginn. Konúngrinn tók honum vel, þvíat Víðgautr var frægr maðr ok djarfr í

[1]) at, *S.* [2]) viturleiks ok snildar; lèzt honum bezt treystast at flytja þetta mál, *M.* [3]) 50, *V.*

máli, ok kunni margar túngur [1]); hann bar fram erindi sín við konúnginn, ok flutti kænliga, ok sagði svâ frá Knúti lávarði, at allir mundu frá honum einnveg [2]) segja, at engi er hans jafníngi í Danmörk ok miklu víðara: ætt hans er yðr öllum kunnig [3]), ok er yðr öllum sómi í þessu. Konúngr svarar: mikit fulltíng veitir þú honum í orðum þínum, ok mân hèr skjótt lykt falla á þetta mál, ef vèr höfum þín ráð hèr um. Já, herra! segir hann, í aungvan stað mun yðr reynast óframar, enn ek hefi frá sagt [4]), þvíat þat er almæli, at Knútr lávarðr er fyrirmaðr allra þeirra manna, er nú vaxa upp í Danmörk eða á Norðrlöndum. Konúngr svarar: með því at vèr vitum þik sannorðan, ok þú ert oss at góðu einu kunnr, höfum vèr ok áðr heyrt nokkut getit Knúts lávarðs, þá skulum vèr máli þessu vel svara, en ríki þikir oss hann lítit hafa til forræðis, þótt hann hafi einn hertogadóm í Danmörk. Víðgautr svarar: þát hefir hann þarámót, er miklu er frægra. Hvat er þat? segir konúngr. Viðgautr svarar: mannkosti skal hann hafa umfram flesta menn aðra, ok er þat meira vert enn mikit fè eða ríki. Síðan átti konúngr tal við dóttur [5]) sína ok við annat ráðuneyti sitt, ok tjáði þetta mál fyrir þeim, en allir fýstu þessa ráðs, ok svâ kom með samþykki

[1]) ok þurfti ekki túlk fyrir sèr, *b. v. M.* [2]) eiit, *S.* [3]) sogir hann, *b. v. S. V.* [4]) þat er hann tekr heuda, *b. v. M.* [5]) vini, *S. V.*

Íngibjargar, at hún skyldi giptast Knúti lávarði, ok fór Viðgautr með þessum erindum til Danmerkr, ok fann Knút hertoga, ok sagði frá sínum erindum. Knútr hertogi þakkaði honum sitt starf; efnaði hertogi til brúðlaups síns, en Haraldr konúngr sendi Íngibjörgu dóttur sína austan úr Hólmgarði at nefndri stundu með fríðu föruneyti; en er hún kom til Danmerkr, tók hertogi vel við henni ok þarmeð öll alþýða; síðan gjörði hann brúðlaup sitt til hennar með miklum fagnaði [1]) ok sóma. Þau áttu nokkur börn, þau er enn munu síðar nefnd vera.

*Frá Magnúsi Nikulássyni.*

89. Magnús Nikulásson óx upp í hirð föður síns, ok var hann allra manna mestr í allri Danmörk, ok vel vinsæll, en þó var Knútr lávarðr allra vinsælastr ok bezt þokkaðr af alþýðu, þóat þeir Nikulás konúngr ok Magnús son hans hefði ríki meira; ok þat sama olli [2]) því, er nokkur fæð var í milli þeirra, at þeim feðgum óx öfund á vinsældum hans, ok þótti þeim hans vinir hölzti margir. Magnús Nikulásson fèkk Rikizu [3]), dóttur Búrizlafs Vindakonúngs. Þeirra synir voru þeir Knútr ok Nikulás. Magnús hafði jafnan með sèr mikla sveit manna; var hann löngum innan hirðar með Nikulási konúngi feðr sínum, en stundum var í sínum stað hvârr

---

1) *hèr sleppir skinnbókin B. þat fylgjandi tekit af K. M*
2) voldi, *K.* 3) Riknu; *C.*

þeirra; hann var sterkr maðr ok bráðgjörr í öllu; hann var kallaðr Magnús sterki.

*Frá Knúti lávarð.*

90. Knútr lávarðr bjó ferð sína úr landi í annat sinn, ok fór enn á fund Heinreks keisara, frænda síns; ok er keisarinn spurði til ferða hans, þá lèt hann búa fyrir honum veizlu virðuliga, ok fagnaði honum vel. Keisarinn mælti eitt sinn til hertugans: gleðr mik þat, frændi! sagði hann, er allir syngja yðr eitt lof, þvíat þik lofa allir, þeir er nokkut skynja, ok þíns nafns heyra getit, svå at engi maðr er jafn vinsæll sem þú. Hertuginn svarar: gæfu beru vèr til þess, herra! sagði hann, en [1]) þèr hafið oss upphafit með yðrum styrk ok ráðum. Þá lèt hertuginn frambera grávöruna, þá er Víðgautr hafði gefit honum, ok mælti til keisarans: þenna varníng vil ek at þèr þiggið af mèr, herra! þó at smærri minníngar [2]) sè gjörvar enn vera ætti. Keisarinn sá þessa gjöf, ok þakkaði honum, ok mælti: þegit hefi ek stærri [3]) gjafir, sagði hann, en fár þær, at mèr hafi betri þótt. Hertuginn dvaldist með keisaranum um hríð í góðu yfirlæti ok miklum kærleikum; ok er hertuginn bjóst til heimferðar, þá gaf keisarinn honum margar gjörsimar, ok sagði at hann skyldi eigi fè skorta, meðan þeir lifa báðir: en þær gjafir, er þèr færðut mèr, skal ek launa einar saman [4]); þèr

[1]) *C.* er, *K. M.* [2]) virðíngar, *C.* [3]) stórar, *K.*
[4]) þèr einn samann, *F.*

skuluð þiggja af mèr klæði, er eigi er víst at önnur sè slík í [yðru landi [1]) eða víðara, ok þess vænti ek, ef þèr egið klæðin, at þar fylgi hamíngja yður ok gipta ríkis yðar eptir; vil ek þess biðja yðr, frændi! segir hann, at þú lógir eigi klæðunum, en um þat em ek hræddr, ef þèr lógið, at þá sè skömm unaðsbót at yðvarri sæmd. Þetta voru tignarklæði keisarans, ok voru þau öll gullsaumuð ok enar mestu gjörsimar. Hertuginn þakkaði honum gjafirnar ok allan þann sóma, er hann hafði til hans gjörvan. Síðan fór hertuginn heim í ríki sitt, ok þótti jafnan enn mesti ágætismaðr. Litlu síðarr andaðist keisarinn, ok segja menn, at sú náttúra fylgði tignarklæðunum, þeim er keisarinn gaf Knúti lávarði, frænda sínum, at flestir yrði skamlífir þaðan frá, er klæðunum hefði lógat. Síðan tók keisaradóm Ljóðgeirr, saxneskr hertogi, hann var síðan kallaðr Lótaríus.

### *Frá Knúti lávarð.*

91. Knútr lávarðr var svâ vinsæll, sem fyrr var sagt, at allir enir beztu menn í Danmörk voru hans vinir, eigi minni enn Nikoláss konúngs eða Magnúss sonar hans; en þat var, sem fyrr var sagt, at þeir feðgar kunnu því svâ illa fyrir öfundar sakir, at fyrir þat sama lögðu þeir óþekt [2]) til hertugans ok margra hans vina; ok er Knútr lávarðr fann þetta, leitaði hann sèr ráðs ok þóttist vandliga saklaus við þá feðga. Þat

[1]) Danmörk, C. [2]) fæð ok úlfbúð, C.

var eitt sinn at þeir Nikulás konúngr ok Magnús son hans voru suðr á Jótlandi, at Knútr lávarðr fór á fund þeirra með nokkura menn; ok er þeir fundust, fögnuðu þeir vel hertuganum. Knútr mælti þá: þat er örendi mitt híngat, at ek vil bjóða ykkr feðgum til veizlu: vilda ek at vèr ættim marga góða hluti saman, sem oss sómir fyrir frændsemi sakir, ok látum eigi rógsmenn spilla frændsemi vârri fyrir öngva tilgjörnínga. Þeir svöruðu ok sögðust þat gjarna vilja, ok sögðu önga hluti í milli þeirra vera, þá er eigi mætti þeirra frændsimi vel fara. Síðan reið Knútr lávarðr heim til Heiðabæjar, ok lèt þar búa veizlu í móti Nikulási konúngi ok Magnúsi syni hans; en þeir komu til veizlunnar at ákveðinni stundu, ok var þar ágæt veizla; ok er sá dagr kom, er þeir skyldu í brott ríða, þá þakkaði hertuginn Nikulási konúngi þann sóma, er þeir höfðu honum gjörvan í þángatkvâmu sinni, ok gaf konúnginum marga ágæta gripi. Síðan gekk hann til Magnúss, ok mælti: Magnús frændi! sagði hann, hèr ero klæði þau, er Heinrekr keisari, frændi minn, gaf mèr, en nú vil ek gefa yðr klæðin til vináttu ok heillar frændsimi; ok vil ek því gefa þèr ena beztu gripi, er ek á til, at þèr samir vel at bera, enda ann ek þèr vel at njóta, þvíat þú munt mèr þat góðu launa. Magnús fór þegar í klæðin, ok mæltu allir, er hann sá, at eigi mundi finnast honum vænni maðr eða tíguligri, ok sögðu, sem satt var, at þar

var stórsæmda fyrir vert. Nikulás konúngr ok Magnús son hans þökkuðu hertuganum þá hluti, er hann hafði sæmiliga til þeirra gjört í heimboði ok í stórmannligum gjöfum; ok áðr enn þeir skildu, buðu þeir honum til sín um vetrinn til jólaveizlu; hann tók því þakksamliga. Skildu þeir frændr þá með enum mesta kærleik.

*Fall Knúts.*

92. Þenna [1]) vetr skyldi Nikulás konúngr taka jólaveizlu á Hríngstöðum norðr í Sjólandi, ok til þessar veizlu kom Knútr lávarðr, eptir því sem ætlat var, við nokkura menn, ok var hann með Nikulási konúngi um jólin, ok var þar ágætlig veizla, ok voru þar miklir kærleikar með þeim Nikulási konúngi ok Magnúsi syni hans ok Knúti lávarð frænda þeirra. En er sá dagr kom, er veizluna skyldi eyða, þá segir hertuginn, at hann vill þá búast til ferðar; þenna dag var veizlan allra áköfust, ok voru menn hertugans mjök druknir. Þá mælti Magnús til hertugans: herra! sagði hann, þó at yðr verði smærri gjafir veittar enn vert væri, þá vil ek þó minnast yðar: ek vil gefa yðr riddara 40 með öllum búnaði sínum, (en þat er sagt, at einn riddara kostar 8 merkr gulls sinn búnað). Hertuginn þakkar Magnúsi gjöfina, ok segir at þessi gjöf var bæði góð ok stórmannlig. Nú leið á daginn, ok kom eigi riddaraliðit, þat er Magnús skyldi gefa hertuganum, þvíat eigi var

[1]) Annan, S. V.

mestu verskuldat [1]), því [at síðan bræðr frèttu dagstætt andlát erkibiskups, tók af þeim allan efa, at hans önd hafi þá krafit bænafulltíngs [2]). En nú er þar nærst at víkja með fljótu máli til þess efnis, hver ótti var um ríkit af þessum hlut. Þat gjörist lítlu síðar, at einn illvirki var gripinn af valdsmanni, járnaðr ok í dýflizu settr; hann var svå [baldinn ok gráligr í [3]) sinni illsku, at hann varði með lygðum ok meinsærum allar sínar [4]) sakir; ok svå sem hann sat í járnum dag ok nátt, hafði hann heyrt fagnaðarlaus hvað framfór í millum erkibiskups ok bóndans; því smíðar hann sèr ráð, ok fær komit þeirri flugu í munn eins skiptíngs, at bera stefnu hans þeim herramanni, sem hann hafði fángat, en [5]) sú stefnan var á nokkut líkan hátt ok en fyrri, utan þat bar í meðal [sem vån var [6]), at sjá stefnir til ens neðra höfðíngjans, er öngum dæmir gott. Fór hèr svå at, með miklum klókskap þessa óvinar [7]), at rèttarmaðr [8]) treystist eigi fram at halda við hann lögligri kvöl, ok lèt hlaupa [undan ribbalda [9]), hvert er honum líkaði. Af fyrra efni gefr vel at skilja, hversu formanni [10]) kyrkjunnar [er þat

---

[1]) verðskuldan í, *B.* [2]) þó bræðr væru honum um gott skyldugir, stoðaði honum ekki framliðnum kraptr þeirra bæna, því úr helvíti er engin endrlausn, *B.* [3]) *lagfært fyrir* griottligr í *A.* vondr ok óguðligr af, *B.* [4]) illsku *b.* *v.* *B.* [5]) þvíat, *B.* [6]) *v.* *í.* *B.* [7]) illmennis, *B.* [8]) valdsmaðrinn, *B.* [9]) lausan, *B.* [10]) formenn, *B.*

geymanda, at auðga [1]) hvorki sik nè sína kyrkju með rángfengnum fjárhlut, þvíat reynd er ráðvendni drottins þar um, at eigí vill hann þat þiggja, sem [eigi er lögliga [2]) aflat. Amen.

---

[1]) eru gjarnir at auðga sik af kyrkjunnar eignum, ok mega þeir taka sèr þetta æfintýr til viðvörunar at eigna, *B.* [2]) með röngu er, *B.*

# Registr

yfir

öll manna ok þjóða nöfn, sem finnast í þessu bindi.

---

# Registr

yfir

öll landa, staða ok fljóta nöfn, sem finnast í þessu bindi [1].



[1]) Úr registrinu er viljandi slept *Danmörk*, *Noreg* ok *Svíþjóð*, vegna þess þau nöfn koma svá opt fyrir í sögunni, að mikils til of lángt yrði upp að telja.

## *Prentvillur:*

*Bls.* 28 *L.* 16 *les:* **Danmörk eða ella.**

— 29 — 3 — **nakkvars.**

— 43 — 19 *fyrir* **þorvor** *les:* **þorvör**

— 68 — 5 *les:* **erfisgerðin.**

— 185 — 5 — **runi.**

— 396 — 17 *fyrir* **Firikr** *les:* **Eiríkr.**

# FORNMANNA SÖGUR.

## EPTIR GÖMLUM HANDRITUM

ÚTGEFNAR

AÐ TILHLUTUN HINS

KONÚNGLIGA

NORRÆNA FORNFRÆÐA FÈLAGS.

Urðar orði
kveðr engi maðr.
*Fjölsvinnsmál.*

## TÓLFTA BINDI.

Ríkisár Noregs og Dana-konúnga; áratal markverðustu viðburða; vísur færðar til rètts máls; registr yfir staðanöfn, hluti og efni og yfir sjaldgæf orð.

Kaupmannahöfn, 1837.

*Prentaðar í S. L. Möllers prentsmiðju.*

# FORMÁLI.

Að lokinni útgáfu vorri af þessum Norðrlandanna Fornmanna Sögum höfum vèr álitið nauðsynlegt að láta hið tólfta bindi fylgja þeim undanförnu, til nauðsynlegrar útskíríngar og leiðarvísis námfúsum lesurum, og hefir það þannig þessa aukaritlínga og registr að innihalda:

1. *a*) Ríkisár Noregs-konúnga frá Haraldi hárfagra til Magnúsar lagabætis og
   *b*) Danakonúnga frá Gormi gamla til Eiríks Kristóferssonar.
   *c*) Áratal markverðustu viðburða á Norðrlöndum frá 851 til 1273. Allt samið af fornritadeildarinnar meðlim Aðjúnktus Sveinbirni Egilssyni.
2. Vísur í öllum þessum sögum, færðar til rètts máls, af sama höfundi.
3. Registr yfir landa-, staða-, þjóða- og fljóta nöfn í sömu sögum, í öndverðu samantekið, og að nokkru leiti lagað eptir deildarinnar meðlims Registrator N. M. Petersens á Dönsku samda frumriti sama efnis í Oldnordiske Sagaer 12ta Bindi, af Hra. Stepháni Eiríkssyni, sem, því miðr, áðr enn hann hafði því fullkomlega lokið, lagðist af þúngum sjúkdómi, var lengi rúmfastr og andaðist á næstliðnu vori. Var það síðan, til prentunar, hreinskrifað af tveimr höfundsins hèr stúderandi landsmönnum og loksins gegnumsèð af Prófessor Finni Magnússyni.
4. Annað registr yfir hluti og efni, — og loks
5. hið þriðja yfir sjaldgæf orð eðr orðstiltæki í sjálfum sögunum, bæði samin af Aðjúnktus Sveinbirni Egilssyni.

Lector við háskólann í Christíaníu Herra P. A. Munch, sem mjög hefir stundað Noregs sagnafræði og líka í nokkr ár með mikilli kostgæfni yðkað gegnumlestr gamallra norrænnra lögbóka og skinnbrèfa, hefir, eptir bón vorri, látið oss fá nokkrar athugasemdir viðvíkjandi þeim af oss við útgáfu 8da, 9da og 10da bindinis brúkuðu skinnbókum, og mannanafna registrinu yfir þau öll. Útlagðar á Íslendsku fylgja þær nærveranda bindi.

Þeim námgjörnu Íslendíngum er með athygli lesa þennan, Noregi, Danmörk og Svíaríki mest viðvíkjandi, söguflokk, verðr það því auðveldara að ná svo fullkominni þekkíng sem orðið getr um nám og ástand sinnar egin fóstrjarðar á fyrri öldum, sem að miklu leiti orsökuðust eðr smámsaman löguðust af þeim helztu viðburðum er skeðu í meginlandsins nálægu ríkjum. Þannig var ofríki Haralds hárfagra í Noregi aðalorsök til Íslands byggíngar, en uppreist og sigrvinníngar Birkibeina í konúngsríkinu leiddu loks til landsins undirokunar af Hákoni gamla; án herfara Þýzkalands keisara til Danmerkur, og inntöku Englands af Danakonúngum, mundi kristnin vart svo snemma hafa fest fót í Noregi eðr Íslandi. Þannig ryðr útlend sagnafræði ljósastan veg til hinnar innlendu, — og nú virðist þessvegna Fèlagi voru tækr tími kominn til að láta sjálfar Íslendinga Sögur, þessum næst, á prent útgánga, að loknum þeim undirbúníngi til þess starfs er mjög mikils ómaks og aðgætnis krefr. Vèr vonum staðfastlega að þessi og önnur vor viðleitni virðist af góðfúsum lesendum á hægra veg, og óskum loksins Íslandi af öllu hjarta þess heiðrs og heilla er það að fornu og nýu verðskuldað hefir.

Kaupmannahöfn, þann 29da Sept. 1837.

# RÍKISÁR NOREGSKONÚNGA
## FRÁ HARALDI HÁRFAGRA TIL MAGNÚSAR LAGABÆTIS.

| | | | | |
|---|---|---|---|---|
| Haraldr hárfagri | - ríkti | 70[1] | ár, hóf að ríkja | 861. |
| Eiríkr blóðöx | - - - - | 4[2] | - - - - - - | 931. |
| Hákon Aðalsteinsfóstri | - | 26 | - - - - - - | 935. |
| Haraldr gráfeldr | - - - | 15[3] | - - - - - - | 961. |
| Hákon jarl Sigurðarson | - | 19[4] | - - - - - - | 976. |
| Ólafr Tryggvason | - - - | 5 | - - - - - - | 995. |
| Eiríkr jarl Hákonarson | - | 12 | - - - - - - | 1000. |
| Sveinn Hákonarson | - - | 3 | - - - - - - | 1012. |
| Ólafr helgi Haraldsson | - | 15 | - - - - - - | 1015. |
| Sveinn Alfífuson | - - - | 5 | - - - - - - | 1030. |
| Magnús góði Ólafsson | - - | 12 | - - - - - - | 1035. |
| Haraldr Sigurðarson | - - | 19 | - - - - - - | 1047. |
| Ólafr kyrri Haraldsson | - | 27 | - - - - - - | 1066. |
| Magnús berfætti | - - - | 10 | - - - - - - | 1093. |
| Sigurðr jórsalafari | - - - | 27 | - - - - - - | 1103. |
| Haraldr gilli | - - - - | 6 | - - - - - - | 1130. |
| Íngi Haraldsson | - - - | 25 | - - - - - - | 1136. |
| Hákon herðabreiðr | - - | 1 | - - - - - - | 1161. |
| Magnús Erlíngsson | - - | 22[5] | - - - - - - | 1162. |
| Sverrir | - - - - - - - | 18 | - - - - - - | 1184. |
| Hákon Sverrisson | - - - | 1 | - - - - - - | 1202. |
| Guttormr Sigurðarson | - | ½ | - - - - - - | 1203. |

1) *Noregs konúngatal* (10. B.), 73, nl. til dauða Haralds. 2) *Nkt.*, 5, nl. frá því Haraldr lèt af landstjórn, og til þess Eiríkr stökk úr landi 936. 3) *Nkt.*, 9, og telr þá ei Haraldi þá 6 seinustu vetr (1. B. bls. 89). 4) *Nkt.*, 33, nl. frá því hann varð jarl. 5) *Nkt.*, 17, nl. til 1179, þá Erlíngr fèll, og Magnús hèlst ei framar við í Niðarósi.

| | | | |
|---|---|---|---|
| Íngi Bárðarson - - | ríkti 13½ ár, | hóf að ríkja | 1203½. |
| Hákon gamli Hákonarson - | 46 | - - - - - - | 1217. |
| Magnús lagabætir - - - | 17 | - - - - - - | 1263. |

# RÍKISÁR DANAKONÚNGA

## FRÁ GORMI GAMLA TIL EIRÍKS KRISTÓFERSSONAR.

| | | | |
|---|---|---|---|
| Gormr gamli - - | ríkti 70 ár, | hóf að ríkja | 842. |
| Haraldr Gormsson - - - | 80 | - - - - - - | 912. |
| Sveinn tjúguskegg - - - | 16 | - - - - - - | 992. |
| Knútr ríki - - - - - - | 27 | - - - - - - | 1008. |
| Hörðaknútr - - - - - - | 7 | - - - - - - | 1035. |
| Magnús góði, Nor. kon., - | 5 | - - - - - - | 1042. |
| Sveinn Úlfsson - - - - | 29 | - - - - - - | 1047. |
| Haraldr hein Sveinsson - | 4 | - - - - - - | 1076. |
| Knútr helgi Sveinsson - | 6 | - - - - - - | 1080. |
| Ólafr húngr Sveinsson - | 8 (9) | - - - - - | 1086. |
| Eiríkr góði Sveinsson - - | 8 | - - - - - - | 1095. |
| Nikulás Sveinsson - - - | 30 (31) | - - - - - | 1103. |
| Eiríkr eymuni Eiríksson | 4 | - - - - - - | 1134. |
| Eiríkr spaki Hákonarson | 8 | - - - - - - | 1138. |
| Sveinn svíðandi Eiríksson eymuna - - - - - ; Knútr Magnússon sterka Nikulássonar - - - | 12 | - - - - - - | 1146. |
| Valdimar Knútsson lávarðar | 26 | - - - - - - | 1158. |
| Knútr Valdimarsson - - | 18 | - - - - - - | 1184. |
| Valdimar gamli Valdimarsson | 39 | - - - - - - | 1202. |
| Eiríkr (helgi) Valdimarsson | 9 | - - - - - - | 1241. |
| Abel Valdimarsson - - - | 2 | - - - - - - | 1250. |
| Kristófer Valdimarsson - | 7 | - - - - - - | 1252. |
| Eiríkr Kristófersson - - | 27 | - - - - - - | 1259. |

# ÁRATAL.

851 fæddr Haraldr hárfagri.
872. Hafursfjarðar orusta, 1, 239.
874. Íngólfr Arnarson fór að byggja Ísland, 1, 239. 276.
911 gaf Haraldr hárfagri konúnganöfn sonum sínum, 1, 5.
920 fæddr Hákon góði, 1, 14.
925 tók konúngdóm Aðalsteinn Englakonúngr, 1, 15.
926. Hákon góði sendr Aðalsteini til fóstrs, 1, 15-16.
931 lèt Haraldr hárfagri af ríkisstjórn, 1, 17-18.
933 dó Hálfdán svarti Haraldsson, 1, 18.
934 dó Haraldr hárfagri.
935. Eiríkr blóðöx felldi bræðr sína. Hákon Aðalsteinsfóstri tekinn til konúngs 15 vetra gamall, 1, 20-21.
936. Eiríkr blóðöx stökk úr landi.
937 fæddr Hákon jarl Sigurðarson, 1, 31. 219.
940 dó Aðalsteinn Englakonúngr, 1, 23.
955. Hákon góði barðist við Eiríkssyni á Rastarkálfi, 1, 39-40.
961. Bardagi í Storð: dó Hákon góði. Haraldr gráfeldr tók ríki.
963. Sigurðr Hlaðajarl brendr inni af Haraldi gráfeld. Deilur með Hákoni jarli og Gunnhildarsonum 3 ár.
966. Sætt Hákonar Hlaðajarls og Gunnhildarsona: Hákon sitr um kyrt 3 vetr.
967 fæddr Sigmundr Brestisson, 2, 92. 97.
968. Samband Hákonar jarls við konúngana Tryggva Ólafsson og Guðröð Bjarnarson, 1, 58.

969. Fall Tryggva Ólafssonar og Guðröðar Bjarnarsonar: Haraldr grænski flýr til Upplanda, og er þar 2 vetr, til 971. Fæddr Ólafr Tryggvason, 1, 67. Ófriðr milli Hákonar jarls og Gunnhildarsona í 6 ár til 975, 1, 89.
970. Ólafr Tryggvason fer til Svíþjóðar, og er þar 2 vetr til 972.
971. Haraldr grænski fór til Svíþjóðar, og var þar 5 vetr, 1, 61.
972. Ólafr Tryggvason hertekinn, er 6 vetr á Eistlandi, 1, 78.
975. Haraldr gráfeldr rak Hákon jarl úr landi, 1, 64. Vèlræði Hákonar jarls í Danmörk, 1, 82.
976. Fall Haraldar gráfelds og Gullharalds, 1, 87-88. Hákon jarl og Haraldr grænski taka Noreg í lèn af Haraldi Gormssyni, 1, 89-90. Dráp Brestis og Beinis í Færeyum, 2, 97.
977. Sigmundr Brestisson kom til Víkurinnar, og var þar 2 vetr.
978. Orusta Hákonar jarls við Ragnfreð Gunnhildarson, 1, 95. Ólafr Tryggvason kom til Garða, og var þar 9 vetr, 1, 81.
979. Sigmundr Brestisson kemr til Úlfs, og er hjá honum 6 vetr.
981 kom Friðrekr biskup til Íslands að boða trú, 1, 276.
985. Eiríkr rauði fann Grænland, 2, 215. Sigmundr Brestisson kom til Hákonar jarls, og var með honum 4 vetr, 2, 107.
986 fór Friðrekr biskup og Þorvaldr Koðránsson frá Íslandi.
987. Ólafr Tryggvason fór frá Garðaríki til Vindlands, og fèkk Geiru Burislafsdóttur, og var á Vindlandi 3 ár, 1, 101-103.
988. Ottó keisari og Ólafr Tryggvason unnu Danavirki.

989. Sigmundr Brestisson fór til Færeya, og kúgaði Þránd til sætta.
990 dó Geira Burislafsdóttir: Ólafr Tryggvason fór frá Vindlandi, og var 4 ár í vestrvíking, 1, 145. Hákon jarl sættir þá Sigmund Brestisson og Þránd í Götu.
992. Haraldr Gormsson fèll: Sveinn tjúguskegg tók ríki, 1, 164.
993. Ólafr Tryggvason skírðr í Syllíngum, 1, 148. 164.
994. Sveinn tjúguskegg drakk erfi Haralds föður síns að vetrnóttum: heitstreingíngar Jómsvíkínga að fara herför til Noregs, 1, 164; þeir komu á Jaðar jólanótt, 1, 166.
995. Jómsvíkínga orusta á Hjörúngavógi um miðsvetrarskeið (10, 257). Hákon jarl sendir Þóri klökku til Írlands: Ólafr Tryggvason fer frá Írlandi til Orkneya, og þaðan til Noregs. Uppreist bænda móti Hákoni jarli. Hákon jarl drepinn um vetrinn (ís var á Gaul, 1, 215). Ólafr Tryggvason tekinn til konúngs.
996. Erlíngr Skjálgsson kvongast. Stefnir sendr til Íslands, gerðr útlægr á alþíngi. Kjartan, Bolli og Hallfreðr skírðir. Þrændir kristnaðir.
997 sendr Þángbrandr til Íslands, var þar 2 vetr. Skírðr Sigmundr Brestisson, 2, 123.
998. Sigmundr Brestisson kristnar Færeyar, 2, 125. Kristnað Hríngaríki. Ólafr Haraldsson (helgi) skírðr þrevetr, 2, 129. Ólafr Tryggvason fær Þyri Haraldsdóttur, 2, 131. Þorvaldr tasaldi í Noregi, 2, 144.
999. Þángbrandr kemr frá Íslandi til Noregs. Gissr hvíti og Hjalti Skeggjason fara utan.
1000. Kristni lögtekin á Íslandi. Svoldarorusta, Ólafr Tryggvason hvarf; Eiríkr og Sveinn Hákonarsynir taka ríki í Noregi.

1001. Sigurðr sýr fær Ástu, móður Ólafs helga.
1007. Ólafr helgi, 12 vetra, fer í hernað, herjar í Svíaríki og Gotlandi.
1008. Ólafr helgi herjar í Eysýslu, Finnlandi og Fríslandi; veitir lið Aðalráði Englakonúngi móti Dönum í 3 ár.
1012 dó Aðalráðr konúngr í Englandi. Knútr ríki herjar á England. Eiríkr jarl fer til Englands með her, og setr eptir Hákon son sinn til landgæzlu. Hernaðr Ólafs helga í Hríngsfirði, Gislupollum, Fetlafirði, Seljupollum, Karlsám, Peitu, 2 sumur og einn vetr.
1013 dó Eiríkr jarl Hákonarson.
1014. Ólafr helgi kom til Noregs og handtók Hákon Eiríksson.
1015 fæddr Haraldr Sigurðarson (harðráði). Nesjaorusta: Sveinn jarl Hákonarson flýr til Svíþjóðar, og deyr þar.
1016. Hjalti Skeggjason kemr til Noregs. Sætt Ólafs konúngs og Erlíngs Skjálgssonar. Ólafr konúngr byggir Sarpsborg.
1017. Björn stallari og Hjalti Skeggjason sendir til Svíþjóðar til friðgerðar. Ólafr helgi sigrar 5 konúnga á Upplöndum.
1018. Sigurðr sýr dó. Þorgnýr lögmaðr þreyngir Ólaf Svíakonúng til að gera frið við Noregsmenn á Uppsalaþíngi. Hrærekr konúngr sendr til Íslands. Hjalti Skeggjason fer til Íslands. Sighvatr skáld sendr til Gautlands.
1019. Ólafr konúngr fær Ástríðar, dóttur Ólafs Svíakonúngs. Sættafundr í Konúngahellu. Víg Eyvindar úrarhorns.
1020. Víg Einars jarls í Orkneyum. Hallæri í Þrándheimi.
1021. Ólafr konúngr skiptir ríki í Orkneyum. Dráp Ölvis á Eggju. Skírðr Dala-Guðbrandr.

1022 dó Ólafr Svíakonúngr. Sætt Ólafs helga við Erlíng Skjálgsson og Einar þambaskelfi. Selþórir rænir Ásbjörn Selsbana.

1023. Víg Selþóris. Einar þambaskelfir fer Rómför. Dó Hrærekr konúngr á Kálfskinni.

1024 fæddr Magnús góði. Víg Ásbjarnar selsbana. Þórarinn Nefjólfsson sendr til Íslands. Dó Guðmundr ríki á Möðruvöllum.

1025. Steinn Skaptason, Þóroddr Snorrason, Gellir Þorkelsson, Egill Síðuhallsson koma til Noregs. Sendiménn Knúts ríka koma í Noreg. Ólafr helgi gerir samband við Önund Svíakonúng.

1026. Bjarmalandsferð Karla. Víg Þórálfs úr Dímon. Sighvatr skáld fer kaupferð til Rúðuborgar. Flótti Steins Skaptasonar. Þóroddr Snorrason sendr til Jamtalands, Gellir Þorkelsson til Íslands.

1027. Steinn Skaptason fer til Englands til Knúts ríka. Þórir hundr fer á fund Knúts. Víg Karla mærska. Ólafr helgi og Önundr konúngr herja á Sælandi og Skáney. Íslendíngar neita skattgjöfum við Noregskonúng á alþíngi. Bardagi í Ánni helgu. Víg Úlfs jarls. Gellir kemr til Noregs frá Íslandi. Knútr ríki svíkr höfðíngja undan Ólafi konúngi með fègjöfum.

1028. Rauðúlfs þáttr. Knútr ríki leggr undir sig Noreg. Fall Erlíngs Skjálgssonar. Ólafr helgi flýr til Svíaríkis.

1029. Ólafr helgi fer til Garðaríkis. Sighvatr fer til Róms. Kálfr Árnason býðst til uppreistar móti Ólafi konúngi.

1030. Stiklastaðabardagi: fèll Ólafr helgi. Sveinn Alfífuson tekr ríki.

1033. Sveinn Alfífuson fellir Tryggva Ólafsson við Bókn.

1034. Einar þambaskelfir og Kálfr Árnason fara til

Hólmgarðs eptir Magnúsi góða Ólafssyni. Karl vesæli sendr til Noregs.

1035. Magnús góði tekinn til konúngs í Noregi; Sveinn Alfífuson fer til Danmerkr. Dó Knútr ríki.

1036 dó Sveinn Alfífuson. Fundr í Elfi: friðr settr milli Magnúsar góða og Hörðaknúts.

1040 dó Haraldr Knútsson í Englandi.

1042 dó Hörðaknútr. Játvarðr góði varð konúngr í Englandi. Magnús góði tekinn til konúngs í Danmörk á Vebjargaþíngi.

1043. Sveinn Úlfsson verðr jarl.

1044. Sveinn Úlfsson lætr taka sig til konúngs yfir Danmörk. Magnús góði fer herför til Danmerkur; herjar á Jómi, Re; berst við Vindr á Hlýrskógsheiði; berst við Svein við Erri og Árós. Haraldr Sigurðarson fer frá Miklagarði til Hólmgarðs, og fær Ellisifjar Jarisleifsdóttur.

1045. Magnús rekr Svein af Sjálandi og Fjóni; bardagi við Helganes; hernaðr á Skáney, Falstri og Fjóni. Magnús góði gerir tilkall til Englands við Játvarð góða. Haraldr Sigurðarson fer frá Hólmgarði til Svíþjóðar, hittir Svein Úlfsson í Sigtúnum, og gerir við hann samband.

1046. Sveinn Úlfsson og Haraldr Sigurðarson herja á Sælandi og Fjóni. Haraldr bregðr vináttu við Svein, og gerir fèlagsskap við Magnús góða og geingr til ríkis með honum. Hreiðar heimski kom til Noregs.

1047. Arnór jarlaskáld flytr drápur sínar þeim Magnúsi og Haraldi konúngum. Hernaðr konúnga í Danaveldi. Magnús góði verðr sóttdauðr 25. octóber. Haraldr fær Þóru Þorbergsdóttur.

1048. Haldór Snorrason fer til Íslands. Haraldr Sigurðarson herjar á Jótlandi, brennir bæ Þorkels geysu, berst við Þjólarnes.

1049. Haraldr konúngr herjar um vorið í Danmörk. Haldór Snorrason kemr aptr frá Íslandi.
1050. Stríð Haldórs Snorrasonar við Harald konúng. Sveinn Úlfsson og Haraldr Sigurðarson mæla sèr mót í Elfi.
1051. Haldór Snorrason geingr úr þjónustu Haralds, og siglir til Íslands. Þorleikr fagri kemr frá Íslandi, og yrkir drápu um Svein Úlfsson. Haraldr fer til Elfar, herjar í Danmörk, brennir Heiðabæ, verðr fyrir flota Sveins hjá Hlèsey, og kemst nauðulega undan.
1052. Dráp Einars þambaskelfis.
1053. Finnr Árnason sættir þrændi og Hákon Ívarsson við Harald; Hákon Ívarsson fer til Danmerkur. Kálfr Árnason kemr á land aptr.
1054. Haraldr herjar á Fjóni. Fall Kálfs Árnasonar.
1055. Finnr Árnason fer til Sveins Úlfssonar.
1058. Haraldr eflir kaupstað í Oslu.
1060. Hákon Ívarsson kemr aptr til Noregs, fær Ragnhildar Magnúsdóttur góða, og fær jarlsnafn.
1061. Haraldr konúngr herjar á Jótlandi, verðr kvíaðr inní Limafirði, og dregr skip sín yfir Lúsbreið. Herbúnaðr í Noregi.
1062. Nizarorusta, 10. ágúst; Haraldr vinnr sigr. Auðun vestfirzki finnr Harald í Oslu.
1063. Haraldr veitir aðför Hákoni Ívarssyni; Hákon flýr til Svíþjóðar.
1064. Friðr settr milli Sveins Úlfssonar og Haralds Sigurðarsonar. Haraldr berst við Hákon Ívarsson í Gautlandi og vinnr sigr; víg Halls Koðránsbana.
1065. Haraldr konúngr kúgar bændr á Raumaríki, Heiðmörk og Haðalandi, og herjar á þá 3 missiri.
1066. Haraldr Goðvinsson varð konúngr í Englandi eptir Játvarð góða. Tosti Goðvinsson kemr til

Noregs, og biðr Harald liðveizlu. Dó Úlfr stallari Óspaksson. Haraldr fór herför til Englands með Tosta, þeir falla báðir í bardaga við Stafnfurðubryggju 25. september. Haraldr Goðvinsson fellr í bardaga móti Vilhjálmi bastarð 14 octób.

1067. Ólafr kyrri og Magnús Haraldssynir verða konúngar í Noregi. Endrnýaðr friðr við Danmörk.

1069 dó Magnús konúngr Haraldsson. Fæddr Hákon Magnússon þórisfóstri.

1073 fæddr Magnús berfætti.

1076 dó Sveinn Úlfsson Danakonúngr.

1080 dó Haraldr hein Danakonúngr.

1086 dó Knútr helgi Danakonúngr.

1089 fæddr Eystein Magnússon Noregs konúngr.

1090 fæddr Sigurðr Jórsalafari Noregs konúngr.

1093 dó Ólafr kyrri N. k.; konúngar Magnús berfætti og Hákon Magnússon þórisfóstri.

1095 dó Hákon konúngr Magnússon þórisfóstri. Magnús k. berfætti herjar í Hallandi. Uppreisn Steigar-þóris. Gísl Illugason kemr til Noregs. Dó Ólafr húngr Danakonúngr.

1096. Víg Gjafalds. Sveinki rekinn af eignum sínum í Elfi. Hákon Pálson kemr til Noregs. Ráðin herför til Suðreya.

1097, hernaðr Magnúsar berfætts í Suðreyum.

1098, fæddr Ólafr Magnússon Noregs konúngr.

1099. Ágreiníngr um landamerki Noregs og Svíaríkis: Magnús herjar á Gautland, gerir virki í Kvaddingsey í Væni.

1100 Íngi Steinkelsson vinnr borgina í Kvaddingsey um vetrinn. Magnús konúngr berst við Gauta um vorið hjá Foxerni, og hefir ósigr. Seinna berst hann aptr hjá Foxerni, og fær sigr.

1101. Friðarfundr í Elfi milli Inga Steinkelssonar

Svíakonúngs, Magnúsar berfætts N. k. og Eiríks Sveinssonar D. k. Magnús fær Margrétar, dóttur Inga konúngs.

1102. Skopti Ögmundarson fer úr landi og dó í Rómaborgarlandi. Magnús konúngr fer herför til Írlands.

1103. Fall Magnúsar konúngs berfætts á Írlandi. Synir hans, Sigurðr, Eysteinn, Ólafr, verða konúngar í Noregi.

1105 Hákon Pálsson verðr jarl yfir Orkneyum.

1107, hefst Jórsalaferð Sigurðar konúngs Magnússonar; hann er í Englandi um vetrinn.

1108 Sigurðr konúngr siglir til Vallands, og er í Gallizíulandi um vetrinn.

1109. Orusta Sigurðar við Lissabon, Alkassi, hernaðr í Forminteru, Ivizu og Manork; hann kemr um vorið til Sikileyar, siglir um sumarið til Jórsalalands, og er þar um vetrinn.

1110, Sigurðr jórsalafari vinnr Sætt (Sídon), kemr til Kípurs, Miklagarðs, fer þaðan landveg til Danmerkur, og þaðan til Noregs.

1113, Mannjafnaðr Sigurðar og Eysteins konúnga. Veizla á Mærinni í Þrándheimi: upphaf deilu þeirra Sigurðar konúngs og Sigurðar Hranasonar. Ívar af Fljóðum sendr til Írlands.

1114. Þíng í Kepsisey, Niðarósi, Þrándarnesi. Ívar af Fljóðum kemr frá Írlandi.

1115, Þíng á Frostu, sætt Sigurðar Hranasonar og Sigurðar konúngs. Litlu síðar (22 december) dó Ólafr konúngr Magnússon.

1121, dó Eysteinn Magnússon Noregs konúngr.

1123, Herför Sigurðar jórsalafara til Smálands.

1124, fæddr Jón Loptsson. Stór sólarformyrkvun, 7, 152.

1130, veginn Knútr lávarðr 7. janúar, 11, 311;

fæddr Valdimar Knútsson D. k., 14. janúar. 11, 335. 348. Dó Sigurðr jórsalafari N. k. Magnús Sigurðarson blindi og Haraldr gilli taka ríki.

1134. Bardagi á Fyrirleif: Haraldr gilli flýr til Danmerkur, fær Halland í lèn af Eiríki eymuna, kemr með her til Björgvinar affángadag jóla. Bardagi í Fótvík, fèll Magnús sterki Nikulásson.

1135, Magnús konúngr Sigurðarson verðr kvíaðr í Björgvinarvogi, handtekinn, blindaðr og settr í klaustr í Niðarholmi. Konúngahella ræned af Vindum, 10 ágúst. Fall Haraldar kesju, 11, 344.

1136. Eiríkr eymuni vann Arkún á Vindlandi, 11, 344. Sigurðr slembir drap Harald gilla í Björgvin, 14 decemb. Sigurðr munnr og Íngi Haraldssynir gilla taka ríki í Noregi.

1137. Sigurðr slembir tekr Magnús blinda úr klaustri. Bardagi við Mynni, á Krókaskógi. Herför Eiríks eymuna í Noreg. Sigurðr slembir herjar við Erri, Mön, í Elfi, Konúngahellu, kemst undan við Portyrju, og er um vetrinn í Álaborg.

1138. Dráp Beinteins. Íngi konúngr elti Sigurð slembi norðr á Hálogaland.

1139. Magnús blindi og Sigurðr slembir vinna mörg manndráp í Noregi. Bardagi við Hólminn-grá, 13. nóvember, Magnús blindi fellr, Sigurðr slembir píndr til dauða. Dó Össr erkibiskup í Lundi, Áskell varð erkibiskup, 11, 349.

1142, Eysteinn Haraldsson gilla kom í Noreg, og varð konúngr með bræðrum sínum. Fall Ólafs Haraldssonar kesju, 11, 350.

1147, fæddr Hákon herðabreiðr. Krossför til Jórsala, 11, 351. Bardagi við Þorsteinsþorp: Sveinn svíðandi vann sigr yfir Knúti Magnússyni, 11, 352.

1148. Orusta við Vebjörg, 11, 358.
1151, fæddr Sverrir Noregs konúngr.
1152, Nikulás kardínáli kom í Noreg, 7, 240. Konráðr keisari dó, Fridrekr varð keisari; orusta við Geitsbekk, 11, 354.
1154, sættarstefna á Upplöndum með Eysteini og Sigurði Noregs konúngi.
1155, Sigurðr munnr drepinn af Inga í Björgvin, 10. júní.
1156, Sætt milli Inga konúngs og Eysteins í Seleyum. Fæddr Magnús Erlíngsson Noregs konúngr. Sverrir fer til Færeya.
1157, Ingi og Eysteinn Haraldssynir fundust í Grænlíngasundi, Eysteinn flúði austr í Vík, og var þar drepinn. Sveinn svíðandi D. k. sveik Knút Magnússon, en Valdimar Knútsson komst undan og tók konúngsnafn, 11, 367. Hákon herðabreiðr tekinn til konúngs.
1158, Gregoríus Dagsson fór frægðarför til Konúngahellu, 7, 253. Bardagi á Graðarheiði, fall Sveins svíðanda D. k.; Absalon varð biskup, 11, 371-3.
1159, Ingi konúngr vann sigr yfir Hákoni herðabreið í Elfi.
1160, Bardagar milli manna Inga konúngs í Björgvin; árásir Gregoríuss og Hákonar herðabreiðs, 7, 270-1.
1161, Gregoríus fèll, 3 janúar. Ingi konúngr fèll í Oslu, 3 febr. Magnús Erlíngsson tekinn til konúngs. Erlíngr skakki gerir samband við Valdimar Knútsson D. k., og stökkvir Hákoni herðabreið úr Túnsbergi. Eysteinn erkibiskup vígðr, 7, 299.
1162, Bardagi við Sekk, fèll Hákon herðabreiði. Upplendíngar taka til konúngs Sigurð Sigurðarson munns.

1163. Sigurðr jarl fyrirdæmdr í Túnsbergi. Bardagi á Re, Sigurðr jarl fèll. Sigurðr konúngr og Markús fóstri hans drepinn.
1164. Magnús Erlíngsson vígðr undir kórónu af Eysteini erkibiskupi í Björgvin. Kröfum Valdimars D. k. er neitað á Borgarþíngi.
1165, Ófriðr milli Danmerkur og Noregs. Valdimar D. k. fer herför til Noregs.
1166, hefjast Hettusveinar á Upplöndum og í Vík, og taka Ólaf ógæfu Guðbrandsson til konúngs.
1167. Bardagi á Ryðjökli, Erlíngr kemst naumlega undan: fèll Ari þorgeirsson, faðir Guðmundar biskups góða.
1168. Bardagi á Staungum, Ólafr ógæfa flýr til Danmerkur.
1169. Ólafr ógæfa deyr í Álaborg. Kristín konúngsdóttir, kona Erlíngs skakka, fer á fund Valdimars D. k. að semja um frið milli landa.
1170. Erlíngr semr sætt við Valdimar D. k. í Rauðárósi, og tekr Víkina í lèn af honum og jarlsnafn.
1173, Áskell erkibiskup gekk í klaustr; Absalon biskup varð erkibiskup, 11, 392.
1174, hófust Birkibeinar; Eysteinn meyla, foríngi þeirra, er 2 vetr í Vík.
1176, Eysteinn meyla siglir til þrándheims, og er þar tekinn til konúngs. Sverrir kemr í Noreg, er í Selju, Túnsbergi, Konúngahellu; fer til Gautlands á fund Birgis jarls brosu.
1177. Magnús konúngr Erlíngsson berst við Birkibeina á Re: Eysteinn meyla drepinn á flótta; Birkibeinar tvístrast. Sverrir fer frá Gautlandi í Vermaland, er þar tekinn til fyrirliða af Birkibeinum; fer þaðan til Víkur, og er honum þar gefið konúngsnafn af flokksmönnum; þaðan fer

hann aptr á Vermaland, og þaðan með Eystra Salti gegnum Járnberaland og Jamtaland ofan í Niðarós; er tekinn til konúngs á Eyraþíngi, 8, 15-59.

1178. Sverrir sigrar Magnús Erlíngsson við Hirtubrú, 8, 59-82.

1179. Bardagi í Niðarósi, Erlíngr jarl fellr; Magnús Erlíngsson flýr til Björgvinar, 8, 82-109.

1180. Bardagi á Íluvöllum; Heklúngar flýa, Magnús Erlíngsson fer til Valdimars D. k., og er með honum um vetrinn, 8, 109-122.

1181. Bardagi við Norðnes, Magnús konúngr verðr sár, Heklúngar flýa. Sverrir tekr við frændsemi Eiríks bróður síns. Magnús konúngr tekr skip Sverris í Niðarósi, en brennir sum, meðan Sverrir er í Vík austr, 8, 123-168.

1182. Magnús konúngr hrekr Birkibeina í Niðarósi. Sverrir lætr víggirða bæinn í Niðarósi, 8, 169-180.

1183. Sverrir fer að Magnúsi í Björgvin, rekr hann á flótta, tekr allan skipastól hans og vígsluskrúð allt. Magnús fer til Danmerkur á fund Valdimars D. k. 8, 181-197.

1184. Bardagi í Sogni, Magnús konúngr Erlíngsson fellr, 8, 198-244.

1185. Sverrir fèkk Margretar, dóttur Eiríks Svíakonúngs. Kúflúngar hefjast og haldast til 1188.

1188. Eysteinn erkibiskup andast; Eiríkr biskup, nefndr til erkibiskups, fór til Róms. Jón kuflúngr drepinn af Birkibeinum, 8, 258-265.

1189. Fall Sigurðar brennis. Eiríkr erkibiskup kemr í land. Nikulás Árnason verðr biskup í Oslu, 8, 266-269.

1190. Varbelgir hefjast og falla. Eiríkr jarl Sigurðarson andast, 8, 273-275.

1191. Þorleifr breiðskeggr drepinn. Eiríkr erkibiskup

stökkr úr landi og fer til Absalons erkibiskups, 8, 276-280.

1192. Upphaf Eyarskeggja, 8, 280.

1193. Eyarskeggjar koma í Noreg: Sigurðr Magnússon tekinn til konúngs í Túnsbergí; þeir fara í víkíng til Danmerkur, og eru í Björgvin um vetrinn, 8, 281-284. Dó þorlákr biskup helgi, 8, 297.

1194. Bardagi í Flóruvogum: fèll Sigurðr Magnússon, sigraðir Eyarskeggjar, 8, 284-292. Sverrir vísar burt legáta páfans; lætr vígja sig undir kórónu í Björgvin. Páll Jónsson Loptssonar, kosinn biskup til Skálholts, kemr til Niðaróss, 8, 284-297.

1195. Páll biskup vígðr af Absalon erkibiskupi. Biskupafundr í Björgvin. Sætt Haralds Orkneyíngajarls og Sverris konúngs. Kirialax (Alexius Angelus Comnenus) Grikkjakonúngr sendir Sverri gullbóluskrá. Dó Knútr Svíakonúngr, en Sörkvir Karlsson kom til ríkis. Sendimenn frá Róm urðu bráðdauðir, 8, 297-303.

1196. Nikulás biskup reisti Baglaflokk; Sverrir átti í orustum og ófriði við þá til dauðadags, 8, 303-443.

1202 dó Sverrir konúngr, Knútr Valdimarsson D. k., Byrgir jarl brosa, en Jón Sörkvisson varð konúngr í Svíaríki, 8, 448. Hákon Sverrisson varð konúngr í Noregi. Ingi Baglakonúngr drepinn í Mjörs, 9, 1. 2. 217. Guðmundr Arason biskupsefni kom til Noregs, 9, 3. Hákon konúngr sitr í Niðarósi um vetrinn, 9, 67. 217. (í Björgvin, 9, 3, rángt).

1203. Hákon konúngr fór um sumarið austr í Vík, en um haustið til Björgvinar, tekr sótt að jólum. Erlíngi steinvegg boðið vald af Norðmönnum, 9, 4.

1204. Hákon Sverrisson andast 1. janúar; Guttormr Sigurðsson lávarðar tekinn til konúngs. Baglar taka Erlíng steinvegg til konúngs og Filippus Símonarson til jarls með ráði Nikulásar biskups og Valdimars D. k., 9, 6. 7. Guttormr konúngr andaðist eptir Jónsmessu um sumarið; Íngi Bárðarson tekinn til konúngs, Hákoni galni gefið jarlsnafn. Fæddr Hákon Hákonarson (N. k.) í Borgarsýslu, 9, 232.

1205. Erlíngr steinveggr er tekinn til konúngs, og Filippus til jarls á Eyraþíngi. Íngi konúngr sitr í Niðarósi, Hákon í Björgvin.

1206. Hákon Hákonarson kemr til Ínga konúngs. Baglar fara að Ínga konúngi í Niðarósi; Íngi kemst undan, 9, 17-27. Dó Haraldr Maddaðarson Orkneyíngajarl, en Jón og Davíð urðu jarlar, 9, 193.

1207. Erlíngr steinveggr andast, Filippus tekinn til konúngs á Eyraþíngi, 9, 48.

1208. Sætt Bagla og Birkibeina í Hvítíngsey: Filippus konúngr fastnar Kristínu Sverrisdóttur konúngs. Sörkvir konúngr og Eiríkr konúngr börðust, 9, 56. Bjarni biskup sendr til Noregs af Orkneyíngajörlum, 9, 193.

1209. Brúðkaup Filippuss Baglakonúngs og Kristínar Sverrisdóttur. Farið í víkíng úr Noregi til Suðreya. Pètr steypir og Hreiðar sendimaðr fara til Jórsala, og koma ei aptr.

1210. Jón og Davíð Orkneyíngajarlar og Bjarni biskup sættast við Ínga konúng, 9, 195.

1213. Skúli Bárðarson drap Pál dróttseta, 9, 207.

1214, dó Hákon jarl galinn þegar eptir jól, 9, 207. 245. Dó Þórir erkibiskup um sumarið, Guttormr varð erkibiskup, 9, 209. Íngi konúngr barðist við þrændi við Vogsbrú (Vágsbrúar sumar) 9, 247-48.

1217, dó Íngi konúngr Bárðarson, 23. apríl; Skúli varð jarl, 9, 250. Hákoni Hákonarsyni gefið konúngsnafn 13 vetra. Dó Filippus Baglakonúngr, 9, 267. Jórsalaferð Hróars konúngsfrænda, 9, 270. Hófust Slittúngar, 9, 271. Sæmundr Jónsson í Odda rændi norræna menn á Eyrum, 9, 276.

1218. Baglar berjast við Slittúnga hjá Gunnarsbæ, 9, 272. Slittúngar ræna í Oslu. Ínga ber járn til faðernis Hákoni konúngi, 9, 283. Baglar gerast handgeingnir Hákoni konúngi og leggja niðr flokksnafnið, 9, 286. Slittúngar flýa austr á Markir, 9, 287. Víg Orms Jónssonar, bróður Sæmundar í Odda; Snorri Sturluson kemr til Noregs, 9, 292.

1219. Trúlofan Hákonar konúngs og Margretar Skúladóttur, 9, 292. Um vetrinn hófust Ribbúngar, 9, 293.

1220, ráðin herför til Íslands af Skúla jarli; Snorra Sturlusyni gefið lends manns nafn; Snorri fer til Íslands, 9, 294-95.

1221. Víg Björns Þorvaldssonar á Breiðabólstað, Snorri sendir Jón (murt) til Noregs, 9, 206. Slittúngar sameina sig við Ribbúnga, 9, 298. Hákon konúngr eltir Ribbúnga af skipum við Vörnu, 9, 298-302. Skúli jarl felldi Gunnar Ásuson og 90 Ribbúnga, 9, 311.

1222. Guðmundr biskup góði kom til Noregs. Bardagi í Grímsey, 9, 317. Herferð til Bjarmalands, 9, 319.

1223. Sigurðr Ribbúngr geingr á vald Skúla jarls, og gefr upp flokkinn; friðr um allan Noreg, 9, 323. Skúli jarl fer til Kaupmannahafnar; Heinrekr greifi handtók Valdimar gamla D. k., 9, 323-24. Höfðíngjafundr í Björgvin: dæmt Hákoni konúngi land af lögmönnum og erkibiskupi, 9, 324-36.

1224. Guttormr erkibiskup endast; Pètr fór til páfa, 9, 337-38. Sigurðr Ribbúngr hefr flokkinn að nýu.

1225. Hernaðr Hákonar konúngs í Vermalandi og stríð við Ribbúnga, 9, 344-71. Brullup Hákonar konúngs og Margrètar Skúladóttur, 9, 372. Pètr erkibiskup kom í land, 9, 375. Dó Nikulás biskup Árnason, 9, 383.

1226, dó Sigurðr Ribbúngr, Knútr Hákonarson gerist konúngr Ribbúnga, 9, 390-91. Dó Pètr erkibiskup, kosinn þórir þrænzki, 9, 412.

1227. Ribbúnga öld endast, Knútr Hákonarson fer á vald konúngs, 9, 408. Fæddr Ólafr Hákonarson; dó Hónóríus páfi (annar), varð páfi Gregoríus (níundi), 9, 412.

1228. þórir erkibiskup kom frá Rómi, 9, 413. Skúli fór til Kaupmannahafnar og fèkk hálft Halland í lèn af D. k., 9, 415.

1229. Andrès skjaldarband hvarf í Jórsalaferð, 9, 417.

1230, dó þórir erkibiskup, kosinn Sigurðr; herför Norðmanna til Suðreya, 9, 418-23.

1231. Sigurðr erkibiskup kom í land, 9, 423. Dráp Jóns jarls í Orkneyum, 9, 424.

1232, fæddr Hákon Hákonarson úngi, 9, 428.

1233. Sáttafundr í Björgvin milli Hákonar konúngs og Skúla jarls. Sturla Sighvatsson fer utan til páfa. Ófriðr á Íslandi, 9, 435.

1234, fædd Kristín Hákonardóttir konúngs, 9, 433. Ínga konúngs móðir deyr, 9, 434. Sturla Sighvatsson lófar að koma Íslandi undir konúng, 9, 435.

1235. Samníngr með Hákoni konúngi og Skúla jarli. Sturla Sighvatsson fer til Íslands.

1236. Sighvatr og Sturla reka Snorra Sturluson frá

Reykjaholti. Órækja fór utan. Bardagi í Bæ í Borgarfirði, 9, 435-36. Varbelgir hófust, 9, 443-44.

1237. Sættargjörð Hákonar og Skúla. þorleifr í Görðum, Snorri Sturluson, þórðr kakali og Ólafr hvítaskáld fara til Noregs. Skúla gefið hertoganafn, 9, 449.

1238, fæddr Magnús Hákonarson (lagabætir), 9, 454. Snorri Sturluson er með Skúla hertoga. Bardagi á Örlygstöðum í Skagafirði, 9, 456.

1239. Snorri Sturluson, Órækja, þorleifr fara til Íslands í óleyfi Hákonar konúngs. Skúli hertogi lætr gefa sèr konúngsnafn á Eyrum, og hefr upp ófrið móti Hákoni konúngi.

1240. Knúti Hákonarsyni gefið jarlsnafn, 9, 483. Bardagi á Láku milli Birkibeina og Varbelgja, 9, 490. Gefið Hákoni únga konúngsnafn. Bardagi í Oslu. Fall Skúla hertoga.

1241, dó Valdimar gamli, D. k.; andaðist Gregoríus páfi (níundi), kom aptr Innócentíus (fjórði). Veginn Snorri Sturluson. Hákon konúngr fer til Konúngahellu að finna Eirík Svíakonúng. Sendimenn koma í Noreg frá Friðreki keisara, 10, 3.

1242. Órækja Snorrason, utan rekinn af Kolbeini og Gissuri, sættist við Hákon konúng, 10, 3-4.

1244. Gissr þorvaldsson kemr til Noregs, 10, 5. þórðr kakali fer til Íslands og á deilur við Kolbein únga, 10, 5. Hákon konúngr fèkk blessunarfullt brèf frá páfa, 10, 6.

1246. Gissr og þórðr kakali koma til Noregs; bardagi þórðar kakala við Brand Kolbeinsson (Haugsnessfundr), 10, 8.

1347. Vilhjálmr kardínáli kom í Noreg: Hákon konúngr vígðr undir kórónu í Björgvin. Stríð Dana við Lybikumenn. Heinrekr Kársson vígðr til

biskups að Hólum á Íslandi, og fer með þórði kakala til Íslands.

1248. Haraldr Manarkonúngr fèkk Cecilíu konúngsdóttur, og týndist í hafi. Bæarbruni í Björgvin.

1249. Andlát Alexanders Skotakonúngs. Fundr Birgis jarls Magnússonar og Hákonar konúngs: Rikiza, dóttir jarls, fest Hákoni konúngi únga. Heinrekr Hólabiskup kom til Noregs af Íslandi.

1250, dó Eiríkr Eiríksson Svíakonúngr; Valdimar Birgisson jarls verðr konúngr. Abel hertogi drap Eirík Danakonúng Valdimarsson bróður sinn, og lèt taka sig til konúngs. Sigurðr biskup og þórðr kakali koma af Íslandi til Noregs. Dó Friðrekr keisari, 10, 48.

1251. Friðr settr milli Garðaríkis og Noregs. Tattarar herja á Hólmgarð. Sigurðr biskup, þórðr kakali og Jón Sturluson eru í Noregi; Heinrekr biskup, Gissr og þorgils skarði verða aptrreka til Noregs; skip Sæmundarsona týndist, 10, 45. Ófriðr í Svíþjóð: fundr við Heitnaðrsbrú, Birgir jarl lèt handtaka og hálshöggva mótstöðumenn sína, 10, 46. 47. Brúðkaup Hákonar konúngs únga og Rikizu Birgisdóttur, 10, 46.

1252, dó Sigurðr erkibiskup; Sörli kórsbróðir kosinn í hans stað, 10, 50. Ráðin herför af Hákoni konúngi og Birgi jarli á hendr Dönum. Heinrekr biskup, Gissr og þorgils skarði fara til Íslands. þórðr kakali fær sýslu í Gaulardal, en sendir Kolbein grön til Íslands. Abel D. k. átti stríð við Frísi, og fèll: Kristófer varð konúngr, 10, 52.

1253. Flugumýrar brenna, 10, 59. Herför Hákonar konúngs og Birgis jarls til Danmerkur, og sætt við Dani, 10, 52-57.

1254. Sörli erkibiskup dó; kosinn Einar smjörbakr,

10, 58. Hákon og Kristófer konúngar og Birgir jarl finnast í Elfi, og skilja konúngar ósáttir, 10, 58. Dó Sigurðr Hákonarson konúngs, 10, 59. Ófriðr á Íslandi; Sigurðr biskup sendr til Íslands; Gissr þorvaldsson fer utan, 10, 59-60.

1255. Einar erkibiskup kom í land. Dráp Odds þórarinssonar í Geldíngaholti; bardagi á þveráreyrum, fèll Eyólfr (ófsi). Ívar Englason sendr til Íslands; Gissuri þorvaldssyni skipuð sýsla í þrándheimi, en þórði kakala austr á Skíðu. Hákon sendi gjafir konúngi af Kastel í Spaníu, 10, 60-62.

1256. Skagfirðíngar og Eyfirðíngar og mestr hluti Norðlendínga játa skatti, 10, 61. Hákon konúngr herjar í Danmörk, og leggr fègjald á Dani, 10, 63-70. Sendimenn frá Spaníu koma í Noreg, 10, 69.

1257. Hákon konúngr úngi fer á fund Birgis jarls, 10, 71-72, og andast, 73. Send frú Kristín Hákonardóttir til Spaníu, 10, 75. Absalon sendr frá Danakonúngi til Hákonar konúngs, 10, 76. Magnús Hákonarson tekinn til konúngs, 10, 80. Hákon konúngr siglir með her til Kaupmannahafnar, 10, 81-82. Kristófer konúngr og Hákon konúngr sættast, 10, 83-84.

1258. Jarmar og Álfssynir gera ófrið í Danmörk. Fundr Birgis jarls og Hákonar konúngs í Elfi. Bæarbruni í Túnsbergi. Hákon konúngr gaf Gissuri þorvaldssyni jarlsnafn og sendi hann til Íslands, 10, 93-94. Víg þorgils skarða, 10, 94.

1259, dó Kristófer D. k. Hákon konúngr fór til Kaupmannahafnar til hjálpar Dönum; sætt Dana við Álfssyni, 10, 94-95.

1260. Ívar og Páll sendir af Hákoni konúngi til Íslands; Sunnlendíngar neita skatti við Noregskon-

úng, 10, 97. Hákon konúngr og Birgir jarl finnast í Elfi, 10, 97. Dó Heinrekr biskup, 10, 98. Deila Hákonar konúngs og Einars erkibiskups, 10, 98-99. Sendir menn til Saxlands um bónorð Magnúsar konúngs, 10, 100.

1261. Íngilborg, dóttir Eiríks helga Valdimarssonar, sótt til Danmerkur af Norðmönnum; trúlofan, brúðkaup og vígsla þeirra Magnúsar konúngs Hákonarsonar, 10, 101-111. Andlát Knúts jarls; Grænlendíngar gánga undir skatt, 10, 111. Hallvarðr gullskór sendr til Íslands, 10, 112.

1262. Íslendíngar sóru skatt Hákoni konúngi, 10, 112-114. Sendiför til Danmerkur um eignir Eiríksdætra, 10, 115. 117. Sendir menn með gjafir til Soldáns af Túnis, 10, 116. Hallvarðr gullskór kom frá Íslandi, og Sighvatr Böðvarsson, Sturla Rafnsson, Brandr Jónsson ábóti, 10, 116. Fæddr Ólafr Magnússon, 10, 117. Yfirgángr Skota í Suðreyum, 10, 117.

1263. Brandr ábóti Jónsson vígðr biskup til Hóla á Íslandi. Hákon konúngr fer herferð til Skotlands, 10, 118-126. Sólarformyrkvan, 10, 125. Hernaðr á Skotlandi, 10, 126-45. Hákon konúngr verðr sjúkr í Kirkjuvogi og andast 15. december, 10, 145-50. Dó Einar erkibiskup; valinn Birgir ábóti af Tötru, 10, 155.

1264. Lík Hákonar konúngs flutt til Noregs, og jarðað í Björgvin, 10, 150-51. Friðar umleitun milli Skotakonúngs og Magnúsar Hákonarsonar N. k., 10, 155-56. Hallvarðr gullskór kemr frá Íslandi; Þorvarðr Þórarinsson gekk á vald Magnúss konúngs; allir Íslendíngar geingnir undir hlýðni við Noregs konúng, 10, 156-57.

1265. Magnús konúngr sendir sendimenn til Skotakonúngs um frið, 10, 158. Skotar herja í Suðr-

eyum, 10, 159. Stríð í Englandi, felldr Símon misfort, 10, 158. Saman sett saga Hákonar konúngs Hákonarsonar, 10, 49.

1272. Vígðr Gregoríus páfi; dó Hinrik (3ði) Englakonúngr, 10, 159 Magnús konúngr sættir Valdimar Svíakonúng Birgisson við bræðr sína, 10, 160-61. Árni biskup af Skálholti er í Noregi, 10, 161.

1273. Ófriðr í Danmörk við þýzka menn; Eiríkr D. k. leitar vináttu Magnúsar konúngs, 10, 161. Magnús konúngr gefr Eiríki syni sínum konúngsnafn, en Hákoni (hálegg) öðrum syni sínum hertoganafn, 10, 163.

# VÍSUR
## Í FORNMANNA SÖGUNUM
### FÆRÐAR TIL RÈTTS MÁLS.

---

## FYRSTA BINDI.

### Bls. 7.

Þorbjörn *hornklofi:* Inn kynstóri konúngr, er tók dönsku konuna, hafnaði Hólmrýgjum[1] ok Hörða meyjum, hvárri enni heinversku[2] ok Hölga ættar[3].

1) þeim sem bjuggu á eyjunum við Rogaland í Noregi. 2) þeir sem bjuggu á Heiðmörk, kölluðust *Heinir*; þaraf *heinverskr.* 3) *Hölga ætt,* Háleygir, þeir sem bjuggu á Hálogalandi.

### Bls. 10.

*Vitgeirr:* Þat er lítil vá[1], at vèr, börn karla ok kerlínga, seiðim: er Rögnvaldr rèttilbeini, hróðmögr[2] Haralds, seiðir á Haðalandi.

1) les *vo,* þ. e. undr. 2) nafnfrægr sonr.

### Bls. 13.

*Jórunn skáldmær:* Ek frá Hálfdán spurja herðibrögð[1] Haralds ens hárfagra, en lögðis reyni[2] sýnist seá[3] bragr[4] svartleitr[5].

1) hreystibrögð, nl. liðsdrátt hans. 2) sverðs reyni, mannskenning, nl. honum Hálfdáni. 3) *sá.* 4) tiltæki Haralds. 5) iskyggilegt, hættulegt; *sjá 4. b. 12 bls.*

### Bls. 25, 1.

*Glúmr Geirason:* Ferju-fróðr[1] bakka-blakkrjóðandi[2] hafði barnúngr farna góða för þaðan[3] til Skáneyjar. Ræsir rógeisu[4] vann seggja kindar[5] á Skotlandi; randullr[6] sendi Gauti[7] sverðbautinn[8] her.

1) vanr ferðalagi, víðförull. 2) mk., nl. Haraldr gráfeldr: *bakka* (strandar) *blakkr* (hestr) er skip. 3) líkl. frá Noregi. 4) kastandi skotvopna, nl. Haraldr. 5) menn. 6) mk. 7) Óðni. 8) vopnbitinn.

### Bls. 25, 2.

*Glúmr Geirason:* **Gumna vinr[1] rak dólgeisu[2] at gamni dísar gjóðum[3]; mörg drótt írskrar þjóðar kom á flótta. Freyr sverðfoldar[4] rauð mækis[5] eggjar í manna dreyra, ok felldi seggi; sigr var of-orðinn.**

1) konúngrinn. 2) hernað. 3) þ. e. hræfuglum; *dís*, valkyrja, *gjóðr*, fugl (kannskè s. s. kjói), 4) skjaldar Freyr, mk. 5) sverðs.

### Bls. 27, 1.

*Guttormr sindri:* **Konúngr trað bláröst bekkjar[1] bifroknum[2] árum; mætr mildíngr hlóð[3] ýtum í drífu Mistar nífs[4]. Jálfaðar svangœðir[5] rak síðan skjótt[6] flótta at mun[7] sínum; hylja[8] hrafnvíns geljaðar[9] hrot[10].**

1) bláan veg skipsins, þ. e. sjóinn. 2) særoknum. 3) drap. 4) *í orustunni; Mistar* (valkyrju) *nífr* (hnífr), sverð, þess *drífa*, bardagi. 5) hermaðr; *Jalfaðar* (Óðins) *svanr*, hrafn. 6) þannig Hk. 7) eptir vild sinni. 8) s. s. hula, þ. e. hlíf. 9) hermannsins; sem lokkar hrafninn með drykk; *geljaðr* (eða *giljaðr*, Skb. E. Hk.), sá sem lokkar; *gyljaðr*, sá sem gleðr; *vín* er hèr drykkr. 10) s. s. *hrøt, hraut*, þ. e. brast, eins og *brot*, *brøt*, *braut*.

### Bls. 27, 2.

*Sami:* **Álmdrósar eisu elrunnr[1] fór sunnan einum tveim tíngls mörum[2] á grœna selmeina trjónu[3]: þá er allreiðr vandar valsendir[4] rauð[5] allar ellifu skeiðar Dana, víðfrægr síðan at þat[6].**

1) mk., Hákon konúngr; *álmdrós*, ör, *álmdrósar eisa*, örva drífa, hennar *el*, bardagi. 2) skipum; *tíngl*, ennisspænir framan á skipum til prýðis; *marr*, hestr. 3) líklega Helsíngjaeyri (fyrrum Háleyri); má vera, að þar hafi verið selveiði, og kallist eyrin því *Selmeina trjóna*. 4) mk., *vals vöndr*, sverð. 5) hrauð, eyddi. 6) af því.

### Bls. 28, 1.

*Sami:* **Þá náði sóknheggr[1] síðan leggja und sik Sælund ok frelsi Vinda vals[2] við Skáneyjar síðo[3].**

1) hermk., Hakon konúngr; *sókn*, bardagi, *heggr*, trè. 2) *Vinda val* (ekki *valr*), vindverskir hermenn, þeirra *frelsi*, herskip eða virki. 3) þannig Hk.

## Bls. 28, 2.

*Sami:* **Skaut-jálfaðar skyldir[1] vann[2] Gauta skattgilda: gjöflastr gullskýflir[3] vann[4] geirveðr[5] í þeirri för.**

1) hermk., sem hlífir sér með skildi; *jalfaðar skaut,* Óðins tjald, skjöldr. 2) gerði. 3) mk., ör af gulli. 4) háði. 5) orustu.

## Bls. 29.

*Sami:* **Ok sóknháttar svellrjóðr[1] setti hraustan[2] geðbœti[3] austr at því eiki-grœnu[4] Ónars fljóði[5]: þann er áðr of kom liði þángat frá Írum (á) svanfángs skíðum[6], iðvandr Sveigðis salbrigðandi[7].**

1) hermk., Hákon konúngr; *sóknhöttr*, hjálmr, hans *svell,* sverð. 2) þannig Hk. 3) s. s. Tryggva: sú grein, er Skálda kallar ofljóst. 4) þannig Hk. 5) landi, nl. Víkinni. 6) skipum; *svanfángr, s. s. svanvángr*, sjór. 7) hermk. nl. Tryggvi; *Sveigðir* (*Svegðir, Svigðir, Sigðir*), Óðins heiti, en mjög sjaldgæft; hér er *Sveigðis salr* skjaldborg, hennar *brigðandi, sá sem bregðr skjaldborginni, rýfr hana.*

## Bls. 30.

*Glúmr Geirason:* **Undir austrlöndum[1] fèksk[2] mörgum gunnhörga slög[3]; allvaldr[4], sá er gaf skáldum, hann fèkk gagn[5] at gunni[6]. Gramr lèt gullvarpaðar[7] slíðrtúngur[8] syngja, sendi snarpar sverðleiks reginferðar[9] at grundu.**

1) í austrvegi við Eystrasalt. 2) þannig Hk., þ. e. fengu margir. 3) högg á skildi. 4) konúngr. 5) sigr. 6) í bardaga. 7) gullbúnar. 8) sverð (eiginl. brandrinn á sverðinu). 9) stóra herflokka.

## Bls. 33.

*Guttormr sindri:* **Gildir valþögnar[1] lèt vígnestr[2] bresta saman of höfðum (á) vegnum handar nafs[3] hlymmildíngum[4]. Njörðr víðra sunda landa[5] gekk þar af vopnunduðum Nirði nadds hámána raddar valbrands[6].**

1) hermk., Hákon konúngr; *valþögn,* valkyrja (hér, bardagi), *gildir,* sá sem eykr. 2) skildi. 3) þannig Hk. 4) herkonúngum, nl. Eiríkssonum; *handar naf,* (hjolnöf), skjöldr, hans *hlymr,* orusta. 5) Hákon Noregs konúngr; Noregr er mjög vogskorið og eyótt land, og kallast hèr því *sunda lönd,* eins og *fjörð-jörð,* 2,

328, 1. 6) hermk., nl. Gutto mi Eiríkssyni; *vaddr*, skjaldarnagli, hans *hámáni*, hár skjöldr, hans *rödd*, bardagi, hans *valbrandr* (eldr), sverð: þetta er rekið.

**Bls. 39.**

*Sami:* **Barma öld[1] álmdrøgar ægis[2] varð optsinn vita ríkis[3] firir bensíks baldri[4]: ek minnumst þess. Flæðu-bríkar böðsækir[5] hèlt snekkjum[6] á haf, ok rak undan allar kindir[7] Eirekks[8] bræðr[9] síns.**

1) s. s. *barmar*, bræðr, hèr bróðursynir, eins og *bls.* 29. *l.* 1. 2) hermk., nl. Hakonar konúngs: *álmdrøg*, ör. 3) varð opt að kenna á ofriki. 4) hermk., Hákoni; *síkr*, eldr, *bensíkr*, þ. e. sverð. 5) hermk., Hákon konúngr; *flæðu-brík*, skip, *böð*, bardagi. 6) þann. Hk. 7) syni. 8) þann. Hk., s. s. Eiríks. 9) bróður.

**Bls. 40.**

*Sami:* **Hjörva raddar[1] herr fór hræddr fur málma þverri[2]: ráðsterkr ræsir rógeisu[3] gekk framar merkjum. Gramr, hinn er gat[4] yfrinn Óðs kvánar jöfra mána byr[5], gerra[6] hlífa sèr í snerru geirvífa[7].**

1) stríðs. 2) mk., Hákoni konúngi. 3) *sjá bls.* 25, 1, *skgr.* 4. 4) fèkk, átti. 5) mikið gull; *Óðs kvan*, Freya: *jöfri* (*s. s. öfri, efri*) augabrun, *jöfra máni*, auga, þess *byr* (hèr s. s. þeyr), tár: Freyju tár er gull. 6) þ. e. gerir eigi. 7) *geir víf*, valkyrja, hennar *snerra*, bardagi.

**Bls. 41.**

*Eyvindr skáldaspillir:* **Tjá[1] hefnendr[2] Blóðöxar beiða ens hvassa fetilstínga brynþíngs[3]: setu efni gjörast[4] oss hnept. Heldr er vant, (at) segja drotni hersögu, en ek vilda veg þinn, konúngr; fám[5] fljótt til fornra vopna!**

1) menn segja. 2) syni. 3) orustu; *fetilstingr*, sverð, þess *brynþíng* (harðr fundr), bardagi. 4) þannig Hk. 5) tökum.

**Bls. 42.**

*Sami:* **Njörðr[1] naddregns! samira[2] hvötum þegni (at) fœra borðmœrar ske[3] enn norðar; vèr getum at bölva bili[4]. Nú er þat, er Haraldr rökkr[5] breiðan flota á rakna rymleið[6] sunnan; grípum vèr gunnborð[7] í greipar[8].**

1) þann. Hk.; hermk. 2) sæmir eigi. 3) skipit; *borðmær*, borða land þ. e. sjór, hans *sker* (hestr), skip. 4) vèr viljum ei fresta bardaganum, *sjá bls.* 56, 1. *skgr.* 2. 5) hrökkr, hrekr. 6) á hafit, sjókonúngsins rymjandi leið. 7) þann. Hk., þ. e. skjöld. 8) þann. Hk.

## Bls. 44.

*Þórðr Sjáreksson:* Herr gekk lystr[1] til hjörva hnits, þar er böðharðir landa bands jódraugar[2] börðust á Fitjum í Storð. Ok nausta blakks hlèmána gífrs drífu gimslöngvir[3] þorði gánga hit næsta Norðmanna gram.

1) fus. 2) mk.; *landa bands*, (sjóar) *jór*, skip. 3) hermk., nl. þórálfr; *nausta blakkr*, skip, þess *hlèmáni*, skjöldr, hans *gífr* (tröllkona), öxi, hennar *drífa*, bardagi, hans *gim* (eldr), sverð; rekið til fimtu kenníngar.

## Bls. 45.

*Eyvindr skáldaspillir:* Ek veit, at enn bitri benvöndr, or báðum konúngs höndum, beit meðal-dyggvan byggving búlka skíðs[1]. Úfælinn ála galtar eldraugr[2], grandráðr[3] Dana, klauf skarar[4] hauga[5] gullhjaltaðum brandi.

1) mk.; *búlki*, vöruhlaði, h. *skíð*, skip, þ. *byggvíngr*, skipverji, víkingr, hèr *Álfr askmaðr*. 2) þannig Hk.; hermk., Hákon konúngr; *ála* (sjókonúngs) *galtar* (skips) *el*, bardagi. 3) sá sem vinnr skaða. 4) þannig Hk. 5) höfuð, *skör*, höfuðhár.

## Bls. 46, 1.

*Þórðr Sjáreksson:* Víga myrðir[1] varði vítt öndvert fólk[2]: svá skal slíta frið[3]; vildo[4] þann jöfur eldast á löndum. Starf hófst upp, þá er arfi Gunnhildar sunnan, vanr ótta gulls[5], kom á flótta, er gramr var fallinn.

1) sem eyðir vígaferlum, konúngr; hèr Hákon. 2) s. s. fylki, *hèr merkist* sá hluti Hörðalands, er veit til hafs, þar er bardaginn stoð í Storð. 3) heya bardaga. 4) menn vildu. 5) vanr örlæti; örlátr.

## Bls. 46, 2.

*Sami:* Þrot[1] var sýnt[2], þá er úfár sárir bændr settust við einn stinnan róðrs[3] þröm[4]; maðr lèt önd ok annar. Þat veit[5] afreks, er allríkr göndlar njörðr[6],

sá er gerði hugins drekka[7], gekk næst jöfri[8] í slíkum styr.

1) þróttleysi. 2) auðsýnilegt. 3) þannig Hk. 4) keip eða hástokk. 5) er merki til. 6) hermk., nl. þórolfr. 7) gaf hrafninum að drekka, feldi óvinina. 8) Hákoni konúngi.

Bls. 48, 1.

*Glúmr Geirason:* Haraldr hefir vel hefnt Gamla, en berdraugar[1] hjörs hafna[2] fjörvi; fólkrakkr fylkir vann framligt, er dólgbands dökkvalir[3] drekka dreyra Hákonar; ek frá reyr rauðra benja[4] roðin fur handan ver[5].

1) þannig Hk., A og Fagrsk., mk. s. s. *sverðberendr.* 2) tiðaskipti, fyrir *höfnuðu*, mistu. 3) svartir hrafnar; *dólgband*, likl. Oðinn eða valkyrja. 4) sverð. 5) í Storð, hinumegin Harðángrsfjarðar.

Bls. 48, 2.

*Eyvindr skáldaspillir:* Flugvarr[1] konúngr[2] rauð fyrr sparra Fenris varra[3] í blóði Gamla (málmhríðar meiðum[4] svall móðr[5]), þá er ústirfinn[6] of-rak alla Eiríks arfa á sjá; nú tregar grams fall gætigauta geira[7].

1) óflóttagjarn. 2) nl. Hákon konúngr. 3) sverð, *gómsparri, Fenris.* 4) mk. 5) þannig Hk. 6) *Hákon* goði. 7) mk.

Bls. 49.

*Sami:* Landvörðr Hörða! lítt kváðu (menn) þik láta geð fálma[1], er benja hagl[2] brast á brynjum, álmar bugust[3]: þá er ófólgin[4] fullegg[5] fetla svell[6] gullu endr[7] or þinni hendi, Haraldr, til ylgjar[8] fyllar.

1) hug bila. 2) blóð. 3) bogar svignuðu. 4) nakin. 5) bitr. 6) sverð. 7) fyrr meir. 8) úlfs.

Bls. 50, 1.

*Sami:* Ullr ímunlauks[1]! bárum Fýrisvalla fræ[2] á hauka fjöllum[3] of alla æfi Hákonar; nú hefir fólkstríðir[4] of fólgit meldr fjölglýjaðra Fróða þýja[5] í holdi móður mellu dólgs[6].

1) sverðs, mk. 2) gull. 3) höndum, handleggjum. 4) óvinir þjóðarinnar. 5) gull, mjöl ambáttanna Menju og Fenju; *fjöl-*

*glýjaðr*, mjög glaðr. 4) *móðir mellu dólgs* (tröllkonu óvinar, þórs), jörð.

Bls. 50, 2.

*Sami:* Fullar brávallar fallsól[1] skein á Ullar kjöls fjöllum[2] skáldum of allan aldr Hákonar; nú er elfar álfröðull[3] of fólginn í líki móður jótna dólgs[4]; ráð rammrar þjóðar eru rík.

1) gull, *höfuðband Fullu*; *brávöllr*, höfuð, *fallsól*, faldsól; gullið kallast hèr sólin á höfuðduki Fullu. 2) höndum; *Ullar kjölr* (*skip*), skjöldr, h. *fjöll*, hendr. 3) gullið. 4) í jörðu.

Bls. 50, 3.

*Sami:* Dýrr jöfurr, hefig áttan einn drottinn fyrra en þik; ek bið mèr ei hins þriðja: bragníngr, elli hellr[1]. Ek var trúr dýrum tiggja; ek leik aldri tveim skjöldum; ek fylli þinn flokk, stillir! elli fellr á hönd[2] mèr.

1) þannig Hk., þ. e. mèr, þ. e. *stígr yfir mig*. 2) þannig Hk.

Bls. 51.

*Sami:* Skerja foldar skíðrennandi[1]! ek skylda um síðir finna þinn góðan þursa bæs byr[2], fyrir[3] þvísa[4] er verðum selja þèr, valjarðar[5] mens veljandi, þat lýngva látr[6], er faðir minn átti lengi.

1) Mk., *skerja foldar* (sjóar) *skíð*, skip. 2) *þursa bæs byr*, vindr, sem kemr frá trölla býlum; en með því að hèrmeð teiknast *hugr, vindr tröllkvenna*, þá má vera, að orðið, *bæs*, sè hèr eigi hið rètta. 3) þannig Hk. 4) því. 5) hand-mens, armbaugs. 6) orms ból, gull.

Bls. 52.

*Glúmr Geirason:* Hallinskíða tanna ógnarstafr[1], sá er tíðum sótti fram, kunni tólf of-jöfra[2] íþróttir.

1) Mk., nl. Haraldr gráfeldr; *Hallinskíða* (Heimdalls) *tennur*, gull, þ. *ógnarstafr*, auðugr eða örlátr maðr, *sjá bls.* 46, 1. *skgr.* 5. 2) konúnglegar *íþróttir*.

Bls. 56, 1.

*Einar skálaglamm:* Ok eiðvandr oddneytir[1] hafði úti breiðan flota; glaðr gramr svafði bil[2] í Göndlar veðrum[3]. Ok Hèðins bóga rauðmána[4] reynir upp hóf rógsegl[5] (af) kappi, at setja etjulund[6] jöfra[7].

1) hermk., Hákon jarl. 2) frestaði ei, *sjá bls.* 42. *skgr.* 4. 3) bardögum. 4) skjaldar. 5) brá upp skildi, þ. e. lagði til orustu. 6) lægja kappgirni. 7) þ. e. Gunnhildarsona.

**Bls. 56, 2.**

*Sami:* **Sverða sverrifjarðar svanglýjaði[1] var-at at frýja of byrjar örva[2] í drífu odda vífs[3]. Brakrögnir[4] skók rakliga[5] bogna[6] hagl[7] or Hlakkar segli[8]; óþyrmir hjörs[9] barg[10] varga[11] fjörvi.**

1) mk., nl. Hákoni; *sverrifjörðr* (þúngr straumr) *sverða,* blóð, þ. *svanr,* hrafn, h. glýjaðr, sá sem gleðr (seðr) hræfugla. 2) það þurfti ekki að frýja honum skothríðar (segja, að hann hefði ei verið í skothríðinni). 3) í bardaganum. 4) hermk., þ. e. Hákon. 5) rakklega, hraustliga. 6) þannig Hk. og Sn. Edda, þ. e. boga. 7) örvar. 8) skildinum. 9) hermk., sá sem hlífir ei sverðinu. 10) bjargaði. 11) úlfa.

**Bls. 56, 3.**

*Sami:* **Mart ála el[1] varð af ríki[2], áðr randarlauks rækilundr[3] of tæki austrlönd[4] at mun banda[5].**

1) bardagi; *áli,* sjókonúngr. 2) afli. 3) hermk., nl. Hákon jarl; sá sem rækir (elskar) *randar lauk* (sverðið). 4) *sjá bls.* 30. *skgr.* 1. 5) goðanna, *sjá bls.* 27. *skgr.* 7.

**Bls. 56, 4.**

*Sami:* **Ek ber hljóms lof fyrir[1] þá hefnd síns föður, er vörðr hranna hrafna[2] vann; þat nam at vinna toginn skjóma[3].**

1) þannig Hk. 2) skipa, mk., Hákon. 3) brugðið sverð, nl. það kostaði bardaga.

**Bls. 57.**

*Sami:* **Meel-regni[1] hjörs-hríðremmis[2] rigndi víða á fjör hersa; þrymlyndr[3] of[4]-jók þundi þegns gnótt[5]. Ok haffaxa hjaldviðurr[6] lèt vaxa lífköld[7] laufa-veðr[8] at lífum[9] Hárs-drífu-hölda[10].**

1) járnregni, skothríð. 2) hermk., nl. Hákonar. 3) hermk., hann Hákon. 4) þannig Hk. 5) hann jók tölu Einherjanna í Valhöll. 6) hermk.; *haffaxi,* skip, þ. *hjaldr,* sjóorusta; *viðurr,* Óðins heiti. 7) mannhætt. 8) orustu. 9) hlífum. 10) hermannanna.

## Bls. 63.

*Glúmr Geirason:* Orðrakkr jöfra þrýstir[1] rauð brennanda brand austr, fyrir norðan bý[2], þar er (hann) lèt bjarmskar kindir[3] renna[4]. Úngum ödlíngi fèkkst geirveðr[5] í þeirri för: gumna sættir[6] laut[7] gott orð á Vinu borði[8].

1) mótstöðumaðr; Haraldr gráfeldr. 2) bygðina. 3) Bjarma. 4) flýa. 5) orusta. 6) konungr. 7) hlaut. 8) bakka.

## Bls. 65.

*Einar skálaglamm:* Harðr[1] hjálmfaldinn hilmir vann barða fjandr sína: því kom vöxtr í vinu Lópts vinar vinheims[2]. Þat fær þróttar snytri[3] tírar[4], at þrír forsnjallir jarls synir fèllu í skúrum Þundar furs[5].

1) þannig Hk. 2) því fjölguðu Einherjar í Valhöll; *Loptr*, Loki, *Lopts vinr*, Óðinn, h. *vinheimr* (kæri bústaðr), Valhöll, h. *vinir*, Einherjar. 3) hermk., sá sem prýðir bardagann. 4) orðstírs. 5) í Óðins elda (sverða) *skúrum*, bardaga.

## Bls. 88, 1.

*Glúmr Geirason:* Mætra hjalta málmóðinn[1], sá er þorði rjóða þjóðum völl, mælti þróttarorð[2]: víðlendr Haraldr of bað verðúng[3] vinda[4] sverðum at morði; þat fylkis orð þótti flotnum[5] frægt.

1) hermk., *hjalta málmr*, sverð. 2) hreystiorð. 3) hirðina. 4) bregða. 5) mönnum.

## Bls. 88, 2.

*Sami:* Gætir gamla sóta garðs[1], hollr viggjum[2], varð at liggja á víðu borði[3] Eylimafjarðar. Sendir sævar báls[4] fèll á sandi at Hálsi; orðheppinn jöfra spjalli[5] olli því morði.

1) hermk., *gamla* (s. s. *glamma*, sjókonúngs) *sóti* (hestr), skip, þ. *garðr*, skjöldr. 2) skipum. 3) strönd. 4) mk., Haraldr. 5) vinr konúnga, nl. Gullharaldr.

## Bls. 91, 1.

*Einar skálaglamm:* Grandvarr geymir brúna-grundar silkis-síma[1] kom und sik sjau fylkjum; þat var landi snúnaðr[2].

1) mk., Hákon jarl; hann er hèr kendr við búníng sinn, silki-hlað, er tignir menn höfðu um höfuð sèr. 2) gipta, hamingja.

## Bls. 91, 2.

*Sami:* **Enn svinni[1] lèt senn of herjoð hofsland Einriða[2] ok öll sönn banda ve[3], hverjum mönnum kunn: áðr geira garðs Hlóriði[4], þeim goð stýra, farði[5] úr[6]-jötna valfalls vitni[7] of allan sjó.**

1) nl. Haraldr gráfeldr. 2) þórs. 3) helgistaðr goðanna. 4) hermk., Hákon jarl; *geira garðr*, skjöldr, h. *Hlóriði* (þór), mk. 5) þannig Hk. þ. e. flutti. 6) þannig Skb. E. Hk. 7) skip sitt; *úrjötnar* (*A vejötnar*, kannske sama), hinir elztu jötnar, Hrímþursar, þeirra *valfall* (bani), ýmisblóð, sjór, h. *vitnir* (vargr), skip.

## Bls. 91, 3.

*Sami:* **Nú liggr allt fyrir norðan Vík und jarli; ríki Hákonar, ímunborðs veðrgœðis[1], stendr víða.**

1) hermk.; *ímunborð*, skjöldr, h. *veðr*, bardagi, h. *gœðir*, hermaðr.

## Bls. 92.

*Glúmr Geirason:* **Hálf auðván fèllumk[1], þá er hjördrífa[2] brá lífi hilmis: dauði Haralds[3] rèðat[4] oss til auðar[5]. En ek veit, at hvaðartveggi[6] hans bróðir hefir heitit mèr góðu; seggfjöld[7] getr sjá þar til sælu.**

1) brást mèr. 2) orusta. 3) gráfelds. 4) varð ei. 5) lukku. 6) hvurtveggi. 7) margir menn.

## Bls. 94, 1.

*Einar skálaglamm:* **Hitt var meir[1], er morðfíkinn[2] Mœra fólkverjandi[3] lèt um görva för fyrva[4] norðan til Sogns. Freyr Hèðins byrjar[5] ýtti allri yrþjóð[6] af fjórum fólklöndum; Ullr branda[7] sá stoð[8] af því.**

1) enn fremr. 2) hergjarn. 3) verjandi Mæra fylkis, Hákon jarl. 4) mannför, þ. e. leiðángr. 5) hermk., Hákon. 6) (ekki *ýrþjóð*) s. s. *verþjóð*, menn. 7) mk., hann (Hákon). 8) styrk.

## Bls. 94, 2.

*Sami:* **Allr Noregr glumdi, þá er Ullar Hèðins veggjar[1] fóro saman (til) eggþínga[2]; gnótt nás flaut**

**fyrir nesjum. Ok sjau landrekar[3] þorðo[4] fram[5] til móts með randa svarfa[6] svörgœli[7] á mjúkhurðum Meita[8].**

1) hermk., *Héðins veggr*, skjöldr. 2) orustu. 3) jarlar. 4) s. s. þurðu þ. e. þustu. 5) þannig Hk. 6) þannig Hk. 7) hermk., Hákon jarl; *randa svarf*, bardagi, h. *svörr* (fugl), hrafn, h. *gœlir, sá sem gleðr hræfuglinn.* 8) *Meita* (sjokonungs) *hurð* er skjöldr, þá er *á* s. s. með.

## Bls. 95, 1.

***Sami:* Gramr[1] varð fyrir víga myrði[2] við annan styr, en síðan gjörðist mest víðfrægt mannfall at morði[3]. Hlífarflagðs hlunnarfi[4] bað hverfa at landi, ok lagði öndurvörp jálks[5] við[6] öndvert fylki.**

1) nl. Ragnfreðr. 2) Hákon jarl. 3) í bardaganum. 4) hermk., Hákon jarl; *hlífar flagð*, öxi, h. *hlunnr*, skjöldr. h. *arfi* (jötun), hermaðr. 5) skildina; *jálkr*, Óðinn, h. *öndurvarp*, það sem hann bregðr fyrir sig, hans hlíf, skjöldr; hèr skiljast skjölduð skip. 6) þannig Hk.

## Bls. 95, 2.

***Sami:* Guðr[1] varð straung, áðr gunnar lunda[2] þröngvimeiðr[3] of[4] þryngvi[5] þrimr hundruðum und hramma náss gammi[6]. Fólkeflandi fángsæll[7] fylkir[8] knátti gánga þatan[9] at[10] höfðum hafs-bragna[11]; þat var hagnaðr.**

1) orustan. 2) hermanna. 3) sá sem rekr á flótta, nl. Hakon jarl. 4) þannig Hk. 5) þannig Hk., þ. e. þreyngði, ræki. 6) á hræfuglinum. 7) sigrsæll. 8) nl. Hákon. 9) þaðan. 10) þannig Hk., þ. e. á manna höfðum. 11) Ragnfreðar manna, sem komnir voru vestan um haf.

## Bls. 100.

***Hallarsteinn:* Vegmildr vörðr víðrar foldar[1] þá fóstr í Görðum; vellbjóðr[2], sá er gekk hæst manna, vann vísa dáðir. Þróttarela blikrøðr[3]! Ólafr rèð brátt allprútt brigðamiklum skipastóli, þeims[4] hann átti.**

1) konúngr, nl. Ólafr Tryggvason. 2) gulls bjóðr, mk. 3) maðr, *þróttar* (Óðins) *ela* (bardaga) *blik*, sverð; *røðr*, sá sem rjóðar. 4) þeim er.

## Bls. 101.

*Hallfreðr vandræðaskáld:* **Hilmir lèt hörð hræskóð[1] roðin blóði at Hólmi[2] ok austr í Görðum; hvat of dyldi höldar[3] þess?**

1) sverð; *skóð* er skaðaverkfæri, voði. 2) Borgundarholmi. 3) þannig Hk.; hví skyldu menn dylja þess?

## Bls. 105.

*Hallarsteinn:* **Vargholl r Ólafr rak allfljótt vestr mestan hernað allra jöfra, ok rèð brjóta Vinda borgir. Hrælinns hljómváttandi[1], sannfróðr svölnis dóms[2], mátti hverju sinni ráða sigri í rómu.**

1) hermk.; *hrælinns* (sverðs) *hljómr*, bardagi. 2) *svölnis* (Óðins) *dómr*, orusta.

## Bls. 122.

*Einar skálaglamm:* **Hitt var ok, er ørborðs eykir[1] runnu[2] norðan und svinnum sigrunni[3] sunnr á vit[4] Danmarkar. En Dofra drottinn[5], valdr hölda, of-faldinn hólmfjötrs hjálmi[6], of-sótti fund danskra jöfra.**

1) skip; *aurborð*, annað borð frá kjöl. 2) þannig Hk. 3) hermk.; *sig*, bardagi. 4) til að vitja. 5) Hákon jarl, kallaðr svo af bygð nokkurri í Noregi nálægt *Dofrafjalli*, sú bygð hèt Dofrar. 6) ægishjálmi, því *hólmfjötr* (eya band, sjór) er s. s. ægir; faldinn ægishjálmi heitir sá, er öllum stendr ótti af.

## Bls. 123, 1.

*Sami:* **Ok fèmildr konúngr[1] vildi at-freista þess myrk[2]-markar hlóðynjar álfs[3], er kom norðan, við morðfrost[4]: þá er gramr[1] bað stirðan[5] valserkjar veðrhirði[6] varða[7] virki[8] fyrir Hagbarða-hurðar hlunnnjörðum[9].**

1) Haraldr Gormsson. 2) þannig Hk. 3) Hákonar jarls; *myrkmarkar* (skógar) *hlóðyn* (land), Noregr, h. *álfr*, Noregs ráðandi. 4) í bardaga. 5) harðan, hraustan. 6) í staðinn fyrir *valveðr* (orustu) *-serkjar* (brynju) *hirði*, hermk., Hákon jarl. 7) verja. 8) Danavirki. 9) hermönnum; *Hagbarða* (sjokonungs) *-hurðar* (skjaldar) *hlunnr*, sverð.

## Bls. 123, 2.

*Sami:* Var-at gengiligt[1] at gánga í gegn her[2] þeirra[3], þó at geirrásar garðröknir[4] gjörði harðan styr: þá er gunnviðurr[5] fór sunnan með fylki Frísa, Frakka ok Vinda; vágs blakkriði[6] kvaddi vígs[7].

1) árenniligt. 2) þannig Hk. 3) nl. Norðmanna. 4) hermk., keisari Otto; *geirrásar* (skotspjota) *garðr*, skjöldr; *röknir s. s. rögnir*, Óðinn. 5) hermk., Ottó. 6) mk., Ottó; sá sem riðr sjóar hesti (skipi). 7) eggjaði til orustu.

## Bls. 124.

*Sami:* Þrymr þriðja logs[1] varð[2], er odda[3] leikmiðjúngar[4] lögðu saman randir; arngreddir[5] varð andvígr. Sækiþróttr sundfaxa[6] kom Söxum á flótta; þar er svá, at gramr[7] með gumnum varði óþjóðum garð.

1) *þriðja* (Óðins) *log*, sverð, þ. *þrymr*, bardagi. 2) þann. Hk. 3) þann. Hk. 4) hermenn. 5) hermk., sá sem gerir örninn grátugan, hér Hákon jarl. 6) mk., Hákon; *sundfaxi*, sjóar hestr, *skip*, *sækiþróttr*, sá sem sækir. 7) hér Hákon jarl.

## Bls. 125.

*Hallfreðr:* Vegrimmr[1] allvaldr lèt endr Jamta ok Vinda kindir falla í styr; hann vandist snimma á þat. Hjördjarfr hersa drottinn var hættr Gota fjörvi; ek frá gullskerði[2] gjörðo geirþey[3] á Skáneyju.

1) hernaðargjarn, af *ve*, grið, eða grimmr við heiðna helgistaði (*ve*). 2) mk., Ólafr konúngr. 3) bardaga.

## Bls. 130.

*Sami:* Hleypimeiðr hlunnviggja[1] hjó böðserkjar birki[2] barklaust[3] í Danmörku fyrir sunnan Heiðaby.

1) mk., sá sem ræðr herskipum, hér Ól. Tryggvason. 2) hermenn, af *böðserkr*, brynja, *birki*, trè. 3) þ. e. svo að þeir urðu hlífarlausir.

## Bls. 131.

*Einar Skálaglamm:* Fellinjörðr flótta[1] gekk til fréttar á velli; draugr Hèðins váða[2] gat dagráð dólga sagu[3]; ok hildar haldboði[4] sá ramma hrægamma[5], sá týr týra[6] teinlaugtar[7] vildi[8] fjör Gauta.

1) hermk., sá sem fellir (leggr að velli) flýandi óvini, hèr Hákon jarl. 2) hermk. 3) *dagráð*, (hæfiligr og heillavænligr tími), *dólga sagu* (*til bardaga*); *dólga saga* (ekki *sága*), orusta, eins og *dólga senna.* 4) hermk., hann Hákon. 5) hrafna. 6) gizkað; allar bækr, sem eg hefi sèð, hafa hèr *týna.* 7) í staðinn fyrir *týr týra lautar teins*, mk. *s. s. sverða týr*, af *týra* (sverða) *lautar* (skjaldar) *teinn*, sverð. 8) nfl. hafa.

## Bls. 132.

*Sami:* Jarl háði þíng hjörlautar hyrjar[1], þars[2] aungr maðr síðan[3] kom und sörva skýranni[4] at herja. Maðr bar-a randir, lýngs-barða loptvarðaðar[5], enn lengra frá seá; gramr vann um-gengit allt Gautland.

1) sverðs þíng, orusta; *hjörlaut*, skjöldr, h. *hyrr*, sverð. 2) þar er. 3) síðr. 4) undir skildi; *sörva* (sjókonúngs) *skýran* (*himin*), skjöldr. 5) gull-lagðar; *lýngs barði* (fiskr), ormr, h. *lopt*, gull; *varðaðr*, *s. s. varinn*, umkríngðr.

## Bls. 133.

*Hallfreðr*: Tiggi, sonr Tryggva, lèt tíðhöggvit ljótvaxin hræ Saxa fur styggvan leiknar hest[1], á lesti[2]. Vinhróðigr[3] vísi gaf víða blökku kveldriðu stóði[4] at drekka brúnt blóð margra Frísa.

1) úlf, af *leikn*, tröllkona. 2) að síðustu. 3) vinsæll. 4) úlfum, af *kveldriða*, tröllkona.

## Bls. 134.

*Sami:* Ríkr lægir rógs rekka[1] brá líki valkera[2]; herstefnir[3] lèt goldit hröfnum hold Flæmíngja.

1) konúngr, sá sem drepr niðr óeirðar seggjum. 2) sverðslíðrunum, þ. e. brá sverði; *valkeri*, sverð, þ. *líki* (hamr) slíðrar. 3) herforingi.

## Bls. 143, 1.

*Hallarsteinn:* Hermörg snekkju borð hildíngs, hála torgut[1], runnu síðan öll senn or Görðum und mildum gram. Aldyggr Ólafr, arfi Tryggva, rèð herjat Vestrlönd, ok klauf virða kindir stálum.

1) fagrliga skjölduð.

Bls. 143, 2.

*Sami:* Blóðugr brandr bragníngs þjóðar gall á Englandi; ek frá oddrjóð[1] valda aldrspelli[2] enskra lýða.

1) hermk. 2) aldrtjóni.

Bls. 143, 3.

*Sami:* Skjaldfróðr[1] of[2]-nam rjóða Skotland sköfnum[3] brandi; ódeigr oddr beit feiga Skota; úlfar söddust.

1) sá sem kann að fara með skjöld, hermaðr. 2) þannig Rekstefja. 3) fögrum.

Bls. 144, 1.

*Sami:* Ókvíðinn Ullar kjóla elfreyr[1] rèð síðan ugglaust endr brendar fíkula[2] Íra bygðir víða.

1) hermk., *sjá bls.* 50, 2, *skgr.* 2. 2) ákafliga.

Bls. 144, 1.

*Hallfreðr vandræðaskáld:* Úngr ofvægr[1] konúngr gjörðist bægja við Engla; nærir naddskúrar[2] rèð því morði Norðimbra. Ógnblíðr úlfa greddir[3] eyddi Skotum víða; skerðir seims[4] gjörði sverðleik í Mön með sverði.

1) óvæginn, eða harðr viðreignar. 2) hermk., *naddskúr,* orusta. 3) hermk., *sjá bls.* 124, *skgr.* 5. 4) gulls, mk.

Bls. 144, 3.

*Sami:* Ægir ýdrauga[1] lèt eyverskan her[2] ok Íra deyja; týr dýra[3] fjörva[4] var tírargjarn. Tiggi barði byggendr brezkrar jarðar, ok hjó valskar þjóðir; gráðr[5] þvarr gjóði geira-hríðar[6].

1) hermk., *sjá bls.* 39. *skgr.* 2. 2) innbúar Orkneya og Suðreya. 3) ss. dýrra. 4) sverða, mk. 5) græðgi. 6) hræfuglinum, *bls.* 25, 2, *skgr.* 3.

Bls. 161.

*Bjarni biskup:* Styrkir rjóðendr dreyrgra darra[1] hèldu síðan skipum til Danmarkar; þeim gafst rausn ok ríki. Ok ógnrakkir andbrotar[2] drukku þar erfi feðra sinna; ek frá þeim ýmsum aukast annir.

1) skotspjóta, hermk., nl. Jomsvíkingar. 2) mk.

### Bls. 162.

*Sami*: En einkum vildu þá öldurmenn[1] leita síns ágætis, at skyldu[2]; slíkt ero yrkisefni; ok gátu hauk-ligast[3] hefja heitstrengíngar; ek frá, at[4] ölteiti ýta var eigi lítil.

1) höfðíngjar. 2) sem þeim bar. 3) hraustligast. 4) þannig Fm. S. 11, 166.

### Bls. 163.

*Sami:* Ek frá heiptmildan Sigvalda hefja heitstreng-íng; órækinn[1] Búi var örr at auka slíkan styr. Þeir hètust fíkjum[2] reka Hákon af hauðri, eða ræna lífi; fjón[3] fræknra furða[4] var gram[5].

1) sem ei verðr rekinn á flótta. 2) ákafliga. 3) hatr. 4) *fyrða*, manna. 5) ss. gröm.

### Bls. 164, 1.

*Þorkell Gíslason:* Báru sverð ok herklæði á vali víka[1]; ek frá þeim seggjum líka vel snerreiði[2].

1) á skipin. 2) ss. snarræði.

### Bls. 164, 2.

*Þórðr Kolbeinsson:* Ok sannliga fóru stór-hersögur of stála meiða[1] vítt sunnan; ítrir bændr sást[2] stríð. Sveiða-vángs viggmeiðr[3] frá súðlaungum Dana skeiðum sunnr of þrúngit á vatn af drögnum[4] hlunni.

1) hermk., um Jómsvíkinga. 2) óttuðust. 3) hermk., líkl. Eiríkr jarl: *sveiða* (sjokonungs) *vángr*, sjór, h. *vigg*, skip. 4) ss. *dregnum*, þ. e. máðum, slitnum.

### Bls. 165, 1.

*Sami:* Skjaldhlynr[1] lèt mjök margar snekkjur ok knörru ok skeiðar dynja á brim; mærðar örr óðr skálds vex; mörg lind[2] var fyrir landi, [þá er ólítill oddherðir[3] fat[4] gerða[5] utan land síns föður random[6].

1) hermk., Eiríkr jarl. 2) skjöldr. 3) hermk. 4) ss. rèð. 5) umkríngja. 6) skjöldum; *frá* [ *er tekið úr Fagrskinnu, því sum orðatiltæki í Fm. S. og Hk. á þessum stað þykja framkomin af misskilníngi og leiðrèttíngum skrifaranna.*

### Bls. 165, 2.

*Þorkell Gíslason:* Harða[1] hvast hregg[2] knúði á hefils[3] völlum[4], marir barða[5] hljópu á humra fjöllum[6]. Blá hrönnu þvó[7] hlýrum[8]: hin svið kalda uðr[9] hraut af brimdýrum[10]: æst alda skaut kili.

1) mjög. 2) stormr. 3) stendr hér í staðinn fyrir *hefils*, af *hefilr*, sjókonungr. 4) á sjónum; eða *pöllum*, á skipunum. 5) skipin, af *mar*, hestr, *barð* (á skipum, likt og kempr á kinnungum bakumegin stefnis). 6) öldunum, af *humar*, stór krabbi. 7) þvoði. 8) kinnungum. 9) alda. 10) skipum.

### Bls. 165, 3.

*Sami:* Rökn rasta[1] báru geðfasta rekka til ræsis[2] landa; þröng at randa rym[3]. Víðr Noregr nam við mörgum skipstöfnum; vopn eru grimm törgum[4]; hröfnum gafst[5] nýtt[5] nest.

1) skip, af *röst*, straumr, og *rökn*, dýr. 2) Hákonar jarls. 3) það leið að bardaganum. 4) skjöldum. 5) þannig B.

### Bls. 166.

*Bjarni biskup:* Reynendr rauðra randa[1] segja, at Jómsvíkíngar kvæmi flota sínum at Jaðri jólanótt. Fírar voro heldr gjarnir á harðan hernat; rjóðendr raudorma[2] buðu Geirmundi ríki[3].

1) menn. 2) sverða, hermk. 3) ofriki.

### Bls. 167.

*Þórðr Kolbeinsson:* Ógnfróðr jarl, sá er atti hrefnis stóði[1] hót[2] á lög, setti háfa[3] stafna á móti Sigvalda. Margr hlumr skálf; en huggendr[3] sárgamms[4], þeir er gátu slíta seá árablöðum, ugðu hvergi bana.

1) skipum, af *hrefni*, fimta umfar frá kjöl. 2) þ. e. hatt, langt út. 3) þannig Hk. 4) hrafns, hermk,

### Bls. 169.

*Bjarni biskup:* Þeir Noregs jarlar buðu þá þeim greppum, er sunnan kvæmi at móti, gerla til geirhríðar[1]. Þar var mestr landherr fundinn saman á skömmu mæli[2]; margr morðremmandi[3] var at laufa leiki[4].

1) bardaga. 2) mali, tima. 3) hermaðr. 4) orustu.

Bls. 170, 1.

*Sami:* Ok menn heyra, at þrír hraustir höfðíngjar voru með hvárum flokki: þjóð hefir þat í minnum: þar er hjálmaskóðs hreggviðir[1] hittust á víðum Hjörúnga vági; sá fundr fyrða var frægr.

1) hermk., *hjálma skóð*, sverð, þ. *hregg*, bardagi.

Bls. 170, 2.

*Þórðr Kolbeinsson:* Leiðángr rendi lángt með landi, en glæheims mævar[1] skriðu at gunni í gegn Dana skeiðum, þær er jarl hrauð flestar á Mœri und árum ærins gulls[2]; barms vigg[3] rak und vörmum[4] valkesti.

1) skipin, af *glæheimr*, sjór, *mær*, ss. *már*. mafr. 2) mk., *árr gulls*. 3) skip, af *barmr*, borðstokkr, og *vigg*, eykr. 4) þann. Hk.

Bls. 171, 1.

*Þorkell Gíslason:* Herr bar hátt merki: grimt eggja el kom á Hamðis serki[1]; lið seggja gekk at. Grjót ok skotbroddar meiddu fjör flotna, flest hlíf varð brotna; gráir oddar glumdu.

1) herklæði, brynjur.

Bls. 171, 2.

*Sami:* Bæði höfuð ok hendr manna hrutu fyrir borð; herklæði brustu; vargr nam kanna hræ.

Bls. 171, 3.

*Bjarni biskup:* [Ólmr Gullbúi[1] klauf hjálma með yggjar eldi[2]; hann lèt hríngserkja böl[3] gánga niðr í herðar. Hávarðr rèð at stœra hart högg liði fyrða; Áslákr hefir verit fíkjum[4] illr at eiga viðr.

1) þannig Fm. S. 11, 170; *álmr gall* spillir bragarhættinum. 2) sverði. 3) sverð. 4) mjög.

Bls. 172, 1.

*Sami:* Vagn hefir orðit örfengr[1] ýtum at strángri böð; drengir gengu vel fram með fræknum fullhuga; þars ek frá at hann Ákasonr hinn ríki hlœði[2] brátt hugprúðum Armóði í yggjar eli[3].

1) harðfeingr. 2) felldi. 3) orustu.

Bls. 172, 2.

*Þorkell Gíslason:* Herr neytti handa; branda hríð var snörp; randa fár[1] var fúst til fjörnis[2] landa. Fleinbörvar féllu, örvar flugu af streng; hjörvar súngu hátt við gjörvar[3] hlífar.

1) sverðið. 2) þannig B, C; *fjörnis* (hjálms) *land*, höfuð. 3) sterkar.

Bls. 173, 1.

*Tindr Hallkelsson:* Sæng[1], sem gims gerðr[2] gjörði jarli (með) herða bjúglimum[3], varða farlig[4]; gnýr fjölnis fura[5] vóx: þá er viðurr[6] brynju varð at kasta hríngfám[7] hánga hrynserk[8]; róða-rastar ríðmarar[9] hruðust.

1) saumr, sú saumaða brynja. 2) kvk., af *gim*, eldr. 3) *bjúgir limir* (*herðanna*, handleggir, hendr. 4) fallig. 5) gnýr sverða, bardagi. 6) þannig Hk., hermk., Hákon jarl. 7) þannig Hk. 8) brynju, hrínglandi serk *Hánga* (Óðins). 9) skipin, *róða* (sjókonúngs) *rastar* (vegar, sjóar) *ríðmarar* (veltandi hestar).

Bls. 173, 2.

*Sami:* Þars[1] hríngofinn sörla serk[2] blès[3] í sundr fyrir jarli á sandi; seggja sessi[4] hefir merki þess.

1) þannig Hk. 2) brynju. 3) þannig Hk. 4) Hákon jarl.

Bls. 173, 3.

*Þorkell Gíslason:* Hræss haukar[1] gullu; hvassir benlaukar[2] skýfðu[3] leggi liðs; grjót lamdi seggi. Gráir málmar gnustu í fjörnis stöllum[4], hjálmar gengu sundr; en hauks fjöllum[5] var-at friðr.

1) hrafnar. 2) sverð. 3) skáru sundr. 4) höfðum. 5) *hauks fjöll*, hendr og axlir.

Bls. 174.

*Bjarni biskup:* Herr ægsti[1] darra gný[2]. Ek frá hölda hvarvetna hrökkva fur gunnar-rekkum[3] hjörva hreggviðum[4]: áðr Hákon, ýtum grimmr, tæki at blóta syni í örva drífu; en harða heipt kom fram.

1) lèt vaxa. 2) bardagann. 3) s. s. *rökkum*, þ. e. vopndjörfum. 4) hermönnum.

Bls. 175, 1.

*Þorkell Gíslason:* Ek frá Búa gánga greitt gegnum lið þeirra: geira göll[1] var vökt; hánga svanr[2] gladdist.

1) spjóta hljómr, bardagi. 2) hræfuglinn; *húngi*, sá sem hángir, eða er heingðr.

Bls. 175, 2.

*Bjarni biskup:* Ek frá þá hit illa el Hölga brúðar æðast or norðri; harða[1] grimt hagl glumdi á hjálmum: þars skýja grjóti[2], hreggi keyrðu, barði í ormfráu[3] augu ýtum; því náði ben blása[4].

1) s. s. harla. 2) hagli. 3) snör og hörð, sem í höggormi. 4) þessvegna þaut í undinni.

Bls. 175, 3.

*Þorkell Gíslason:* Hvert hagl vá[1] eyri; dreyri hraut á lög or sárum bragna; blóð þvó[2] árum bens[3]. Valr fèll þar víða; (menn) sá gyld[4] vè[5] ríða[6]; sveit barðist snarla á snekkjum jarla.

1) vóg. 2) þvoði. 3) sverðunum. 4) gullbúin. 5) merki, hermerki. 6) fara óðfluga.

Bls. 176, 1.

*Sami:* Hit forljóta flagð rèð skjóta snörpum örum af fíngrum sèr; slíkt er raun görpum. Hregg ok loptdrífa gerðist fíkjum[1] grimt at ríkjum[2] gumnum: hlífa gnýrr var hár.

1) ákafliga. 2) s. s. *ríkum*, voldugum.

Bls. 176, 2.

*Bjarni biskup:* Þá var þrekförluðum jarli þörfum meiri hugraun; ek frá, at hann hèldi braut flota sínum. Sigvaldi bað snara segl við húna í köldum byr[1]; hrönn[2] glumdi á húfum[3]; hríð fell í bug váða[4].

1) þann. Fm. S. 11, 172. 2) bylgja. 3) suðunum. 4) voða, segla.

Bls. 177.

*Sami:* Þar lèt vegrækinn[1] Vígfús helfarar[2] verða veittar Ásláki; er-at þörf at segja þann þátt[3]. Höggrammr Þorleifr of vann brotit þrekstærðum Hávarði þykkva leggi; hann vá hart með kylfu.

1) virðíngagjarn. 2) bana. 3) þá sögu.

Bls. 178.

*Þorkell Gíslason:* Enn þrekmesti gæðir gunnskára[1]

steig fyrir húf[2] hrófs hesti[3]; naðr sára[4] gladdist. Bens[5] bára kom niðr; frækn Búi nam kistu í hvára hönd sèr; hykk ferð[6] mistu[7] friðar.

1) hermk., gunnskári (orustu máfr), hrafn. 2) borð. 3) á skipinu. 4) hræfuglinn. 5) gizkað; þ. e. blóð. 6) hygg eg menn. 7) hafa mist.

## Bls. 179, 1.

*Bjarni biskup:* Ek frá víst, at Vagn verði skeið með sína þegna; þá voru hroðin öll önnur skip þeirra. þengils maðr náði þar þeygi at gánga upp; þeir rèðu at keyra ýgja[1] Eiríks menn ofan.

1) óttaliga.

## Bls. 179, 2.

*þorkell Gíslason:* Vagn felldi virða; en hvassleiti hrafn valdi of stirða nái; sveiti hrundi á borð. þá rèð Eiríkr dála hrjóða skip þess unnglóða eyðis[1]; þrymr stála var hár.

1) mk., nl. *Vagns.*

## Bls. 180.

*Bjarni biskup:* Eiríkr lèt þar átjan þegar týna öndu; frágum þá þegna lið heldr þverra fyrir Vagni. Hraustar hetjur mæltu þróttar orð[1] með fyrðum (þat var fíkjum haukligt[2]), þau hafa þjóðir uppi.

1) hreystiyrði. 2) mjög hraustligt.

## Bls. 181, 1.

*Sami:* Ok þorketill leira fór með fjörnis fálu[1], þá er menbroti[2] mælti mansaung[3] um hrínga gná[4]. Hann gjörðist at höggva hauklyndan son Áka; heiptörr Vagn gat heldr vegit furri at hánum.

1) öxi, tröllkonu hjálms. 2) mk. 3) ástarorð. 4) kvk.

## Bls. 181, 2.

*Sami:* Hyggjugegn hrínga hreytir kvað at[1] Vagni: yggjar elsvellandi[2], viltu of þiggja yðvart líf? Ullr egghríðar[3] kvað svá at[1] jarli: eigi mun ek þiggja fjör, nema (ek) efna þat heit, er nam strengja úngr.

1) sagði til. 2) hermk. 3) hermk.

**Bls. 182.**

*Sami:* Örr Eiríkr lèt gefit grið ok aura 12 stórum þegnum með Vagni; þjóðir leyfa[1] þat mjök.

1) lofa.

**Bls. 183, 1.**

*Tindr Hallkelsson:* Hugins ferðar verðbjóðr[1] vann leggja sverðs eggja spor[2] á Vinda sinni[3] (seilar sólgagarr[4] beit), áðr hjörmeiðar mætti hrjóða hálfan þriðja tög lángra skipa leiðar[5] liðs; þat var hætting[6].

1) hermk., Hákon jarl; sá sem býðr hrafna flokkum verð. 2) sár. 3) herliði. 4) sverðið, af *seil*, skjaldarband, þ. *sól*, skjöldr, h. *gagarr* (hundr), sverð. 5) leiðángrs. 6) hætta.

**Bls. 183, 2.**

*Bjarni biskup:* Örlyndr Ullr randa þrymu[1] gekk þá at eiga mæta Íngibjörgu; margir menn fýstu þess.

1) hermk., *Vagn.*

**Bls. 187.**

*Einar Skálaglamm:* Hvar viti öld, hjarl ok[1] sextán jarla liggja svá und einum jarðbyggvi[2]? þat skyli herr[3] of hugsa.

1) þ. Hk. 2) þ. Hk.; þ. e. höfðíngja. 3) landsfólk.

**Bls. 194.**

*Þorbjörn hornklofi:* Margspakr menfergir[1] bar margar randir[2] í sandmens bý[3] (lundr[4] niðar varga[5] vann sókn á sandi), áðr allr herr lögðis læbrautar seiðs[6] varð flæja[7] af láti fyrir[8] eljunprúðum[9] Skota þverri[10].

1) eyðir gulls, mk., Haraldr hárfagri. 2) skjöldu. 3) sjóarbygð, nl. Mön. 4) þ. Hk. 5) lundr skipa, mk., konúngrinn. 6) *herr lögðis* (sverðs) *læbrautar* (— hættuligs (háls) vegar, skjaldar), *seiðs* (— saungs, bardaga), herfólk. 7) flýa. 8) þ. Hk. 9) þrautgóðum, fræknum; hèr við mætti líka taka saman *lögðis læbrautar seiðs.* 10) óvini Skota, Haraldi konúngi.

**Bls. 197.**

*Torfeinar:* Margr seggr með fögru skeggi verðr sekr um sauði[1], en ek at falli úngs allvalds sonar í[2]

eyjum. Höldar segja mèr hætt við hugfullan stilli; hefik höggvit skarð í skildi Haralds: skal-at[3] ugga þat.

1) fyrir sauðatöku. 2) þann. Hk. 3) þann. Hk.

### Bls. 218.

*Þorleifr Rauðfeldarson* (*jarlsskáld*): Hákon! vitum hvergi þèr fremra jarl und mána ferli; ránar fólkrunnr[1] hefir hafizt af gunni.

1) hermk., Hákon jarl, af *ránar fólk*, sjóorusta; eða *fólk*-(orustu) *runnr hefir hafizt af ránar gunni* (sjóorustu, Jómsvíkinga bardaga), þann. J. Ólafsson í *Nordens gamle Digtekonst. bls.* 163.

### Bls. 224.

*Þórðr Kolbeinsson:* Rennir meinvarga[1]! ljóða læ[2] brá litlu síðar æfi Hákonar; sköp fýsa margs. En, þá er herr fór vestan, hygg ek son Tryggva komu til þess lands, er lindar láðstafr[3] hafði vegit[4].

1) sem rekr óaldarflokka úr landi, Eiríkr jarl, er sigraði Jómsvíkinga. 2) svik landsmanna. 3) hermaðr, af *lindar* (sverðs) *láð* (-land, skjöldr), nl. Hákon jarl. 4) unnið með hernaði.

### Bls. 232.

*Sami:* Eiríkr hafði meira í hug sèr við[1] særi auðs[2], en upp of kvæði[3]; slíks var ván at hánum. Reiðr þrænskr jarl sótti sænskan gram at ráðum; því rann eingi manna. Þrændum gafst þrályndi.

1) móti. 2) mk., Ólaf Tryggvason. 3) en hann gerði uppskátt.

### Bls. 267.

*Þorvaldr Koðránsson:* Ek fór með enn dýra dóm[1]; engi drengr hlýddi mèr; gátum varliga[2] góðan hróðr frá hríngs hreyti[3]. En aldin[4] rygr[5] gall við[6] skáldi með enga svinnu of[7] heiðnum stalli[8]; guð greypi[9] þá gyðju[10].

1) nl. kristniboðið. 2) valla. 3) mk., nl. Skeggja Þórarinssyni. 4) gömul. 5) kona, þ. e. Friðgerðr. 6) kallaði, sendi mer tóninn. 7) þann. Húngrv., þ. e. hjá. 8) blótstalli, altari eða bekkr í hofum heiðingja. 9) leiki hart, hegni henni. 10) hofgyðju.

### Bls. 283.

*Hallarsteinn:* Fèmildr fylkir vildi láta brenna firna mörg blóthús ok hörga[1]; hann bað meiða heiðin goð. Síðan kendi siðvandr herlundr[2] góða trú sannfróðum hölda kindum[3]; hann er ríkstr konúngmanna.

1) blótstaði. 2) mk., eða s. s. *herlundaðr*, hergjarn. 3) sonum, þ. e. mönnum.

### Bls. 286.

Nú hefir fjallrænt felliveðr brotit allan stafnvalinn[1] Stefnis; straumr af fjalli ferr um hol knerri. Á geisar með ísi: ek kveð heldr víst, at ásríki[2] valdi slíkum gný; bönd[3] munu vera í landi.

1) skipið. 2) máttr goðanna. 3) goðin.

## ANNAD BINDI.

### Bls. 9.

*Hallfredr vandræðaskáld:* Reiði allheiðins sannargs sökkvis margra troga[1] verðr mèr svá nökku[2] ægilig[3] fyrir augum, sem úlítill gamall búrhundr stúri[4] úti, alls mest[5] við för gesta; ek stæri brag fyrir búri[6].

1) ill mk., sá sem leggr trog í bleyti. 2) nokkuð, nokkut. 3) þannig Flat. 4) gjammi. 5) einkanliga. 6) fyrir framan dýngjuna.

### Bls. 17, 1.

*Sami:* Færum festar vorar! særoka ferr at knerri. Svörð[1] tekr heldr at herða. Hvar er Akkerisfrakki?

1) streingr ur rostungshuðum.

### Bls. 17, 2.

*Ólafr Tryggvason:* Ek fèkk enn[1] dreng í grænni ólpu til strengja, þann er hnykkir hnakkmiðum[2]. Hèr er Akkerisfrakki.

1) einn. 2) akkeris dublum.

### Bls. 40.

*Hallfreðr vandræðaskáld:* Ek hlaut þann guðföður,

er var vorðinn einna æðstr manna norðr und Norðra niðbyrði[1]; ek sanna þat.

1) undir norðr-heimsskauti, á Norðrlöndum; *Norðra niðr*, dvergr, h. *byrðr*, himin.

Bls. 52, 1.

*Sami:* Ek veit, at viðlendr konúngr sendi vísu-skreyti[1] nökðan[2] brand[3]; nú ák[4] dýra Sýrar mey[5] at[6] nökkvi[7]. Hjölt verða skrautlig fyrir skavlkvíngs[8] herði[9], þá ek skjálga[10] konúngs nauti[11]; höfum framdan[12] kera[13], gramr.

1) mér, skáldinu. 2) nakinn. 3) sverð. 4) á eg. 5) hnoss, gersemi, grip. 6) getg. 7) að nokkuru leiti. 8) sverðs. 9) mk., þ. e. *mér*. 10) veisa. 11) sverðinu, er konúngr gaf mér. 12) framm réttan, eða prýddan, fallegan. 13) brand, sverðblað.

Bls. 52, 2.

*Sami:* Hitt var fyrr, er ek gat vel blóta sjálfan geðskjótan Hliðskjálfar harra[1]; skipt[2] er á giptu gumna[3].

1) Óðin. 2) umskipti. 3) manna.

Bls. 52, 3.

*Sami:* Öll átt aldar[1] hefir skipat ljóðum[2] til hylli Óðins; ek man allgilda iðju várra niðja[3]. En, þvíat vald Viðris[4] hugnaðist skáldi vel, legg ek trauðr fjón[5] á frumver Friggjar[6], þvíat þjónum Kristi.

1) allir menn. 2) kveðit. 3) forfeðra. 4) Óðins. 5) hatr. 6) Oðin.

Bls. 53, 1.

*Sami:* Hölda reifnir[1]! höfnum goða nafni Hrafn-blóts[2], þess er öl[3] lóm[4] í heiðnum dómi við lof lýta.

1) konúngr, sem reifir menn þína gjöfum! 2) Óðins. 3) öl. 4) svik.

Bls. 53, 2.

*Sami:* Freyr ok Freyja, ok enn rammi Þórr við Grimni[1], skyli[2] mèr gröm; ek læt fjarð[3] aðul[4] Njarðar; líknist gramr! Ek vil kveðja Krist einn ok guð allrar ástar; reiði sonar erumk[5] leið: (hann) á frægt vald foldar und feðr.

1) með Óðni. 2) nfl. *vera*, séu. 3) eg firrist, hafna. 4) börn, þann. Hallfreðar þáttr. 5) er mèr.

**Bls. 53, 3.**

*Sami:* Sás[1] siðr með Sygna ræsi[2], at blót eru kviðjut[3]; verðum at forðast flest fornhaldin skaup[4] Norna. Allir ýtar láta ætt Óðins[5] fyrir-roða[6]; ek verð neyddr at biðja Krist, frá Njarðar niðjum[7].

1) sá er. 2) Noregskonúngi. 3) bönnuð. 4) hègóma. 5) Æsi og átrúnað þeirra. 6) slá hendinni af, yfirgefa hana. 7) en sleppa Frey og Freyu.

**Bls. 56.**

*Sami:* Eitt er þat sverð sverða, er gerði mik sverðauðgan; nú mun verða sverðótt fyrir sverða svipnjörðum[1]; mun-at verða vansverðat, ef jarðarmens[2] umgjörð yrði at því sverði; ek em verðr þriggja sverða.

1) hermk. 2) steind, máluð.

**Bls. 83.**

*Sami:* Ek ól þar hrafnvíns[1] hyrjar[2] njót[3] á mínu hvítu fè[4], en[5] aldri vildag væla[6] auðgildanda[7]. Ek vann, sem ek kunna, til góðs fyrir gunnmárs[8] grenni[9], en hjörva furskerðir[10] færði at mèr fjörtál.

1) bloðs. 2) — elds, sverðs. 3) mk., þ. e. Önund. 4) silfri. 5) getg. 6) vèla, svíkja. 7) mk., hann. 8) hrafns. 9) mk., hann Önund. 10) s. s. gullskerðir, mk.

**Bls. 86.**

*Sami:* Hnigbaldr baugs[1]! erum[2] svipt[3] at svegi sárlinns[4] hefk rekið svá hermila[5] harma minna í gný skjalda, at ek lèt lofhnugginn[6] Auðgíslbana[7] liggja dauðan í gunnar dyn[8] sunnr[9]; ekk[10] um hefnda okkar svá.

1) mk. 2) mèr er. 3) eptirsjá. 4) sverts, mk., þ. e. Auðgísli. 5) grimmliga. 6) lofi sviptan, ófrægan. 7) Önund. 8) bardaga. 9) fyrir sunnan, þ. e. á Gaulandi. 10) eg.

**Bls. 87.**

*Sami:* Ek brá hundgeðjaðum ölna[1] skeits[2] elda[3] stökkvi[4] undir: ek lagða hendr at hundi af reiði. Sá

hlakkar[5] skíða[6] els[7] sendir[8] stendr eigi síðan á vèlum fyrir þjóð; ek rauð Yggjar[9] ela[10] bál[11].

1) fiska. 2) sjóar. 3) gulls. 4) þ. e. manni, honum Önundi. 5) valkyrju. 6) sverða. 7) -drífu. 8) þ. e. maðr. 9) Óðins. 10) bardaga. 11) sverð.

Bls. 148.

*Bárðr upplenzki*: Hitt hugða ek, at ek hefða harðhendit þat[1] stundum, at ek skylda einn of halda skotskum skálpgrana[2].

1) tekið so fast á. 2) hirðmanni.

Bls. 181, 1.

*Nökkvamaðr*: Dökkr Ormr brunar at nökkva; minn hárr[1] errinn[2] hlýri[3] með stóra hyggju ok vinnr[4] stendr of fjarri. Ef værim hèr báðir tveir hárir bræðr, synir Harðráðs, þá nè[5] flæðim[6] við; snákr[7] skríðr, þar er brim blikir[8].

1) gráhærði. 2) vaski. 3) bróðir. 4) afrek. 5) ekki. 6) flýðum. 7) Ormrinn lángi. 8) er hvítt.

Bls. 181, 2.

*Sami:* Sextigi ára leika fyrir þèr einum á borði barðs[1] byrhreins[2]: fárr gramr mun fremri á foldu. Einn ok annarr[3] öldu sveipr[4] leikr í greipum mèr á borðs barða[5]: því verð ek, bæginn, vægja fyrir.

1) s. s. barðabs, sjá bls. 310. 2) skips. 3) þ. e. tvær. 4) árar. 5) nökkvanum.

Bls. 202.

Reynir randa ryðfjónar[1] suðr á landi[2] gat halda í sig[3] tölum[4] bænar smiðju[5] beðs[6] baldrs[7]. Hjaldrs snjallr siðreynir[8] lèt síðan[9] morðhamar[10] gjalla í hattar hauðrs[11] steðja Vetrliða skáldi.

1) sverðs. 2) þ. e. Vetrliði. 3) í taumi, stöð í móti. 4) ræðum. 5) kirkju. 6) þ. e. knèbeðs. 7) þ. Njál., þ. e. prestsins, þángbrands. 8) þángbr. prestr. 9) þ. Njál. 10) sverðið. 11) höfuðs.

Bls. 203, 1.

*Þorvaldr veili*: Ek mun senda úlfi Yggs bjálba[1],

syni Ugga, einhendis[2] boð (mèr er stygglaust við stála stýri), at hann fyrir reki[3] geitis[4] gný[5]-feta[6], argan guðs varg, þann er of regnir við[7] rögn[8], en ek annan.

1) (hjálfa) — brynju, mk. 2) gagngjört. 3) fyrirfari. 4) jötuns. 5) — máls, gulls. 6) mk. 7) stendr móti. 8) goðunum.

## Bls. 203, 2.

*Úlfr Uggason*: Ek tekkat[1] við tanna-hvarfs[2] hleypiskarfi[3] vea[4] fjarðar[5] harðbarðs[6]. Raung mál eru á gángi; ek sè við miklu meini. Erat[7] mínlíkt[8], ráfáka[9] ræki[10], gína at flugu[11].

1) tek ekki. 2) munns. 3) flugu. 4) guða. 5) skáldskapar. 6) Oðins, þ. e. skáldsins, þorvalds veila. 7) það er ekki. 8) mèr líkt, eptir mèr. 9) skipa. 10) mk. 11) að vera eggjunarfífl annara.

## Bls. 204.

*Steinunn*: þórr brá or stað laungu þvinnils[1] dýri[2] þángbrands, hristi ok beysti borð barðs[3], ok laust við jörðu. Skíð atals[4] grundar[5] mun-at síðan sundfært um seá, því at hart hregg, kent hânum[6], tók leggja[7] í spánu.

1) þ. Njál., þ. e. sjókonúngs. 2) skipi. 3) skipsins. 4) sjókonúngs. 5) þ. e. skipið. 6) þór. 7) nfl. *það*.

## Bls. 205.

*Sama:* Mellu[1] mög fellandi[2] braut allan móstalls[3] vísund[4] fyrir bjöllu gæti[5] bönd[6] ráku strandar val[7]. Kristr hlífði-t málfeta[8] varrar[9], þá er[10] kneyfði[11] knörr; ek hygg, at guð gætti gylfa hreins[12] at einu[13] lítt.

1) tröllkonu. 2) þór. 3) sjóar. 4) — uxa, skipið. 5) þángbrandi. 6) goðin. 7) skipið. 8) hesti. 9) — sjóar, skipinu. 10) þ. e. þór. 11) lesti. 12) skipsins. 13) einúngis, heldr.

## Bls. 248.

*Hallfreðr vandræðaskáld:* Varr lundr viggs[1] lautar[2] hefir hætt til sprunda. Ek hirði lítt, þótt ek verða höggvinn í höndum svarra, ef ek næða sofa lauss meðal arma slæðu karms[3] Sif[4]. Ek máttkat[5] bindast of ræktar[6] við ljósa lind[7].

1) skips. 2) — jarðar, sjóar, mk.; cg. 3) fatabúrs. 4) kk. 5) matti ekki. 6) ástar. 7) kk.

Bls. 249, 1.

*Sami:* Ást rennumst[1] til Ilma[2] unnar dags[3]. Ek veitkat[4] hitt, hvat Móða verglóðar[5] skal verða á munni, ef fjölgegnir fagnendr jötuns sagna[6] fregna, hvat mik teitir. Ek fló geitbelg af gyltar grísi.

1) rennr mér. 2) gyðja. 3) — gulls, þ. e. kvenna. 4) veit ekki. 5) — gulls, mk.; mér. 6) gulls, mk.

Bls. 249, 2.

*Sami:* Allar slèttfjallaðar[1] hirði-naumur sæfar báls[2] koma heim or seljum; góðr hams er á fljóðum. Nú sel ek af ábyrgð mína, þótt ölbekkjar Syn[3] ýfist nökkut; hverr seggr taki við sínum svarra.

1) hörundsmjúkar. 2) konur. 3) kk.

Bls. 250.

*Gríss Semíngsson:* Námskorð[1]! nú þikkir mèr vera orðinn nökkr sveimr[2], meðan ek var heiman; ek lít, hve[3] sumr mun sæta. Gestir hafa gerva hèr fjandsliga slaug[4]: kona gengr út þrútin, sjáligr svarri þerrir augu.

1) kk. 2) ófriðr. 3) hverju. 4) slag, þ. e. ágáng.

Bls. 258, 1.

*Hallarsteinn:* Hjaldr-ríkr hilmir sáði hafglóð[1], ok gaf skjaldu, vápn ok skikkjur: veitti stètt-hríngs[2] stöfum[3] stikka[4]. Stórráðr stillir fèkk steinda[5] knörru, en ekki[6] hæfði[7] mildi hildíngs[8]. Hann er ríkstr konúngmanna —

1) gulli. 2) gulls. 3) mk. 4) yrkisefni. 5) málaða. 6) ekkert. 7) jafnaðist við. 8) konúngs.

Bls. 258, 2.

*Sami:* Hirðmenn konúngs knáttu spenna gyld[1] horn hverja húns[2] nótt[3]; vísi, glaðr græðis meldrar[4], drakk þaðra[5]. Víðfrægr allvaldr tæði velja[6] vín sínum einkar mildum hirðmönnum. Ólafr und vegsólar —

1) gylt. 2) bjarnar. 3) þ. e. vetr. 4) gulls. 5) þar. 6) valdi.

## Bls. 259.

*Sami*: Móðþrútinn[1] morðlinns[2] hvessi-meiðr[3] bjó mörgu sinni úti á skeiðum[4]; húfr[5] svall[6], hrannir[7] fèllu. Gunnfíkinn[8] herruðr[9] lèt gylt hlýr[10] blikja[11] fjarri höfnum; skoltar[12] gnöptu[13]. — höll ok fremstr at öllu[14].

1) hugdjarfr. 2) sverðs. 3) eggjandi, hermk. 4) herskipum. 5) skips borðin. 6) þrútnuðu af vætu. 7) bárur. 8) hergjarn. 9) hermk. 10) kinnúnga. 11) skína. 12) dreka höfuðin. 13) göptu. 14) þetta vísuorð, svo og þau tvö síðustu í tveim næstundanfarandi vísum, eru stef í drápunni, *þau skal so upp taka: hann Ólafr er ríkstr konúngmanna ok fremstr at öllu und vegsólar* (vegligrar sólar) *hölt* (þ. e. himni).

## Bls. 274.

*Hallarsteinn*: Ek tel vinnr[1] tiggia. Gramr framdi tvær íþróttir senn, þær ek veit færi[2] gunnelds[3] geymirunna[4]. Hnigbaldr hvítra skjalda[5], frárr flestra dáða, lèk vandla handsöxum, ok gekk á árum, fleinrjóðr[6]!

1) íþróttir. 2) færri. 3) sverðs. 4) menn, nl. framið hafa. 5) hermk., konúngrinn. 6) mk.

## Bls. 275.

*Sami*: Viti menn, at ek frá tvenna konúngs hirðmeðr[1] vætki[2] valstafns[3] rofna[4] veðja manns haus (og) ljósum hríngi. Hvárr hjörva snyrtir[5] grams lèzt öðrum færri[6] í hamri. Styrremdr[7] stillir framdi hermart[8] stærra.

1) hirðmenn. 2) ekki. 3) handar, þann. Rekstefja. 4) þann. Rekst., þ. e. óknáa. 5) maðr. 6) færari. 7) öflugr í stríði. 8) mjög mart.

## Bls. 276.

*Sami*: Síðan rèð annar öðlíngs manna ókvíðinn at gánga í berg; stígr varð strángr stála sveigi[1]. Ólna foldar[2] eldruðr[3] mátti hvárki klífa[4] hátt fjall upp eða niðr frá miðju; hans líf var þrotit.

1) manninum. 2) sjóar. 3) = *gulls runnr*, maðr. 4) klifra.

### Bls. 277.

*Sami*: Ek frá hildíng[1] gánga hratt í bratta gnípu; ráðvandr hilmir rendi[2] ríp[3]; hann rèð[4] prúdt[5] eptir manni. Þrekleyfðr[6] þengill hafði sinn dreng und hendi, stillir bar svá sigrþoll[7] ok gekk lengra; þat var endr[8].

1) konúng. 2) hljóp upp. 3) bergið. 4) sótti. 5) hraustliga. 6) lofaðr fyrir hreysti. 7) manninn. 8) fyrrum.

### Bls. 279.

*Sami*: Ek fet inna[1] hin fjórðu dáðstyrk dýrðarmerki dólgminnigs[2] Sköglar borðs[3] skelfihríðar[4] skýbjóðs[5]. Stórlyndr skyndir stirðra branda[6] storms[7] nam hrinda hvatlyndum Þorkatli hart fur borð á Ormi.

1) eg inni. 2) þess hergjarna. 3) skjaldar. 4) orustu. 5) skjaldar bjoðs hermanns, þ. e. konúngsins. 6) sverða. 7) orustu, hermk.

### Bls. 280.

*Sami*: Mikill meingarðr[1] margra jarða[2] vann spell dýrðligri skikkju spjótrunns[3]; stillir sparðit[4] skaða bótir. Guðvefr ok grán[5] skinn und hánum gjörðist síðan jöfri, eina svipstund, jafn-sjónfagr eða fríðri.

1) hjálparmaðr. 2) konúngrinn. 3) mk., Þorkels. 4) sparaði ekki. 5) grá.

### Bls. 282.

*Sami:* Dimmt dvergs regn[1] magnat[2]. Örrjóðr[3] gat[4] bjartar jarteinir[5] allra dýrðar dáða í hit fimta sinn. Sigrgjarn, dygðar fúss döglíngr var sènn[6] prýddr, sólu fegri, í húsi með skrýddum drottins englum.

1) þann. Rekst. 2) þ. e. nú eykst yrkis efnið. 3) hermk., konúngr. 4) fèkk. 5) merki. 6) seðr.

### Bls. 288, 1.

*Bandadrápa:* Jöfur vann meir síðan miklu fleiri málmhríðir[1]; frágum[2] aðra þat[3] áðr (Eiríkr und sik geira —*); þá er gerði[4] vala[5] garð[6] virvils[7] strandar[8] vala[9] of[10] vídt herjat Gotland. (Veðrmildr ok semr hildi —*).

1) orustur. 2) eg sparði. 3) að því. 4) haði. 5) herkonúngs. 6) veðr, þ. e. orustu. 7) sjokonúngs. 8) jarðar, sjóar. 9) hauka, þ. e. skipa, þ. e. skipa orustu, sjóorustu. 10) um.

*) þessi tvö visuorð, so og 4. og 8. visuorð i næstu visu, eru stefjaorð drápunnar, en þau hánga af einu stefsorði, sem Snorraedda til færir, *dregr land at mun banda*, og skal þau so upp taka: *geira-veðrmildr* (hergjarn) *Eiríkr dregr land und sik at mun* (eptir vilja) *banda* (goðanna), *og semr hildi gunnblíðr* (kátr í orustum), *ok réð síðan hjarli* (landi): *goð vörðu jarl.*

## Bls. 288, 2.

*Sama:* Størir[1] stafnviggs[2] lèt höfuð gumna liggja at Stauri; gramr vælti[3] svá. Unda márr[4] sleit svörð[5] víkínga á eyri, at hörðu sverða móti[6].

1) þ. e. stýrir. 2) skips, Eiríkr jarl. 3) þ. e. velti, bjó so um. 4) hrafn. 5) höfuð. 6) Um stefið sjá bls. 288, 1, *.

## Bls. 289.

*Sama:* Lægis[1] log[2] fágandi[3] fór síðan eyða Valdamars land oddhríðar brandi[4]; hríð óx af því. Ægir gumna[5]! þú brauzt Aldegju: sú hildr[6] var hörð: komt[7] austr í Garða með höldum. Oss numþast skil[8].

1) sjóar. 2) gulls. 3) mk., Eiríkr jarl. 4) orustu eldi, þ. e. með sverði. 5) mk., þú Eiríkr. 6) orusta. 7) þú komst. 8) eg veit deili á því.

## Bls. 294.

*Haldór ókristni:* Gunnbliks[1]-el[2]-móðr[3] jöfra hneitir[4] bauð út miklu liði af Svíþjóðu; gramr hèlt sunnr[5] til gunnar. Hrægeitúnga[6] feitir[7]! hverr[8] hölda vildi þá fylgja Eiríki. Sára már[9] fèkk sylg[10] á sjá.

1) sverðs. 2) striðs. 3) — hugaðr. 4) hnekkir, þ. e. Eiríkr jarl. 5) suðr. 6) hrafna. 7) mk. 8) þannig Hk. 9) hrafn. 10) drykk.

## Bls. 297.

*Sami:* Konúngr fór sunnan sjav tigum skeiða ok einu[1]; mætr unnviggs[2] meiðr[3] rauð sverð at ona[4] morði[5], þá er jarl[6] hafði of krafða hún-hreina[7] Skánunga[8] lagar fundar; sætt seggja ættar gekk sundr.

1) þ. e. skipi. 2) skips. 3) mk., konúngr. 4) sverða. 5) orustu. 6) Sigvaldi. 7) skip. 8) þ. e. til.

## Bls. 299.

*Hallarsteinn:* Avrrjóðr[1] þorði beita átta ok þrinnum[2] skeiðum efsta[3] sinn at Svöldrar mynni; brýnn byrr varð. Ormr hinn lángi skreið ölna váng[4], prúð hirð knúði árar, hilmir stýrði.

1) hermk., Ólafr konúngr. 2) þrem. 3) síðasta. 4) hafið.

## Bls. 305.

*Hallfreðr:* Frægr flugþverrir[1] nam aldregi vægja furri, heldr lèt hauka[2] skyldir[3] hugrekki þekka sèr.

1) flótta stöðvandi, hermk. 2) hermanna. 3) hermk.

## Bls. 306.

*Sami:* Geta skal þess máls, er dólga fángs menn[1] kváðu dáðöflgan gram mæla við drengi at vápna sennu[2]. Hertr ygðar[3] hnekkir[4] bað-a sína rekka hyggja á flótta; þróttar[5] orð þess þjóðar sessa[6] lifa.

1) hermenn. 2) í orustunni. 3) ótta. 4) konúngr. 5) hreysti-. 6) — vinar, konúngs.

## Bls. 307.

*Sami:* Hykk[1] gram, þann er framdi gunni, mistu[2] þar víst til[3] mjök gengis þrænzkra drengja; mörg drótt kom á flótta. Næfr[4] allvaldr[5] vá[6] einn við tvá snjalla jöfra ok jarl inn þriðja; frægr siðr er at segja til slíks.

1) eg hygg. 2) hafa mist. 3) of. 4) knár. 5) konúngr. 6) barðist.

## Bls. 311, 1.

*Skúli Þorsteinsson:* Ek fylgða Frísa dólgi[1] ok Sigvalda; úngr fèkk ek aldrbót[2], þar er spjörr[3] súngu; (nú finnr öld[4], at ek eldumst) þar er bárum roðinn sárlauk[5] til móts við málmþíngs-mætan[6] sunnr fur Svöldrar mynni.

1) Eiriki jarli. 2) fè og frægð. 3) spjót. 4) menn. 5) sverð. 6) kappann Ólaf Tryggvason.

**Bls. 311, 2.**

*Hallfreðr:* Örvar liðu gjörva fram á lopti; brodda flaug[1] var lítt hept, áðr brjótendr bauga[2] skyti spjótum. Hitt var orð mest, at minn hvarkunnr[3] drottinn sótti harðast fram í málma gnaustan[4] fyr sunnan lög.

1) flug. 2) menn. 3) alþektr. 4) orustunni.

**Bls. 312, 1.**

*Hallarsteinn:* Avrbragðs[1] ærir[2] lögðu annat sinn sex tigum flausta[3] at linna[4]; Göndlar borða[5] gnaust varð grimt. Mörg drótt hné, þar er danskr herr sótti dýran harra; hirð fèll, hrafnar gullu[6].

1) orustu. 2) þjónar, þ. e. hermenn. 3) skipa. 4) Orminum. 5) skjalda. 6) krúnkuðu.

**Bls. 312, 2.**

*Sami:* Sterklig stöng jöfurs merkis reið[1], stálin súngu, gramr skaut, rimmu gángr gerðist á Orminn lánga. Nýtr nærr[2] her orðprúðs Noregs gætiss[3] var-a trauðr at særa Jóta ferðir[4].

1) fór óðfluga. 2) knár. 3) Ólafs konúngs. 4) lið. Stefið, sjá bls. 259.

**Bls. 313, 1.**

*Hallfreðr:* Hundmargr[1] herr sótti drasil[2] sunda[3], þar er harðfengr hilmir hætti[4], en varði Dönum hjálmspjótum[5]. Þar fèllu meirr fleiri hollvinir mínir með þeim geyma[6] skævaðar[7] þolli[8]; ek hlaut mein af því.

1) mjög margr. 2) hest. 3) skipið, Orminn. 4) þ. e. sèr. 5) skotvopnum. 6) sjóar. 7) — hests, skips. 8) mk., konúngi.

**Bls. 313, 2.**

*Sami:* Herskerðir[1] klauf kunnum eldviðum[2] harðan svarðar stofu[3] með sverði; hann gekk reiðr of skeiðar. Gramr kunni rásárka[4] barkað[5] hold at gunni; margr gunnþíngs heggr[6] lá of höggvinn á þunnum hjör.

1) liðsforíngi. 2) = sverðviðum, mönnum. 3) höfuð. 4) særa til skemda. 5) brynjað. 6) hermk.

**Bls. 314, 1.**

*Hallarsteinn:* Sveini gekk meinilla myrkt mækis

fèkk síðan mál, þar er margfríðr jöfurr hvílir. Frægð fólksterks Egða fylkis ríðr[2] af því verki: snilli úngs jöfrs fremst á alla danska túngu.

1) túngu; heldr vildi eg *hlýða*. 2) fer víða.

27. Hvatir bragnar! skulum biðja föður ens góða Magnúss fulltíngs. Mart mæðir fremdar þjóð á láði[1].

1) Stef sjá 18. v.

28. Svekkvir[1] straums sólar[2] gekk sínum bur[3] í drauma; valdr foldar[4] lèzt myndu fylgja framlyndum gram: áðr harðgeðr konúngr[5] barðist við heiðnar dróttir á Hlýrskógsheiði; gyldir[6] hlaut gnótt góðs eldis.

1) sökkvir. 2) gulls, Ólafr konúngr. 3) Magnúsi góða. 4) Ólafr konúngr. 5) Magnús. 6) úlfr.

29. Enn góði Magnús lèt huginn[1] fagna átu; málmþíngs kennir[2] rauð munn jarplits arnar jóðs. Hrætt fólk varð at leggja á flótta; frán[3] egg beit; vindversk víf biðu sorg, en vargar gíndu of[4] hræ.

1) hrafn. 2) hermk., Magnús konúngr. 3) fögr. 4) yfir.

30. Raun er, at snjallr lausnara spjalli[1] gaf sínum frömum arfa sigr; hrósek verkum vígdjarfs vísa[2].

1) vinr, Ólafr konúngr. 2) Stef sjá 18. v.

31. Satt var, at Guðormr, hollr seggjum, lèt hèr gerfa róðu[1], skreytta silfri ok golli; þat var grams hróðr. Þat hafa menn meirr at minnum þeirra jarteigna; mark friðgjafar konúngs stendr í miðri Krists kirkju.

1) líkneski.

32. Menn, kunnir Skánúngum, hafa sagt oss, at svanni sunnr[1] vildi baka um missu[2] almilds Ólafs. En þá er brúðr tók leita at brennheitu brauði, þá varð grjón[3] danskrar snótu at gránu[4] grjóti.

1) dönsk kona. 2) messu. 3) brauð. 4) gráu.

33. Síðan hefir hátíð snjalls hildíngs verit haldin um alla Danmörk: þat er sannspurt sunnan[1].

1) Stef sjá 18. v.

34. Göfug hvítíngs[1] Horn[2] lèt skera túngu úngs manns úr höfi[3] aumum auðar beiði[4]. Vèr sám válaust[5]

þann hodda njót[6] numinn máli, fám vikum síðar, er (vèr) vorum, þar er heitir Hlíð.

1) sjóar. 2) kona. 3) höfði. 4) manni. 5) vissuliga. 6) mann.

35. Ek hef frètt, at sá málma stríðir[1] sótti síðan, skerðandi hár[2], heim þann, er gefr hjálp aumum ferðum[3]. Hèr fèkk hann bæði slúngin mál ok túngu; en ek skal byrja hátt kvæði of[4] slöngvi snáka vángs[5].

1) maðr. 2) að afrökuðu höfuðhári sínu. 3) mönnum. 4) um. 5) gulls, Ólaf konúng.

36. Dýrð ríks öðlíngs er orðin ágæt af slíku; mærð Hörða mildíngs ríðr[1] mest um flesta heimsbygð[2].

1) berst. 2) Stef sjá 18 v.

37. Bragr verðr greiddr, en ferr skerðu skauti[1]. Ek veit, at þeir Vindr meiddu sárliga niðranda gjálfrs grundar[2], ok skáru endr grimliga óðar ár[3] úr kverkum tírarsterks auðskýfanda[4], fyrir týndri trú[5].

1) það líðr á kvæðið. 2) sjóar, mk. 3) túngu. 4) manns. 5) af því þeir voru heiðíngjar.

38. Unnar skíðrennandi[1] sótti síðan et dreka bóli[2] skreytta Ólafs skrín; mèr finnast orð. Ok heilagr hilmir fèkk máls heilsu þeim er vel vakti hugins teiti[3].

1) maðrinn. 2) gulli. 3) gladdi hrafninn.

39. Dómari[1] heims[2] lætr helgan ræsi verðan hás sóma; framlyndr stillir fyllir himneska ferð[3].

1) getgáta. 2) guð. 3) skara. Stef sjá 18 v.

40. Ek frá, at hjörr Ólafs, þess er gaf ilbleikum[1] hjaldrs orra[2] steikar[3] at vopna galdri[4], hèti Hneitir. Þengill Rauma klauf þunnvaxin gunnar ský[5] (með) þeim valbastar röðli[6] á Stiklastöðum; rekin[7] stál bitu.

1) fótgulum. 2) erni. 3) bráð. 4) í orustu. 5) skildi. 6) sverði. 7) búin.

41. Þá er en frækni fylkis kundr[1] fèll til grundar, tók svænskr maðr sverð af þrænskum gram, er sókn var orðin[2]. Sá gulli merktr hjörr ens háfa gunndjarfs hríngstríðanda[3] hefir síðan fundist í liði Girkja[4].

1) Ólafr konúngr. 2) eptir orustuna. 3) Ólafs konúngs. 4) Grikkja.

42. Eíndriði úngi, sá er gaf gumnum armglæðr[1], finnr nú ræðu fyrða í brag: göfug dýrð jöfra[2] slöng[3].

1) gull. 2) Ólafs konúngs. 3) barst víða út. Stef sjá 18 v.

43. Mèr er vant, at yrkja of[1] styrkan stilli, því ek skal skíra mærð þess styrjarvalls[2] mildíngs, er gaf hrínga: þvíat tákn þess, er læknar lýð[3], fer hvert á annat; ljós raun[4] lofðúngs himintúngla ranns[5] kemr um ræsi.

1) um. 2) hergjarna. 3) Ólafs konúngs. 4) vitnisburðr. 5) guðs.

44. Kennandi gunnar glann[1] gerðist heldr glaðr hála[2] herðum vetþryma naðri[3] síðalla á kveldi. Dagr rofnaðist: dýrr orðfimr drengr ítrs landreka[4] rèð sofna at vángi undir berum himni.

1) stríðsmaðrinn. 2) vel. 3) sverði. 4) keisara.

45. Borgarmaðr, steindra regins váða[1] styrs bráðr[2], misti styrks mundriða, er lýsti: þá var morgin. Nýtr seimþiggjandi gat sèð gómsparra gyldis kundar[3] liggja fjarri sèr á slèttri grundu.

1) brynju. 2) hergjarn. 3) sverðið.

46. Ríkr þjóðnýtr bróðir Haralds[1] vann þeima[2] reifnis rökkstefnanda[3] slíkar bendíngar þrjár grímr[4]: áðr þrifhvassir[5] fírar sögðu Ýnga[6] þessar jarteiknir; brögð[7] þíngdjarfs bauga snyrtis[8] eru björt.

1) Ólafr konúngr. 2) þessum. 3) skip-, manni. 4) nætr. 5) harðfeingir. 6) keisara. 7) stórmerki. 8) Ólafr konúngs.

47. Alvaldr[1] lèt gjalda eisu más jarðar[2] fyrir hjör, þann er Ólafr átti; slèttig-óð bragartólum. Yfirskjöldúngr jöfra garðs[3] lèt síðan grand oddhríðar[4] standa þar of gulli vörðu[5] altari.

1) keisari. 2) gull. 3) keisarinn. 4) sverðið. 5) gullbúnu.

48. Þau mál, er birtast um þat brandel[1] á Grikklandi, eru björt tákn. Haralds arfi finnst margþarfr

mönnum. Ek fregn, at dýrð Ólafs ríðr allt (til) dagræfrs[2], nè aungir innondr[3] megnð dála[4] finna hæfra[5] konúng.

1) orustu. 2) himins. 3) fræðimenn. 4) hægliga. 5) betra.

49. Hjaldr[1] háðist á víðum Petzinavöllum; gunnar márr[2] slökti vel þúngan húngr í geira göll[3] þar er hjálmskæð hríð Hamdis klæða[4] óx svá, at Grikkir flæðu[5] undan; þjóð fèll þúsundum fyrir hjörvi.

1) orusta. 2) hrafn. 3) bardaganum. 4) orustan. 5) flýðu.

50. Lið hryggs lagar eldbrota[1] dugði. Mest veldi ok jarðir Miklagarðs mundi liggja und fjöndum, nema Væríngjar bæri rönd[2] fram í branda byr[3]; vopn, harða[4] fáin[5], bliku[6] í veðri barð-rögn-röðuls[7].

1) keisarans. 2) skjöld. 3) orustu. 4) mjög. 5) fögr. 6) skinu. 7) skjaldar, þ. e. í orustunni.

51. Hraustir menn hètu á ítran Ólaf í gný stála; hart stríð stóð af trausti ógnar eyðis[1]. þar er sex tígir manna váru of[2] einum (í) jörfa[3] flug[4], reifnis rann[5], roðinn undbáru[6], klofnaði.

1) Ólafs konúngs. 2) kríngum. 3) örva. 4) bardaga. 5) skjöldr. 6) bloði.

52. þá er stálregn dreif á þegna af ríki[1], rauk[2] liðsgengi heiðengja harða (fyrir) hjálmnjörðúngum[3]. Hálft fimta hundrað Norðmanna, er þorðu val[4] nærri brímis[5] fundi, vann þar heimtan[6] nýztan tír.

1) hart. 2) flýði. 3) Væríngjum. 4) vel. 5) sverðs. 6) fekk þar.

53. Glaðir gumnar[1] ruðu[2] vagnaborg, þar er vargar fundu vopnsundrat hræ; göfugr þengill barg[3] drengjum. Öld nennir at inna verk úngs dáðsnjalls döglíngs, slúngins brimloga[4], þau er dýrka alla veröld.

1) Norðmenn. 2) brutu. 3) hjálpaði. 4) gulli prýdds.

54. Nú er nauðr, at merkja fyrir þjóð í nýjum óði þau verk, er vísir vann næst; þat ríðrat[1] smæstu. Skul-

um dýrka lofi krapt guðs, gunnstyrks heimslæknis, þess er lèr þeima[2] haldfrömum[3] gram hárrar giptu.

1) ríðr ei á. 2) þessum. 3) mildirika.

55. Ángrs fylldr mildíngs þjón[1] varð fyrir kaldri öfund manna; margfaldr hugr gerist illr (af) villu aldar. Hjaldrstríð lýgi hefir stundum brugðit blíðu skapi nýtra bragna til heiptar; hermdar[2] kraptr brýtr frið.

1) prestr. 2) reiði, heiptar.

56. Seggir lustu fót marglífuðs eggja[1] sundr í sandi; hörð aldrtrega fjón[2] grèri rótum með fyrðum. Ok fírar, þeir er limlestu[3] prest, stúngu kröfð[4] heila himintúngl[5] or leyfðar höfði[6]; þat var hætt mál.

1) mannsins. 2) dauðligt hatr. 3) fotbrutu. 4) kramin. 5) augu. 6) þeim væna manni.

57. Túngan tírkunns[1] var lokin tángar munni, ok þrisvar skorin kníft; viðrlíf vara[2] sem vænst. Auðskiptir[3] lá eptir á ströndu, meinsamliga hamlaðr[4]; margr maðr lætr önd of[5] minni sorgir.

1) þess valinkunna manns. 2) var ekki. 3) maðrinn. 4) meiddr. 5) af.

58. Leyfðr er sá gramr, er lèt ítran þegn njóta lamins fótar, útstúnginna augna ok tilstýfðrar túngu. Hönd hreins Ólafs vann guðs þræl[1] heilan gjörvallra meina; gjöld munu gjör þeim, er byrjar öfugmæli.

1) prestinn.

59. (Hinn) dyggvi dýrðar váttr biðr allskonar æðri sælu með drottni, en þjóð of hyggvi; mælek þat örugt. Lángvinr lausnara[1] friði numinn aldri! Sèr-at[2] slík verk á jarðríki. Líðsvaldr[3] leysi sik (frá) syndum!

1) Ólafr konúngr. 2) ei sjást. 3) hver maðr.

60. Siklíngr var numinn hèðan úngr frá miklu ángri; svá reynir guð alls mest flesta vini sína. Nú lifir hraustr fárskerðandi fyrða[1] af hæstri friðar sýn himna-valds[2], þar er gleði týnist aldri.

1) Ólafr konúngr. 2) guðs.

**61.** Hverr er svá hoskr[1], at hans túnga megi í þessu lífi of segja veg[2] grafar hyrjar-ljóss[3] lofðúngs[4], þann er heitfastr jöfurr hreggsalar[5] veitir sínum dýrðar vin? Hyggjum[6]! skatnar megu líta skreytt skrín.

1) vitr. 2) dýrð. 3) hins eldbjarta. 4) Ólafs. 5) guð. 6) gætum að.

**62.** Ek hygg, höfuðmenn erkistólar komu híngat í þenna stað; snarr tiggi sólar heims[1] bergr[2] seggjum. Hèr er heilagr viðr af píníngar krossi himna gervis[3]. Yfirskjöldúngr aldar[4], bjarg þú oss, sem biðjum!

1) guð. 2) bjargar. 3) Krists. 4) guð.

**63.** Öld nýtr þíngsnjalls Ólafs; (vèr) höfum skírða dýrð hás jöfrs; alla veröld þrotnar[1] mildi frá þessum. Landsfólk láti ítrum himna konúngi! Hverr manna, er gerir hann hollan sèr, er sæll líma[2] síns.

1) þurfa. 2) mótgángs.

**64.** Ek talda fátt í fjölda af jarteignum friðgegns Ólafs; ber orð koma af orum[1] bragarstóli. (Þat) hæfir, (at) hverr seggr, er reiðir[2] lof heiðbjarts hilmis, fái mikla ást ens hæsta siklíngs sólar bóls[3].

1) vorum. 2) ber út. 3) guðs.

**65.** Svá at nafnkuðr[1] lángvinr lausnara[2] leysi jafnan nýta þjóð við trú or nauðum frá strángri kvöl; velendr víga skýs[3] þeir er, af ástum öflugs Krists, telja þenna brag alnennins[4] vísa framan[5].

1) — kunnr. 2) Olafr konúngr. 3) menn. 4) getgáta, þ. e. hins röskva konúngs (Ólafs). 5) ágætan.

**66.** Höfum sagðar jöfri[1], kyni orðhags[2], happs dáðir ens helga Ólafs; hugr fylgir því ráði. (Vèr) fám[3] af hánum holl laun þessa lofs, guðs blessan; hræsíks[4] þrimu gæðum[5] líkar hjálp göfugs óðar.

1) Eysteini. 2) niðja Ólafs konungs. 3) fáum. 4) sverðs. 5) mönnum.

**67.** Þessi bragr mundi vera raun-dýrliga[1] launaðr ef hildar leikmildr[2] vellom grimmr[3] lofða gramr, Sig-

urðr enn ellri[4] lífði; ek kann rausnar skap ræsis ens brenda baughvers[5]; lýsek veg þess vísa[6].

1) mjög ágætliga. 2) hergjarn. 3) örlátr. 4) Jórsalafari. 5) hrings, nl. Sigurðar konúngs. 6) konúngs.

68. Þrekrammr þengill! hefik stoðat framla þína bæn; (vèr) höfum iflaust unnit jöfri mærð, sem kunnum. Segi ágætr, hve ek leysta næstan brag; elskik veg vísa hás vagnræfrs[1]; en ek þagna.

1) guðs.

---

## SJÖTTA BINDI.

### Bls. 21.

*Arnór jarlaskáld:* Nú hykk rjóðanda eggjar rögerðs hneitis[1] ráða seggjum; þegi[2] segja seimstafir[3], þvíat (ek) veit[4] gjörla[5]. Hraustr ormsetrs[6] hati[7] var-at allra[8] ellifu vetra, þá er Hörða vinr glæsti[9] herskip or Görðum.

1) sverðs, Magnús konúng. 2) ekki. 3) menn, nl. mèr það. 4) nl. það. 5) fullvel. 6) gulls. 7) Magnús konúngr. 8) fullra. 9) bjó glæsilig.

### Bls. 22, 1.

*Sami:* Hinn úngi eggrjóðandi bauð þjóðum út þíng; ara bræðir[1]! fim hirð bar hervæðr[2] í hömlur[3]. Hraustr þjóðkonúngr skar salt[4] hveltum[5] húfi[6] austan; brún[7] veðr báru brimlogs[8] rýri[9] at Sigtúnum.

1) maðr. 2) herklæði. 3) til skips. 4) sjóinn. 5) bognum. 6) skipsborði. 7) brýn, fljót. 8) gulls. 9) konúnginn.

### Bls. 22, 2.

*Sami:* Sökki[1] Sveins[2], er vann fremd eina, gekk á Svíþjóð; afkárt[3] hjarta Ólafs sonar fýstist austan. Dygg ferð[4] Jaðarbyggja drottins[5] beið nótt ok dag; gramr bað fýst[6] hlífa sèr[7] í geystu gífrs[8] veðri[9].

1) mótstöðumaðr. 2) Magnús konúngr. 3) ágætt. 4) flokkr. 5) Magnúss konúngs. 6) heimfýsi sína. 7) sagði hún skyldi hl. s. 8) ofsa. 9) eða: *gramr bað fýst* (fúst, ötull) *gífrs* (tröllkonu) *veðr* (hug, hugrekki) *hlífa sèr í geystu* (stormunum).

Bls. 23, 1.

*Sami*: Skjöldúngr! vantu geyst[1] herskip af herðu stinnuum hlunni í Saltit eystra, (þú) stètt[2] með girzku skrúði[3] á skeiðarhúf, hveldan skörum[4]. (þú) vafðir[5] lítt, en vendir[6] bifðust: hrími stokkin verða[7] hrökk, en búnar grímr[8] nam sökkva niðr: hlýr geystist, en bára hristist.

1) þú hrazt. 2) stèst. 3) rússiskum herbúnaði. 4) skaraðan. 5) hikaðir. 6) siglutrèn. 7) verða *held eg sè borðþak haft til að verja áföllum, annars* vígi. 8) dreka höfuð.

Bls. 23, 2.

*Sami*: Rimmu yggr[1]! (þèr) bárut síðan rauðar randir[2] í svænskar bygðir, eigi gaztu lágan líðskost, landsfólk sótti til handa þèr. Öldum kuðr[3] úlfa ferðar túngrjóðr[4]! teknir[5] menn við hvíta skjöldu ok hin reknu dörr þorðu[6] austan til tírar þínga[7].

1) hermk. 2) skjöldu. 3) kunnr. 4) hermk. 5) valdir. 6) skunduðu. 7) heiðrs þínga, eða bardaga.

Bls. 24.

*Sami:* Yggjar máss[1] fiðrirjóðr[2]! komtu[3] austan í þrænskar bygðir með allrahæstum ægis hjálmi, en (menn) kvoðu[4] fjandmenn yðra fálma[5]. Eyðir[6] úlfa gráðar[7]! frátig þik úngan þraungva þeirra ráði með skæðan þokka[8]; skjöldúngr skeiðarbrands[9] stökk fyrir þèr or landi.

1) hrafns. 2) hermk. 3) þú komst. 4) kváðu. 5) verða óttaslegna. 6) þannig Fm. S. 5, 119, 2. 7) húngrs, hermk. 8) hug. 9) Sveinn konúngr.

Bls. 26, 1.

*Sami:* Gotna spjalli[1]! namtu eignast allan Noreg til landamæris; mangi[2] annar mildíngr ryðr[3] mæra[4] óðal þegna þèr[5].

1) konúngr. 2) einginn. 3) leggr undir sig. 4) meira eða betra. 5) heldr en þú.

Bls. 26, 2.

*Sami:* Framr þjóðkonúngr[1] flýði rama reiði fylkis[2], armsvells[3] hati[4] stökk gella[5] frá okkrum auðvin[6].

Nýtr sókndjarfr þengill[7] lètat gram lengi njóta Noregs, hann rak Svein af síuum föður arfi.

1) Sveinn. 2) getgáta. 3) silfrs. 4) Sveinn konúngr 5) getg., gjörsamliga. 6) getg.; Magnúsi konúngi. 7) Magnús.

### Bls. 35.

*Kolgrímr:* Ek þarf hylli herstillis[1]; hálf völd eru und Kálfi.

1) konúngsins.

### Bls. 38.

*Sighvatr:* Ek var með gram[1], þeims[2] bauð goll drottinnhollum gumnum; hann fèkk þess konúngs æfi nafn[3], en hröfnum hræ. Konúngs son gaf fráneygjum[4] gráuum[5] vargi[6] margan val (með) sverðum; ek sá fullkerska[7] verðúng[8] falla.

1) Ólafi helga. 2) þeim er. 3) frægð. 4) hvasseygðum. 5) gráum. 6) úlfi. 7) getgáta. 8) hirð.

### Bls. 39, 1.

*Sami:* Ek fylgða vel fèmildum feðr þínum, þeim er vildi mína fylgju[1]; gramr! nú eru þegnar fegnir frið. Varat[2] hlið á hal[3], þar ek stóð með hjörvi í miðjum hans flokki; (maðr) skal þjokkva[4] hræsinn[5] við með hrísi.

1) fylgð. 2) ekki var. 3) fylkingunni. 4) gera þèttan. 5) háan.

### Bls. 39, 2.

*Sami:* Magnús! faðir þinn við móðinn mikla gekk allt í gegnum ferð[1] (með) liði sínu, þar er flokkar börðust. (Hann) varði jöfra erfðir; Ólafr rèð at hverfa[2] fram svá hart, en hugfull hjörtu skullu[3] við þat.

1) fylkingu. 2) gánga. 3) skelfdust.

### Bls. 39, 3.

*Sami:* Hákon, sá er fèll á Fitjum, hèt[1] fjölgegu, ok rèð hegna heiptarráu, en fírar unnu hánum. Þjóð hèlt síðan fast á lögum fjölblíðs Aðalsteinsfóstra; búendr eru enn seinir af því minni[2].

1) var kallaðr. 2) gleyma Hákoni seint.

Bls. 40, 1.

*Sighvatr*: Ek hygg karlfólk[1] knáttu kjósa rètt, af því at Ólafar ok svá jarlar gáfu frið eignum lofða. Haralds arfi[2] ok hvardyggr sonur Tryggva lèt halda þau laukjöfn[3] lög, er lýðar þágu at þeim nöfnum.

1) bændr. 2) Ólafr helgi. 3) ágæt.

Bls. 40, 2.

*Sami:* Ek var með þèr, úngr þengill, þat haust, er (þú) komt austan; stillir, máttu einn hegna[1] alla jörð[2]; svá fregnist. Landfólk þóttist þá hafa tekit heiðan himin höndum, er (þú), lofðúngs burr, lifðir ok krafðir landa.

1) verja. 2) ríki þitt.

Bls. 41, 1.

*Sami:* Ek lèt föður Magnúss[1] fregna hvè fólgin orð jöfurs dólga, þau er or[2] eyru heyrðu, fóru á svik. Ek bar ossum[3] lánardrottni hvert mál af heilum hug, þvíat (ek) brugðumst[4] eigi; ek vissa þó ótta[5].

1) Olaf helga. 2) vor. 3) mínum. 4) nl. honum. 5) að það var ei hættulaust.

Bls. 41, 2.

*Sami:* Döglíngr! yðrir ráðgjafar skulut[1] reiðast við bersögli; konúngr! þat orð ryðr til dýrðar drottins[2]. Nema landherr ljúgi, kveðast búendr hafa önnur verri lög, en þú hèzt mönnum endr[3] í Úlfasundum.

1) skulu ei. 2) eftir þinn sóma. 3) fyrrum.

Bls. 42, 1.

*Sami:* Veltir þjófs[1]! gjaltu varhuga við þeim hölda kvitt, er nú ferr hèðra[2]; (maðr) skal of stytta hönd í hófi. Teitir varmra benja tármútaris[3]! sá er vinr, er býðr vörnuð; en hlýðið til, hvat búmenn vilja.

1) rèttvís konúngr. 2) hèr. 3) hrafns, hermk.

Bls. 42, 2.

*Sami:* Hverr eggjar þik (at) höggva hjaldrgegna búþegna? þat er jöfri ofrausn[1], at vinna[2] innan-

lands. Aungr hafði ráðit svá úngum bragníngi áðr; konúngr, ek hygg rekkum þínum leiðast rán; herr[3] er reiðr.

1) ofsædum. 2) nl. slikt. 3) landsfólkið.

Bls. 43, 1.

*Sami:* Þat er hætt[1], er allir hárir[2] menn ætla á móti skjöldúngi, er ek heyri; (þú) skalt áðr ráða hót[3] við því. (Þat er) greypt[4], er þíngmenn hnepta[5] höfðum, ok stínga nösum niðr í felda; heldr hefir slegit þögn á þegna.

1) hættuligt. 2) gamlir. 3) nokkuð. 4) hræðiligt. 5) stínga saman.

Bls. 43, 2.

*Sami:* Heiptarstrángr harri! hverr eggjar þik at gánga á bak málum þínum; þú reynir opt þann stál[1]. Feingsæli[2] fyrda þengill skyli[3] vera fastorðr; hjaldrmagnaðr[4]! þèr hæfir aldri at rjúfa heit.

1) sverð. 2) sigrsæll. 3) á at. 4) hermk.

Bls. 43, 3.

*Sami:* Eitt mál er öfgast[1], þat (er) göfgir búendr mæla: minn drottinn leggr eign sína á óðal þegna. Seggr mun telja rán í því, ef (hann) selr út sína föðurleifð konúngs greifum[2] at[3] flaums fellidómi[4].

1) verst. 2) lendum mönnum. 3) eptir. 4) ofbrátt felldum dómi.

Bls. 44, 1.

*Sami:* Ek bið syni Ólafs mála snúðar[1]; meðal okkar er allt svá háligt; (menn) kveða óframs sök bíða aptans. Magnús! vèr erum vegnir[2]; ek vilda ey[3] lifa ok deyja með þèr mildum; þú varðar[4] hauðr[5] Haralds[6] (með) hjörvi.

1) að mál hans snúist til betra vegar. 2) vægnir. 3) ætíð. 4) ver. 5) getgáta; smbr. 10. B. bls. 341. 6) Noreg.

Bls. 44, 2.

*Sami:* Ólafr, órýr jöfra dýrða[1], lèt mik framast[2] með hríngum; þíng[3] drottins ens digra urðu drjúg.

Jafnt um allan aldr flotna sendis[4] bar ek gull á hvorutveggju hendi, en sjaldan hrygg berverk.

1) sem var sá ágætasti konúngr. 2) hann gæddi mig. 3) gjafir. 4) Ólafs konúngs.

Bls. 44, 3.

*Sami:* Hugir Sighvats[1] í garði Hörðaknúts, er hittig, nema mildr Magnús konúngr fagni mjök vel skáldit[2]. Ek fór með feðrum beggja þeirra, var ek þá enn óskeggjaðr með öllu; túnga fèkk mèr úngum[3] gulls.

1) nl. eru. 2) eg ætla at fara til Hörðaknuts, ef þú tekr ei vel undir bón mína. 3) getgáta.

Bls. 47, 1.

*Arnór jarlaskáld:* Síðan var þat, er siklíngr ýtti miklum flota suðr með láði; þá var skorðu skíði[1] of auðit skriðar; Vísundr rendi norðan. (Hann) bað Peitu[2] hjálma samnast til hverrar hömlu: menn hræðast við klæði Gjúka ættar[3]: eiki[4] þótti göfugt gerskum málmi.

1) skipi. 2) peitneska. 3) herklæðin. 4) skipið.

Bls. 47, 2.

*Sami:* Ljótu löðri varp utan á lyptíng, rauða gullit bifðist of skeiðar stýri[1]; fastligr fýris ángr[2] hneigði geystri furu[3]. (Þú) hèlt stirðum stálum[4] norðan fyrir Stafángr; elmars typpi[5] glóðu uppi, glík eldi, í Danaveldi.

1) konúnginum. 2) vindrinn. 3) skipi. 4) stefnum. 5) siglutoppar skipsins.

Bls. 49.

*Sami:* Árla[1] varð sú orðgnótt afkárlig[2] er drottinn hlaut; efnd fylgði því, er ylgjar[3] ángrtælir[4] rèð mæla: ræsir lèzt fúss at falla feigr framm und kló hrafni í grimmum grafníngs[5] gný[6], eða eiga Danmörk.

1) snemma. 2) frammúr skarandi. 3) úlfs. 4) hermk., konúngrinn. 5) skjaldar. 6) bardaga.

Bls. 50.

*Sami:* Ek mun segja, hve hlèborðs hallr ok hrími

sollinn Vísundr bar snarfenginn Sygna þengil norðan. Blíðr gramr setti branda[1] at breiðu Jótlandi; öld tók fús við æsi brynþíngs meginhrínga[2].

1) stafnása. 2) orustu, hermk.

**Bls. 51.**

*Sami:* Snjallr dýr siklíngr náði síðan at stýra Noregi ok allri Danmörk; máttr drengja drottins óx. Öngr annar barnúngr þengill hefir áðr stúngit und sik svá nógu[1] láði; brásk-at[2] bragníngs þroska[3].

1) stóru. 2) brást ekki. 3) uppgángr.

**Bls. 53.**

*Þjóðólfr:* Sjálfr Úlfs mögr[1] var austr í Elfi; þar rèð Sveinn at sverja, (með) hendr sínar á skríni, ok hèt fögru. Sonr Ólafs[2], gramr Skánúnga, rèð eiðum; þeirra sáttir hafa átt skemra aldr hánum[3], en skyldi.

1) Sveinn. 2) Magnús góði. 3) fyrir hann, Magnús.

**Bls. 55, 1.**

*Arnór:* Síðan vann konúngr vápnhríð, þá er Vindr um minnir[1]; stillir sveið hræ ófám[2] illvirkja at Jómi. Blóðugr vargr dró bráðla steiktan búk af glóðum; allfrekr bani hallar[3] rann á óskírð enni[4].

1) rekr minni til. 2) mörgum. 3) eldr. 4) heiðíngja.

**Bls. 55, 2.**

*Arnór:* sjá bls. 75.

**Bls. 64, 1.**

*Þjóðólfr:* Minn snjallr gotna spjalli[1] vá sigr fyrir sunnan Skotborgará; ek frá skarpa skæru[2] nær Heiðabý.

1) konúngr. 2) orustu.

**Bls. 64, 2.**

*Sami:* Ellu konr[1] undi at fella ótal Vinda; hvar hafi gumnar fregit gerfa meiri geirhríð[2]?

1) niðji, Magnús konúngr. 2) orustu.

**Bls. 65.**

*Arnór:* Ódæsinn[1] ræsir óð framm með breiða öxi, ok varp brynju; hjördyn[2] varð um hilmi Hörða. Hel

klauf fölva hausa, þá er jöfurr spendi tvær hendr of skapt; en skapvörðr himins[3] skipti jörðu.

1) ómoðr. 2) sverða glam. 3) guð.

**Bls. 66.**

Sjá 5. B. Geisli 28. v.

**Bls. 67, 1.**

*Þjóðólfr:* Hykk bróðurson Haralds[1] stóðu framast manna í hundraðs flokki; hrafn visei sèr hvassast húngrbann. Vinda flótti lá vítt; þar er Magnús barðist, varð höggvinn valr at hylja rastarbreiða heiði.

1) Magnús góða.

**Bls. 67, 2.**

Sjá 5. B. Geisli 29. v.

**Bls. 68, 1.**

*Arnór:* Skjöldúngr, (þú) lèzt valdit Vinda sorgum við skíra Skotborgará; Yngvi[1], sá förnuðr[2] þinn var frægr, er (þèr) fenguð við minna helmíng[3]. Þar lá varo[4] hærri valköstr, en víða runnin varga ætt, virðum kunn, mætti of klifa[5]; þèr var skapaðr sigr hins digra grams.

1) konúngr. 2) sigr. 3) liðsfjölda. 4) sýnu. 5) komast upp á.

**Bls. 68, 2.**

*Sami:* Fírar, hrósag æfi hugfulls vísa. Snarr siklíngr hlóð svá háfan hræköst af úlfa barri[1], at allnáttförull áleggjar[2] yggja[3] vífmar[4] máttið[5] klifa yfir; öld lá vítt.

1) val, dauðum mönnum. 2) steins. 3) -jötna. 4) úlfr. 5) mátti ei.

**Bls. 70.**

Sjá 5. B. Geisli 30 v.

**Bls. 75.**

*Sami:* Fúss ræsir lèt háit ramþíng glamma[1] á Ile; gramr rauð valska branda fyrir víðu Vestlandi[2].

1) orustu. 2) sjá 55, 2.

**Bls. 76.**

*Þjóðólfr:* Gramr ok jarl lögðu saman randir[1] fyrir skömmu; þar kom bitr brandlækr[2] á börva glæðis[3]

glóðar[4]; svá at merkendr[5] mannþínga[6] Héðins serkjar[7] mundut[8] meiri orrustu; herr náði geira[9] geirs gný[10].

1) lögðu til orustu. 2) blóð. 3) -græðis, sjóar. 4) gulls. 5) nl. hins. 6) þúngbæra. 7) brynju, þ. e. menn. 8) mundu ei. 9) gera. 10) bardaga.

Bls. 77, 1.

*Sami:* Ek frá skotið skeptifléttu ok mörgum spjótum á breiðum skjaldi; hrafn fèkk skjótt bráð, þar er háðum hjaldr[1]. Menn neyttu, sem mest máttu, grjóts ok örva at vápna sennu[2], en hörvar bauga[3] lágu barðir.

1) orustu. 2) í bardaganum. 3) menn.

Bls. 77, 2.

*Sami:* Bogmenn bárut[1] fleiri böslar[2] at hjörtogi[3]; mundit þrændi þreyta[4] fyrr at skeytum þann dag. Snæridörr[5] flugu síðan svá þykt um snæru[6], (at þú) sátt[7] illa í milli; ördrif var látit ótt.

1) báru ei. 2) örvar. 3) í orustu; eða *at hör tognum*, at spentum bogastreng. 4) þrjóta. 5) snærispjót. 6) í orustunni. 7) sást.

Bls. 78, 1.

*Sami:* Mjúklyndr Magnús bað mjök rekka knýja framar[1] böðský[2] á synda[3] mar[4]; hörð borð[5] þrifust[6], er (menn) börðust.

1) bera fram. 2) skjölduna. 3) sunda. 4) skipinn. 5) skildir. 6) voru teknir.

Bls. 78, 2.

*Sami:* Sú hildr varð of unnin römm, er viðir hramma[1] hardels[2] börðust; herr gekk snart at sunnudags snerru. Nár flaut á hverri báru, þá er feigir stafir hjörva gnýs[3] lètu fjör; þjóð sökk niðr af nöðrum[4].

1) Óðins. 2) orustu. 3) hermenn. 4) drekum, herskipum.

Bls. 78, mismgr. 6.

*Sami:* Mætr Magnús, vörðr kjalar vagna[1], gekk í fagran framstafn varar hrafni[2] at morði; þat var frægt; (vèr) gjörðum þar svá, at húskarla lið þverði jarli, en gengi[3] þengils vóx; herr nam at hrjóða skeiðr.

1) skipa. 2) skipi. 3) styrkr.

**Bls. 78, mismgr. 6.**

Ferð[1] jarls lá á ferli[2], áðr hinn dýri svanfoldar sólrýrandi[3] seldi hjörva stöfum[4] fjörgrið.

1) flokkr. 2) var komin á flótta. 3) Magnús konúngr. 4) mönnum.

**Bls. 79, 1.**

*Sami:* Mögr Ólafs hins digra rauð áðan 7 skip; jöfurr vá sigr; konar er Sogni fregnat slíkt hnípnar[1].

1) verða glaðar við þá fregn.

**Bls. 79, 2.**

*Sami:* Sverðgautar[1] Sveins hafa mist heimkvâmu ok sinna förunauta; för heima[2] er of orðin heldr hörð. Hreggi[3] æst unnr[4] hrærir þeirra hausa ok leggi á sanda grunni[5]; sjór þýtr um auðs árum[6].

1) hermenn. 2) manna. 3) stormi. 4) alda. 5) sjáfar botni. 6) mönnum.

**Bls. 79, 3.**

*Sami:* Gær sá ek harðliga kastat stóru grjóti, (sem) fór fast á fylkíng þeirra; haus gein[1] fyrir steini[2]. Vèr keyrðu(m) ofan strandhögg; stafn hefir numit staðar í miðju landi; Sveinn muna[3] varða[4] jörð orðum[5].

1) rifnaði. 2) af steinkastinu. 3) mun ei. 4) verja. 5) með orðum einum.

**Bls. 80, 1.**

*Sami:* Selunds[1] mær spurði einu orði, hver bæri blóðroðna skjöldu; satt er, at mörg öld[2] átti svâ[3]. Auðtróðu[4] varð auðit[5] at spróga[6] yfir um skóg. Tý-margr[7] flótti[8] bar iljar títt til Hríngstaða.

1) þannig Hk. 2) menn. 3) nl. rauðlitaða skjöldu. 4) konunum. 5) þær urðu. 6) fara, nl. flýandi. 7) mjög margr. 8) flóttamenn.

**Bls. 80, 2.**

*Sami:* Snarr Skánúnga harri[1] ber[2] saurstokkinn svíra; undr, nema aldrprúðr allvaldr Lundar[3] haldi fyrir[4]. Merki ens sterka jarls[5] flugu gær[6] (yfir) mold

**ok mýrar fram at flæði[7]; flaugar dörr[8] dreif of hauga slóð[9].**

1) Magnús konúngr. 2) þannig Hk. 3) Magnús konúngr. 4) verji sig fyrir Sveini. 5) Sveins. 6) í gjær. 7) ofan að sjó. 8) það senda spjót. 9) getgáta; yfir hálsana.

## Bls. 81, 1.

***Sami:*** **Jarl[1] náði at eyða[2] jöfrasetr[3] á vetri; þú[4] lèzt eigi litla landvörn standa af þèr. Mildr Magnús mátti hitta í flokk und skildi[5]; þá var nýtum næfa[6] Knúts[7] nær, sem hann væri ráðinn[8].**

1) Sveinn. 2) yfirgefa, fara burt frá. 3) aðsetrstað konúnganna. 4) Magnús. 5) hitti fyrir sèr alskjaldað lið. 6) systursyni. 7) Sveini jarli. 8) genginn í greipar óvinanna.

## Bls. 81, 2.

***Sami:*** **Ræsir þrænda! reiðr þorðir þú meiða rönd[1]; þú lèzt gefa hyrfelld[2] hús eldi ok eisu; namtu[3] hvert[4]. Gæðínga[5] vinr[6]! þú vildir gjalda gjörr[7] jarls fylgjorum skæðar dylgjur[8]; þeir rendu ört undan.**

1) skjöld. 2) felld af eldi. 3) þú tókst. 4) nl. hús. 5) vildarmanna. 6) konúngr. 7) fullkomliga. 8) fjandskap.

## Bls. 82, 1.

***Sami:*** **Hregg[1] hrindr glóðum af eikiveggjum í lopt upp, á Hrókalandi[2]; of unninn[3] óðr eldr leikr sunnr[4]. Bærr á Fjóni logar hálfu hærra; ræfr ok næfrar[5] þola nauð, nær hjónum[6]; Norðmenn brenna sali.**

1) vindr. 2) Sjólandi. 3) kveiktr. 4) fyrir sunnan, í Danmörk. 5) tróð af birkiberki. 6) uppi yfir húsbúendunum.

## Bls. 82, 2.

***Sami:*** **Vefgefn[1]! menn Sveins eigu þess at minnast ok kanna, sízt[2] vágu[3]: þrennar stefnur[4] víga freys manna[5]. Á Fjóni er von fagrs fljóðs; verum framm í vápna glammi með fylktu fólki; (oss) dugir[6] at rjóða vápn.**

1) kona. 2) síðan. 3) þeir börðust. 4) fundi, bardaga. 5) við menn Magnúsar. 6) ber.

### Bls. 83.

*Arnór:* Ek hefi vítt[1] heyrt, at Helganes hèti, þar er hinn víða frægi vargleitir[2] hrauð marga vága elgi[3]. Rýgjar reggbuss[4] bað leggja saman randir öndvert rökkr; rógskýja[5] regni[6] hèlt haustnótt gegnum.

1) víða. 2) hermk. 3) skip. 4) hermk., Magnús konúngr. 5) skjalda. 6) orustunni.

### Bls. 84, 1.

*Sami:* Drjúgspakr drengja harri lèt dörr álmi skept[1] fljúga af þrek á hjálma; eldr glæddi af oddum. Hilmir lètat sparðan hneiti[2], þjel harðara, Högna veðr[3] í gegnum; járn flugu þykt, sem þyrnir.

1) spjót með álmviðar sköptum. 2) sverð sitt. 3) bardagann.

### Bls. 84, 2.

*Þjóðólfr:* Hitzik[1] er heitir Helganes, laut Sveins ferð[2] fyrir kesjum; bana verðir rekkar sukku sárir. Mætr Mæra gramr hèlt í snæri[3] (á) dörrum[4]; örr landreki[5] rauð mörgu spjóti aski studdan odd[6].

1) þar. 2) lið. 3) skotreim. 4) spjótum. 5) konúngr. 6) spjótsblað á eskiviðar skapti.

### Bls. 84, 3.

*Sami:* Jarl flýði þaðan af auðu skipi sínu, þar er Magnús, otvin[1], gerði Sveini meinfært morð[2]. Herkonúngr rèð hrjóða[3] egg hneitis[4] í sveita[5]; blóð sprændi á brýndan brand; gramr vá[6] til landa.

1) vinr manna, konúngr. 2) mannskæðan bardaga. 3) rjóða. 4) sverðs. 5) blóði. 6) barðist.

### Bls. 85, 1.

*Arnór:* Viðr Helganes vantu keppinn yggjar veðr[1], þatz[2] æ mun uppi (vera), meðan heimrinn byggist; valgammr[3] skók blóðugt fiðri[4] í vápna rimmu[5]. Þjóðum kunnr Yngvi! fèkktu öll þeirra flaust með hríngum[6], en síðan tókt þú við meira sigri; jarl vissi sik missa foldar.

1) orustu. 2) það er. 3) örn. 4) fiðr. 5) bardaga. 6) gjörvöll skip þeirra.

Bls. 85, 2.

*Sami:* Gramr, ballr[1] Skánúngum, tók skeiðr[2] Bjarnar bróður[3] allar með hríngum[4]; þjóð reyri þeirrar tíðar[5] þíngat[6].

1) örðugr. 2) skip. 3) Sveins. 4) gjörvallar. 5) þá. 6) þángað.

Bls. 85, 3.

*Sami:* Söndug lík Sveinsmanna rekr sunnan at ströndum; öld sèr, hvar hræ fljóta vítt fyrir utan Jótland. Vitnir[1] dregr valköst or vatni, vargr slítr búk í víkum; sonr Ólafs vann hannat ara[2] föstu[3].

1) úlfr. 2) erninum. 3) saddi hann.

Bls. 86, 1.

*Þjóðólfr:* Ek bar heim frá hjaldri gauskan skjöld ok þó[1] brynju; mèr hlanzt til þess; rammr sverðdynr[2] varð suðr á sumri. Ek gat fríð vápn; ek fèkk hjálm, þar er harðfengr hilmir barði Dani; en ek sagða (það) fyrr kyrru fljóði.

1) svo. 2) bardagi.

Bls. 86, 2.

*Sami:* Sonr Ólafs bauð áðan at standa[1] upp á land. Magnús gekk reiðr af skeiðum með mikla manndýrð[2]. Snarr hilmir bað herja í Danmörku, hark vóx; hastr fleygir[3] hart um hauga[4] fyrir vestan Skáney.

1) gánga. 2) vegsemd. 3) hleypr. 4) hæðir.

Bls. 87, 1.

*Sami:* Nú taka Norðmenn (at) knýja[1] merki Magnúss: vèr gaungum nær staungum; berkak[2] sjaldan minn skjald[3] á hlið. Sláni skýtrað[4] skeifum fæti yfir Skáni suðr til Lundar; fár vegr er mèr fundinn fegri.

1) bera framm. 2) eg ber ei. 3) skjöld. 4) skýtr ei.

Bls. 87, 2.

*Arnór:* Ítr lógandi[1] Yngvi[2] vann nóga[3] uppgaungu á Skáneyju; hilmir Hörða gerði hjörþey[4].

1) gjöfull. 2) konúngr. 3) mikla. 4) orustu.

Bls. 87, 3.

*Þjóðólfr:* Bárum at æru[1] ísköld járn á lið[2] vísa;

skeyttar[3] lokvánir[4] Skánúnga ríða[5] skjótt. Rauðr eldr leikr bráðr of breiðan bý, at váru ráði; en ernir[6] atblásendr[7] valda því vási[8].

1) nægiliga. 2) hlið. 3) samanfelldar. 4) hýbýli, bæli. 5) falla. 6) ötulir. 7) brennumenn. 8) þeirri þraut.

Bls. 88, 1.

*Sami*: Siklíngr (með) miklum her eyðir sem bráðast bygð í Danaveldi; bjartr eldr svíðr um búðir seggja. Hjaldrs móðr halr berr skjöldu um heiði Danmarkar; vèr hlutum sigr, en menn Sveins renna sárir fyrir.

Bls. 88, 2.

*Sami*: Fjörðfylkir[1] lèt verða spornat forntraddan mó[2] á Fjóni; (vèr) leynumst lítt miðli skjöldúnga liðs[3]. Mörg merki fara upp í morgin. Menn Sveins, þeir er nú renna fyrir Magnús, munat[4] synja stærra verka.

1) Firða f., Noregs konúngr. 2) völl. 3) þ. e. *herflokkar konúnganna eru mjög nærri hvorir öðrum*. 4) munu ei.

Bls. 88, 3.

*Sami*: Hefik ekki annat at drekka, en þenna sjá, er ek fylgi jöfri; ek sýg sylg[1] or söltum ægi. Við Skáneyjar síða liggr fyrir oss; höfum drýkt[2] vás[3] fyrir vísa[4], en uggum all-lítt Svía körlum.

1) drykk. 2) drjúgt. 3) erfiði. 4) konúngi.

Bls. 89, 1.

*Arnór*: Allvaldr rèð eigi eklu[1] gjalda Dönum svik; fullhugaðr tiggi lèt lið Falstrbyggja falla. Úngr auðar þorn[2] hlóð þúnga valköstu fyrir örnu, en hirðmenn tæðu[3] hála[4] ara grenni[5].

1) eigi lítt. 2) konúngr. 3) dugðu. 4) vel. 5) herkonúnginum.

Bls. 89, 2.

*Sami*: Hríngserks lituðr[1] rauð næst frán[2] merki á Fjóni; gramr dróttar sótti fold; herr galt ráns frá hánum[3]. Öld minnist, hverr herskyldir[4] fyldi annan tög[5], jafnþarfr blám[6] hrafni; hilmir gat ört hjarta.

1) hermk. 2) fögur. 3) landsfólkið þoldi rán af honum. 4) hermaðr. 5) tug, tvítugs aldrinn. 6) svörtum.

**Bls. 90.**

*Oddr Kikinaskáld:* Manngrimm rimma vas[1] háið[2] fyrir Mikaels messu; Vindr fèllu, en hrafnar vöndust þar valtafni[3]. En önnur óhlitulig[4] (rimma) varð litlu fyrir jól fyrir sunnan Árós; grimm gunnr[5] hófst upp með gumnum.

1) var. 2) háð. 3) bráð. 4) ljót. 5) orusta.

**Bls. 91, 1.**

*Arnór:* Hefnir[1] Ólafs! (þèr) fenguð[2] yrkisefni; nú mun kveðit[3] aukast. Þú lætr hlakkar hauka[4] drekka hrælög[5]; ek geri slíkt at málum. Frækinn rýrir randa reyrar[6] setrs[7]! Þú hefir gervar fjórar örva hríðir[8] á einum vetri; allvaldr, þú er kallaðr ofvegr[9].

1) sonur. 2) nl. mönnum. 3) kvæðið. 4) hrafna. 5) blóð. 6) sverðs. 7) skjaldar. 8) orustur. 9) óvægr.

**Bls. 91, 2.**

(*Þjóðólfr*): Hildr[1] háðist góðu heilli, sem Magnús vildi; sóknstærir[2] selr[3] mèr færi[4] at þylja[5] um sigr. Buðlúngr þrænda rauð brand; síðan bar hann, ept[6] þrennin[7] hervíg, iðula[8] hærra sköld[9] at gjöldum[10].

1) bardagi. 2) hermk. 3) gefr. 4) tilefni. 5) kveða. 6) eptir. 7) þrjú. 8) opt. 9) skjöld, þ. e. hlut. 10) úr býtum.

**Bls. 129, 1.**

*Haraldr Sigurðarson:* Sjá 5. B. bls. 62.

**Bls. 129, 2.**

*Þjóðólfr:* Sjá 5. B. bls. 88, 2.

**Bls. 130.**

*Haraldr Sigurðarson:* Sjá 5. B. bls. 88, 1.

**Bls. 131.**

*Bölverkr:* Sjá 5. B. bls. 89, 1.

**Bls. 132.**

*Þjóðólfr:* Tveir höfðíngjar höfðust eitt at, þar er Eilífr sat: þeir fylktu hamalt[1]. Austrvindum ók[2] í öngan[3] krók; rèttr liðsmanna[4] varat Lesjum lèttr.

1) svinfylktu, gerðu oddafylking. 2) Austrvindur hneptust. 3) þraungan. 4) hermanna lögin.

**Bls. 133.**

*Illugi Bryndælaskáld*: Minn drottinn gekk opt á frið Frakka[1] fyrir óttu; duglum[2] döglíngi vara[3] fljótrent[4] at snótar bý.

1) barðist opt við Frakka. 2) dugligum. 3) var ekki. 4) það var ei hægt að reka hann á flótta.

**Bls. 134, 1.**

*Þjóðólfr*: Sá er rèð at gánga á landi Lángbarða við (...) lund[1].

1) með hugrekki.

**Bls. 134, 1.**

*Bölverkr*: Svöl skúr knúði hart svartan snekkju brand frá landi; en brynjaðar skeiðr báru skrautla[1] reiði[2]. Mætr hilmir sá málma[3] Miklagarðs fyrir barði[4]. Mörg barmfögur[5] beit[6] skríðu á hám borgararmi.

1) skrautliga. 2) búnaðinn. 3) eirturna. 4) stafni. 5) borðfögur. 6) skip

**Bls. 135.**

*Sami*: Snjallr stillir rauð stál í styr, ok gekk á mála; síðan háðist hildr hvert ár, sem sjálfir vilduð.

**Bls. 138.**

*Þjóðólfr:* Úngr hötuðr tandrauðs[1] ormtorgs[2] hætti sèr. Segja má tekna átta tögu[3] borga á Serklandi, áðr Serkjum hættr herskorðuðr[4] gekk heyja harðan hildar leik und skildi í slèttri Sikileyju.

1) glóðrauðs. 2) gulls, Haraldr. 3) tugi. 4) hermaðr.

**Bls. 139.**

*Illugi:* Haraldr! brauztu sunnlönd röndu[1] und mestan Mikjal. Sonr Buðla[2] bauð heim mágum sínum, sem (vèr) frágum.

1) með herskildi. 2) Atli.

**Bls. 140, 1.**

*Þjóðólfr:* Darrlatr[1] dasi[2] hefir staðit fjarri, dólglauss[3], þá er ómynda[4] skyndir[5] tók endr[6] Rindar eljö[7]. Afríka jöfri varat hlýðisamt[8] at halda hagfaldinni[9] Ánars mey[10] nè lýðum fyrir hånum[11].

1) sá sem ekki nennir at halda á spjóti. 2) letíngi. 3) án þess að gánga í orustu. 4) kannske: sverðs. 5) hermk., konúngrinn. 6) förðum. 7) landið. 8) honum dugði ekki. 9) sem þakin er högum og beitilandi. 10) landi. 11) Haraldi.

## Bls. 140, 2.

*Bölverkr*: Borð rendust at, Drottinn, váttu[1] drengliga; súð[2] varð dreyrafull við eyri[3], þar er (þú) blèzt[4] jörðu blóði. Lík, sokkit of stokka[5], vann[6] sand und sèr fyrir sunnan Sikiley, þar er sveiti[7] skyndi[8] miklu liði.

1) þú barðist. 2) skip þitt. 3) ströndina. 4) blandaðir. 5) fyrir borð. 6) fekk, fann. 7) blóð. 8) rann.

## Bls. 140, 2.

*Sami*: Reiðmæltr[1] jöfurr, prýddr við rausn! rèttu[2] at hætta skeiðum á vit[3] Bláland; byrr lá at breiddu[4] stáli[5]. Skúr laust á dýra skjaldrim, á þröm, stokkinn skokks mjöll[6], en lofðúngr reisti[7] lauka[8] við þúngan sjó.

1) greiðorðr. 2) þú rèðst. 3) til. 4) kannske *bræddu*, bikuðu. 5) stefni. 6) á sjórokinn borðstokk. 7) samt. 8) siglutrèn.

## Bls. 141.

*Sami*: Nenninn[1] gramr hefir gagn[2] ór hverri gunni[3]; ferð[4] gekk, ok hjó sverðum; snörp snerra[5] háðist þá síðan.

1) ötull. 2) sigr. 3) orustu. 4) herliðið. 5) hrið.

## Bls. 154.

*Þjóðólfr*: Liðs höfðíngi lèt kviðjat úlfgráð[1], þá er spjótum var lypt[2]; en þeirs[3] runnu undan, báðu friðar. Hann hefir opt keyptan auð með oddi fyrir sunnan sjá, þar er blauðum var leitt[4]; svá finnast minni til.

1) sefaði græðgi úlfs. 2) þá barizt var. 3) þeir sem. 4) þar sem bleyðimenn þorðu ekki að koma.

## Bls. 159.

*Sami*: Þjóð veit, at Haraldr hefir háðar áttján[1] grimmligar rimmur[2]; halir hafa opt rofit sáttir fyrir jöfri. Hróðigr konúngr! þú rauð[3] blóði hanss klær[4]

arnar, áðr færir hígat[5]; imr[6] gat hvassar klær, hvar[7] komut.

1) 18. 2) orustr. 3) rauðst. 4) áfjáðs. 5) híngað. 6) úlfr. 7) þar sem þer.

## Bls. 161.

*Stúfr skáld:* Eggdjarfr ofrhuginn fór leggja und sik Jórsali; (hin) efri fold var virk[1] víga valdi[2] ok Grikkjum[3]. Ok með ærnu ríki kom jörð óbrunnin heimöl[4] und gunnar herði[5]. Önd Haralds ofar löndum[6].

1) vinveitt. 2) Haraldi. 3) Grikkjum. 4) heimil. 5) hermk., Harald. 6) þetta held eg vera stef, og heyra til síðasta vísuorðs í næsta erindi: *önd Haralds (á) víst um aldr með Kristi ofar löndum.*

## Bls. 162.

*Sami:* Ráð ok reiði Egða grams[1] stóðu (móti) svikamönnum á ýmsum Jórdanar borðum[2]; þat orð rann. En fyrir sanna afgjörð gat þjóð illa frá[3] stilli[4], (ok) fekk vísan váða. Vist um aldr með Kristi[5].

1) Haralds. 2) bökkum. 3) þannig Hk. 4) fékk gjöld af honum. 5) *sjá næst undang. vísu.*

## Bls. 167, 1.

*Þórarinn Skeggjason:* Gjörr jöfurr náði handa glóðum[1], en Grikklands stólþengill gekk steinblindr straungu aðalmeini.

1) gulli.

## Bls. 167, 2.

*Þjóðólfr:* Eyðir heiðíngja[1] sútar lèt stínga út bæði augun stólþengils; þá var styrjöld byrjuð. Allvaldr Egða[2] lagði gráligt mark á bragníng austr[3], en stillir Grikkja fór illa götu.

1) vargs. 2) Haraldr. 3) eystra.

## Bls. 169, 1.

*Haraldr konúngr Sigurðarson:* Súð[1] sneið fyrir víða Sikiley: brýnn[2] vengis hjörtr[3] skreið vel und drengjum til vánar[4]; (vèr) várum þá prúðir; en ek

vætti[5] minnr[6] at motti[7] muni nenna þinnig[8]. Þó lætr gullhríngs Gerðr[9] í Görðum skolla við mèr[10].

1) skipið. 2) fljótr. 3) skipið. 4) sem von var. 5) vænti. 6) siðr. 7) ónýtjúngr. 8) þángað. 9) konan. 10) vill ei þýðast mig.

Bls. 169, 2.

*Sami:* Fundr var þess, at þeir þrændir höfðu meira lið; sú snerra[1], er vèr of gerðum, varð víst errilig[2]. Úngr skildumst (ek) við úngan allvald, fallinn í styr. Þó lætr o. s. fr.

1) hrið. 2) snörp.

Bls. 170, 1.

*Sami:* Svanni! vèr jósum sextán senn í fjórum rúmum, þá er brim vexti[1]; húm[2] dreif á hafskips húfa[3].

1) vóx. 2) sjó. 3) siður. Stef, sjá 169, 1.

Bls. 170, 2.

*Sami:* Ek kann átta íþróttir: ek fet[1] at smíða Yggs lið[2], ek er hvast[3] færr á hesti, hefik stundum numit sund, ek kann skríða á skíðum, ek skýt ok ræk[4], svá at nýtir[5]. Þó lætr o. s. fr.

1) kann. 2) Óðins öl, þ. e. yrkja. 3) vel. 4) eg ræ. 5) gagn er að.

Bls. 170, 3.

*Sami:* Munat ekkja nè úng mær enn sanna, at (vèr) værim í borg suðr, þar er (vèr) gerðum sverða svip[1] um morgin? (Vèr) ruddumst um með oddi; merki verka eru þar. Þó lætr o. s. fr.

1) orustu.

Bls. 171.

*Sami:* Ek var fæddr, þar er Upplendíngar bendu álma; nú læt ek skeiðr, leiðar búmönnum, skolla[1] við sker. Ek hefi vítt[2] skotit eygarð[3] (með) barði[4]. Þó lætr o. s. fr.

1) fljóta. 2) víða. 3) sjónum. 4) framstafni.

Bls. 172, 1.

*Stúfr:* Ógnarmildr öðlíngr Egða[1] gat[2] þá mægð,

er vildi; Gauta spjalli[3] tók, gnótt gulls ok dóttur bragníngs.

1) Haraldr. 2) fekk. 3) konúngr.

Bls. 172, 2.

*Valgarðr af Velli:* Haraldr! skauztu beiti[1] und hinn fríðsta farm, þú færðir grunnlaust gull austan ór Görðum; frami veitist þèr. Hugdyggr jöfurr! (þú) stýrðir hvatt í hörðu glyggi[2]; sáttu[3] Sigtún, er sædrif lètti; en skip hnigðu[4].

1) skipi. 2) veðri. 3) þú sást. 4) svifu.

Bls. 173.

*Þjóðólfr:* Snjallr landreki[1]! síðan reist eikikjölr örðigt vatn austan ór Görðum; allir Svíar rèðu því[2]. Skeið Haralds, höll á sollin hlæborð[3], gekk und breiðum vef[4] með gullit mikla; ótt glygg[5] fèll um tiggja.

1) konúngr. 2) eða *tjóðu þèr*, veittu þèr lið. 3) hlèborð. 4) segli. 5) stormr.

Bls. 174.

*Valgarðr:* Ógnblíðr ýngvi[1]! síðan slaung[2] eik[3] und þèr í haf frá Svíþjóðu; rètt óðal var of ætlat yðr. Rifhynd[4] bar fyrir slètta Skáney, þars[5] (hann) rendi rètt á stag; en skeiðr skelktu brúðir, nánar Dönum.

1) konúngr. 2) hljóp. 3) skipið. 4) skipið. 5) þar sem.

Bls. 175, 1.

*Sami:* Haraldr! lèztu gerfa[1] herjat alla Sælund; tiggi, þú hnyggr[2] andskotum; vargr rann hvatt at vittja[3] valfalls. Fjölmeðr[4] konúngr gekk á Fjón, en fèkkat[5] hjálmum lítit erfiði; rít[6], ríkula[7] rístin[8], brast.

1) gjörsamliga. 2) hnekkir. 3) vitja. 4) fjölmennr. 5) fekk ei. 6) skjöldur. 7) af afli. 8) klofin.

Bls. 175, 2.

*Sami:* Bjartr eldr brann í bæ fyrir sunnan Hróiskeldu; nenninn[1] ræsir lèt reykvell[2] fella ofan rönn[3]. Gnógir[4] landsmenn lágu[5]; hels[6] ló[7] sumum frelsi; harmvesalt hyski dróst hljótt til skógs á flótta.

1) ötull. 2) eld. 3) hús. 4) magir. 5) nl. fallnir. 6) fjötrar. 7) svipti.

Bls. 176.

*Sami:* Daprt of skilda ferð[1] dvaldi, en fögur sprund urðu fengin; þeir Danir, sem eptir lifðu, drifu undan. Lás[2] hèlt líki[3] drósar, fjötrar bitu fíkula[4]; mart (hlið) hörundbjarta fljóð leið[5] fyrir[6] yðr til skeiða.

1) menn. 2) læstr fjötur. 3) líkam. 4) griðarlega mjög. 5) gekk. 6) á undan.

Bls. 177.

*Þjóðólfr*: Nú er víðis valmeiðum[1] hætt[2] (at) vætta[3] góðs friðar; drótt veit mikinn ótta: her hefir skeiðr fyrir hauðri. Morðs mildr Magnús vill halda hlunngotum[4] norðan, en ítr Haraldr skreytir önnur unnvigg[5] sunnan.

1) mönnum. 2) hæpið. 3) vænta. 4) skipum. 5) skip.

Bls. 180, 1.

*Valgarðr*: Þar er (þèr) hèldut yðrum skipum sunnan, var iðglíkt[1] sjó[2] inn í ormsmunn[3], sem eldr brynni. Skeið bar hinn rauða skolpt; skein af hreinu gulli; dreki fór mikla dagleið, braut dúfu[4] und húfi[5].

1) öldungis eins. 2) að sjá. 3) dreka höfuðið. 4) báru. 5) síðunni.

Bls. 180, 2.

*Sami:* Löðr[1] var lagt í beði[2], sollit haf lèk golli[3], en hrannir[4] þógu[5] ógrlig höfuð (á) herskipum. Þú ræðr öllum Noregi, en æðri ræsir ristr aldri kaldan sjó; snjöll sveit tær[6] sínum drottni.

1) brimlöður. 2) í hrannir. 3) gulli. 4) öldurnar. 5) þvoðu. 6) veitir lið.

Bls. 180, 3.

*Þjóðólfr:* Víðkunnr vísir! þú lèzt vatn slitna und þunnri skör; dýr flaust klifu flóð, þar er (þèr) fórut austan ör Danmörk. Sonr Ólafs[1] bauð þèr síðan hálf

land[2] ok þegna við sik; hykk[3], at frændr fyndist þar hála[4] fegnir.

1) Magnús. 2) lönd. 3) eg hygg. 4) mjög.

## Bls. 185.

*Bölverkr:* Hoddstríðir[1]! síðan varð græn grund heimöl[2] þèr, er (þèr) fundut Magnús, en (þú) bautt[3] hánum gull, sem ek heyrða. Sætt endist allfriðliga í milli ykkar frænda, en Sveinn vætti[4] síðan rómöldu[5] einnar.

1) mk., Haraldr. 2) heimil. 3) bauðst. 4) vænti. 5) styrjaldar.

## Bls. 193.

*Haraldr konúngr:* Þórir! þegi þú; þú er úgegn þegn; ek heyrða, at faðir þinn hèti Hvinngestr.

## Bls. 194.

*Magnús góði:* En þótt faðir minn hèti Hvinngestr, þá gerði hann aldri garð um hestreðr[1], sem Sigurðr Sýr; sá var faðir þinn.

1) saumaði hann aldrei fyrir hesta sína.

## Bls. 196, 1.

*Arnór jarlaskáld:* Magnús! hlýð til máttigs óðar; ek veit manngi[1] annan fremra. Jóta gramr! (ek) ráðumst yppa[2] yðru kappi í fljótu kvæði. Hörða drottinn! þú er rèttr haukr; hverr gramr er þèr stórum verri; þinn þrifnuðr[3] verði meiri, en þeirra, unz allr himininn rifnar[4].

1) engan. 2) lýsa. 3) uppgángr. 4) eða: *verði þinn þrifnuðr meiri, unz himininn rifnar, en þeirra* (þrifnuðr) *allr* (einginn).

## Bls. 196, 2.

*Sami:* Ótti fengins gulls[1]! (þèr) kunnut hætta elgjum æðiveðrs[2] á skelfðan græði, eða fæðit ella flestan aldr und drifnu tjaldi. Minn hollvinr! vísundr berr

þik snarla í lyptíng innan, líkan hvössum hauki; aldri skríðr farlikt[3] eiki[4] und fríðra fylki.

1) mk., Magnús. 2) skipum. 3) falligt. 4) skip.

Bls. 197, 1.

*Sami:* Jöfra bagi[1]! (þèr) lètuð mannkyn eigi hafna yðru nafni. Hlenna[2] þreytir[3]! þú flýr hvatki[4] hyr nè málm í broddi styrjar[5]. Hlenna dólgr! ek hrósa því, er (þú) glæsir herskip: búníngr hiunna reiðar[6] er sem röðull renni upp í heiði eða brenni vitar.

1) mótstöðumaðr, yfirkonúngr. 2) ræníngja. 3) kúgari. 4) getgáta. 5) bardaga. 6) skips þíns.

Bls. 197, 2.

*Sami:* Er[1] mildíngr rennir Meita hlíðir[2] sævar skíði[3], lízt mönnum sem engla fylki himna þengils renni ósamt[4] unnar[5].

1) þegar. 2) sjóinn. 3) á skipi sínu. 4) ásamt, undir eins. 5) yfir sjóinn.

Bls. 197, 3.

*Sami:* Ek frá, at þjóðir elska eyðendr græðilostins[1] geima vals[2] hit næsta guði í þessum heimi; þín inndrótt[3] er höfð at minnum.

1) sjólostins. 2) skips, mk., nl. konúngana. 3) hirðsveit.

Bls. 200.

*Magnús góði:* Margr sverðrjóðr[1] kveðr sik alinn verða búkarls dóttur at sorgum; ek uggi allítt ótta seggja. En ef einhver eldgefn[2] bannar svefna fyrir mèr, veldr víst svinn siklíngs systir andvöku minni.

1) maðr. 2) kona.

Bls. 236, 1.

*Norðmenn:* Nú fara daprar skeiðr, herkunnar[1] fyrir sunnan lög[2], heim í húmi með þenna dýrnenninn[3] gram dauðan. Öld hefir illa haldit þat höfut[4], er fremst var jöfra; hirðmenn hafa hulit[5] skylja[6]; era[7] stríðvana[8] síðan.

1) getgáta; þjóðkunnar. 2) í Danmörk. 3) ágæta vaskan.

4) mönnum hefir illa haldizt á þeim höfðingja. 5) kistulagt. 6) konúnginn. 7) ei er. 8) harmlaust.

## Bls. 236, 2.

*Oddr Kíkinaskáld:* **Menn felldu mörg tár, þá er (þeir) báru mildan þengil í gröf: sú byrðr[1] var þúng þeim, er hann gat[2] seima[3]. Hugr deildist[4] svâ, at húskarlar grams hèldu varla vatni[5], en siklíngs þjóð sat síðan opt hnípin[6].**

1) byrði. 2) gaf. 3) gull. 4) hryggðist. 5) bundust ei tára. 6) sorgfull.

## Bls. 237.

*Sami:* **Ek má[1] harða[2] illa, sízt[3] þraut góða æfi Magnúss, móðfíkins[4] stillis[5], stríð hafa of staddan Odd. Ek hvarfla, hvers manns þurfi; strángr harmr fær ángrat mèr; þjóð er döpr at dauðan döglíng, því förum vèr aprir.**

1) mèr líðr. 2) mjög. 3) síðan að. 4) hugdjarfs. 5) getg.

## Bls. 251.

*Haraldr konúngr:* **Meðan líneik[1] lirlar[2] veri[3] sínum, galdrs[4] gerðr[5]! látum vèr haldit akkerum í Goðnarfirði.**

1) konan. 2) lætr vel að. 3) manni. 4) saungs. 5) kona.

## Bls. 252, 1.

*Þjóðólfr:* **Ek segi eina spá: annat sumar skal kallnefr[1] halda furu[2] (með) fleini (enn þá) sunnar; vèr aukum króki[3] kaf.**

1) kaldnefr, akkerið. 2) skipi voru. 3) akkeris fleininum.

## Bls. 252, 2.

*Bölverkr:* **Næsta árit bjóttu[1] leiðángr af láði, reistu[2] græði[3] glæstum gjálfrstóðum[4]; lögr gekk um (hin) fögru skip. Dýrr skukkr[5] lá á dökkri báru: Danir váru þá illa staðnir[6]; herr sá hlaðnar skeiðr fyrir hauðri.**

1) bjóstu. 2) þú ristir. 3) sjóinn. 4) skipum. 5) skip. 6) staddir.

Bls. 253.

Meyjar eybaugs[1] Dana skáru akkeris hrínga ör jast-osti[2]; þat þíng[3] of ángraði þengil. Nú sèr mörg mær ærnan krók ör járni halda skipum allvalds; færi[4] hlæs at því í morgin.

1) sjóar-. 2) mysu-osti, eða súrum osti. 3) sá hlutr. 4) færri meyar.

Bls. 254, 1.

*Grani skáld:* Ósvífr[1] Kraka drífu[2] blökk[3] lèt aldregi brá þorna úti í harða þykkum Hornskógi. Fila drottinn[4] rak flótta grams fjanda til strandar; faðir Dóttu[5] varð allskjótt at reiða auð út[6].

1) ósvífin. 2) gulls. 3) kona. 4) Noregs konúngr. 5) þorkell geysa. 6) gjalda fé.

Bls. 254, 2.

*Sami:* Döglíngr fèkk ara jóði[1] danskt blóð at drekka; veitk[2] hilmi gerðu[3] hörð hugins jól[4] við þjólarnes. Ætt arnar[5] spornaði[6] allvítt um valfalli[7]; vargr át hold Jóta, sem vildi: njóti hann þess vel!

1) erninum. 2) eg veit. 3) hafa gert. 4) mikið mannslag. 5) örninn. 6) gekk. 7) yfir valinn.

Bls. 255.

*Stúfr:* At frèttum[1] varð Falstr autt; drótt fèkk mikinn ótta; hrafn varð gladdr, en Danir váru hræddir hvert ár.

1) eptir því sem spurzt hefir.

Bls. 256.

*Þorleikr fagri:* Erumsk ván[1] vígs kænum vísa, (at) örr[2] finni Innþrænda lið í odda snerru[3] á rakna stigu[4]. Þó má guð enn valda[5], hvárr nemr annan öndu eða löndum; Sveinn hyggr lítt á sjaldfestar sættir[6].

1) mèr er þess von af. 2) sá örvi konúngr. 3) orustu. 4) sjó. 5) ráða. 6) á grið, sem sjaldan haldast lengi.

Bls. 257, 1.

*Sami:* Reiðr[1] Haraldr, sá er opt hefir rauða rönd[2]

fyrir löndum; færir breið borðröku[3] norðan á Buðla slóðir[4]. En gullmunnut[5], steini fagrdrifiu[6] lauks[7] glæsidýr[8] Sveins, þess er rýðr geira[9], sækja[10] sunnan of sjá.

1) snar. 2) skjöld. 3) skip. 4) haf. 5) með gyltum drekahöfðum. 6) máluð fögrum litum. 7) siglu. 8) skip. 9) spjót. 10) fara.

## Bls. 257, 2.

*Haraldr konúngr ok Þjóðólfr:* Linns látbrjótr[1]! baldr brynþíngs sá er land á sunnarr fyrir[2] ráða[3] hefir logit at baldri fetilstínga[4]. Þá er sjá[5] enn norðri njörðr borða[6] glymhríðar[7] hála[8] fastmálari[9]; Gramr! þú er flestum[10] fremri norðr[11].

1) mk. 2) nl. at. 3) nl. Sveinn jarl. 4) sverðs, nl. að mér. 5) sá. 6) skjalda. 7) orustu, hernk. nl. Haraldr. 8) miklu. 9) orðheldnari. 10) þann. Fagurskinna. 11) á Norðrlöndum.

## Bls. 258.

*Stúfr:* Þeir á þjóðu flýðu fund þengils af stundu; hugfullt hjarta[1] rèð stórt[2]. Haralds önd ofar löndum[3].

1) sá hugdjarfi konúngr. 2) hafði stórar raðagerðir og framkvæmdir. 3) Sjá bls. 161.

## Bls. 259, 1.

Allr Heiðabær var brendr upp með endum[1] af reiði; en þat má kalla hraustligt bragð, er ek hugða. Ván er, at (vèr) vinnim Sveini harm; vark[2] á borgararmi í nótt fyrir óttu; hár logi gaus ör húsum.

1) enda í milli. 2) eg var.

## Bls. 259, 2.

*Þorleikr fagri:* Fólkrögnir[1], hinn er veitað[2], getr fregna sveit fylkis, hve heiptgjarn konúngr hefr arnat[3] til Heiðabæjar: þá er Haraldr rendi endr[4] austan byrskíðum[5] ár[6] til þengils bæjar þarflaust; þat er án um væri[7].

1) mk. 2) veit það ekki. 3) farið. 4) forðum. 5) skipum. 6) snemmindis. 7) hvað aldrei skyldi verið hafa.

**Bls. 261.**

*Sami:* Sveinn, sá er varð borinn beztrar tíðar[1] und miðgarði[2], bauð ríkri þjóð at rjóða randir á landi. Þó lèzt bilstyggr[3] Haraldr heldr vilja berjast á byrjar val[4], ef hvatráðr konúngr hèldi láði.

1) til mestu hamíngju. 2) á jörðu. 3) bráðlátr. 4) skipi.

**Bls. 264, 1.**

*Sami:* Ek of frá, hve Sveinn elti Austmenn allt á veg flausta[1], þá er annarr snarlundaðr siklíngr hèlt undan. Allr fengr[2] frænda þengils varð fljóta á ell sollnu Jótlands hafi; þeir[3] lèttu fleiri skip.

1) haf. 2) herfáng. 3) frændr.

**Bls. 264, 2.**

*Sami:* Hugstinnir vinir siklíngs[1] buðu seggja drottni[2] mikla sætt[3]. Þeirs[4] höfðu minna lið, svöfðu hjaldr[5]. Ok snarráðir búendr dvöldu síðan sókn, er (þeir) tókust orðum; önd var ófölㅤýta kindum[6].

1) Haralds. 2) Sveini. 3) mikið fè til griða. 4) þeir er. 5) vildu ei berjast. 6) bændr vildu fegnir lifa.

**Bls. 269.**

*Þjóðólfr:* Hverr drottinvandr[1] þegn hjaldrvitjaðar[2] skyli[3] sitja ok standa, sem dýrum dólgstýranda[4] hugnar. Öll þjóð lýtr feiti fólkstara[5]; fátt er til, nema játta þat[6], sem konúngr vill þá bjóða gotnum[7].

1) -hollr. 2) hermk., Haralds. 3) skal. 4) hermk., konúngi. 5) hermk., konúnginum. 6) játa því. 7) mönnum.

**Bls. 270, 1.**

*Haraldr konúngr:* Ek sè hinn örfa Einar þambarskelfi, þann er kann skeina þángs þjálfa[1], gánga hèr upp fjölmennan. Fullafli[2] bíðr fyllar hilmis stóls[3]; ek finn, at minna húskarla lið drífr opt á hælum jarli.

1) sjoinn. 2) þessi ríki höfðingi. 3) ætlar sèr að setjast í konúngs hásæti.

### Bls. 270, 2.

*Sami*: Rjóðandi randabliks[1]! Einar mun ráða oss ör landi, nema kyssi enn þunna öxar munn.

1) sverðs, mk.

### Bls. 282.

*Þjóðólfr:* ([1]) Frán[2] sveit[3] hefir skipt sinni dáð[4] ok góðum drottni[5] við Sveini[6]; þat drengspell[7] er lengi til minna.

1) Fagrskinna hefir þann vísubelming, er þessi vísuorð eru úr tekin. 2) hraust. 3) Norðmenn. 4) hollustu. 5) Haraldi. 6) nl. brugðið trú sinni við Harald, og geingið á hönd Sveini. 7) mannskaði, eða ómannligt verk.

### Bls. 288.

*Sighvatr*: Ívar! (þèr) sátuð eigi meginfjarri[1], þá er færðag[2] orð[3] at ossum[4] ſtrum drottni: lof[5] sóttist. Þèr er vant, at hnekkja lofi þínu, alls[6] hann rèð hlýða hróðr sinn[7]; hefig beidt hljóðs á báða bekki.

1) mjög lángt frá. 2) eg færði. 3) ljoð. 4) vorum. 5) lofkvæðið. 6) fyrst. 7) lofkvæði um sig.

### Bls. 294.

*Arnór:* Tiggi rauð frána[1] egg á Fjóni, en vann[2] síðan Fjónbyggja lið rýrt; eldr rann um sjót[3] manna.

1) snarpa. 2) gerði. 3) hýbíli.

### Bls. 295.

*Haraldr Sigurðarson:* Nú emk orðinn ráðbani allra[1] ellifu ok tveggja manna[2]; þau morð eru svá, at ek man enn; (ek) eggjumst vígs. Lýtendr golls[3] inna enn gráleik, ok ginn[4] ferr með[5] skolli[6]; (menn) kveða lauki lítit gæft til auka[7].

1) alls. 2) þann. Hk. 3) menn. 4) tál. 5) er samfara. 6) prettum. 7) málsháttr: opt vex laukr af litlu.

### Bls. 308.

*Þjóðólfr:* Fagurt sprund! ek sá skeið hrundit í á framm at flæði; kenn[1] þú, hvar laung súð hins prúða dreka liggr fyrir landi. Frán[2] orms föx glóa und farmi

sízt[3] hánum var ýtt af hlunni; búnir svírar báru brunnit gull.

1) sjá. 2) fögr. 3) þannig Hk.

### Bls. 309, 1.

*Sami:* Laugardag slýngr[1] liðbaldr[2] af sèr laungu tjaldi, þá er prúðar ekkjur líta orms súð út ör bæ. Næsta[3] rèð úngr allvaldr at stýra nýrri skeið vestr ör Nið, er árar drengja falla í sjó.

1) sviptir. 2) herkonúngrinn. 3) þar næst.

### Bls. 309, 2.

*Sami:* Ræsis herr kann slíta rètt ræði[1] ör verri[2]; ekkjan[3] stendr, ok undrast áraburð, sem furðu. Ert mun snót[4], ef[5] svörtu ferkleyf[6] sæfáng[7] gánga í tvö; þöll[8] leggr leyfi á þat, við fullan frið[9].

1) þær beinu árar. 2) sjónum. 3) konan. 4) henni mun falla illa. 5) nl. hin. 6) árar. 7) þann. Hk. 8) konan. 9) hún mundi lofa árunum að brotna, ef friðr væri í landi.

### Bls. 309, 3.

*Sami:* Hár[1] veit sorgar[2], áðr en sæfáng[3] slítist ör straungum mar. Norðmeðr[4] róa negldum unnar naðri[5] út inn hegldа[6] straum. Þar er herr heldr sjö tigum ára til verra[7], er sem (maðr) líti arnarvæng af járni.

1) keipurinn. 2) þann. Hk.; reynist. 3) árarnar. 4) -menn. 5) skipi. 6) iskalda. 7) hafs.

### Bls. 310, 1.

*Sami:* Skafnir snekkjustafnar eigu skjól und skógi; vísi leiðángrs læsir[1] lönd (með) herskipa bröndum. Almenníngr liggr innan hverja vík í skerjum; hábrynjaðar[2] skeiðar láta eið hlýja[3] sèr.

1) umkringir. 2) vel útbúnar með verjum, skjaldaðar. 3) þann. Hk., skýla.

### Bls. 310, 2.

*Sami:* Konúngr lemr barði[1] háfan hlymgarð Hlèss-eyjar[2]; þá neytir þengill snekkju strengja til þrautar.

Skaði[3] lindis[4] er eigi inndæll[5] bjúgu járni[6]; grjót ok veðrin ljótu. gnegr[7] af digrum gaddi[8].

1) með stafninum. 2) sjó. 3) þannig Hk. 4) linditrjáa, vindr. 5) er skaðligr. 6) akkerinu. 7) nagar. 8) akkeris fleini.

Bls. 311.

*Sami*: Haraldr þrýstir nú sinn helmíng[1] hraustla at Elfi; nær[2] Noregs drottinn! (þèr). náttið at landamæri. Gramr á þing við[3] þumlo[4]; þar er Sveini eindagaðr hans fundr, skyldr hröfnum[5], nema Danir haldi undan.

1) liði sínu. 2) knár. 3) hjá. 4) þannig Hk. 5) nl. bardagi.

Bls. 313, 1.

*Steinn Herðisarson*: Hauklyndr[1] þengill sagði hitt er hugði vera myndu: kvað þar þrotna ván eirar[2] fur hánum[3]. Frægr hilmir kvað hvern váru[4] skyldu falla of þveran annan, heldr en vægja; menn brutu upp[5] öll vápn.

1) lyndr sem haukr, snarlúndaðr. 2) vægðar, friðar. 3) sèr, Haraldi. 4) vorra manna. 5) toku fram.

Bls. 313, 2.

*Sami*: Hugstrángr drottinn, hinn er hitti hersa, beið Dana fundar við $1\frac{1}{2}$ hundrað lángra skipa. Þat var næst, er reiðr[1] atseti[2] Hleiðrar rèð rísta þángs láð[3] þángat þrimr hundraðum sunda mörum[4].

1) ötull. 2) sá sem hefir aðsetr sitt í Hleiðru, Sveinn Danakonúngr. 3) sjóinn. 4) skipum.

Bls. 314, 1.

*Þjóðólfr*: Vargholl̄r veitir vingjafá[1] lèt lystr dreka skolla[2] fyrir miðju brjósti[3]; þat var oddr[4] lofðúngs liðs.

1) konúngr. 2) fljóta. 3) nl. flotans. 4) broddr.

Bls. 314, 2.

*Sami*: Friðvandr jöfurr bað hrausta fylkíng standa fast; mèr sýndust hildíngs viðir[1] skjalda hömlur hamalt[2]. Nýtr ráðandi manndáða lauk rammsyndan naðr[3] röndum[4] fyrir utan Nizi, svá at hver (rönd) tók aðra.

1) vinir. 2) samskarað. 3) dreka. 4) með skjöldum.

### Bls. 314, 3.

*Steinn Herðísarson:* Úlfr, stallari grams, hèt á oss alla, þá er hákesjur skulfu; róðr var greiddr úti á græði[1]. Skeleggjaðr[2] spjalli[3] snjalls landreka[4] bað leggja sitt skip vel framm með skylja[5], en seggir játta[6].

1) hafi. 2) hvatr, öruggr. 3) vinr. 4) konúngs, Úlfr stallari 5) konúnginum. 6) því.

### Bls. 315.

*Stúfr:* Haraldr vann Sveini meinfært[1] fyrir móðu[2] mynni; vísir, þar er (þèr) gerðut viðrnám, varð[3] biðja friðar. Spjallar[4] jöfurs[5], gyrðir hjörvi, herðo atróðr fyrir utan Halland; heit und blès blóði á lög.

1) farar tálma. 2) Nizar. 3) Sveinn. 4) vinir. 5) þann. Hk.

### Bls. 316, 1.

*Sami:* Hvártveggi nýtr hlífarstyggr skjöldúngr bað seggja lið skjóta ok höggva: skamt var á miðli liða. Bæði[1] fló[2] grjót ok örvar, þá er brandr hrauð[3] af sèr rauðu blóði; fregra[4] gotna fjörvi brá skjótt.

1) þannig Hk. 2) flaug. 3) ruddi. 4) frægra.

### Bls. 316, 2.

*Þjóðólfr:* Upplenzkr hilmir[1] dró álm[2] alla nótt; hinn snjalli oddviti lèt hremsur[3] drífa á hvítar hlífr[4] Blóðugr oddr smú[5] brynjur búandmönnumk; flygr[7] vigra[8] óx, þars[9] gjöld finna[10] stóðu í fanngs[11] skjöldum.

1) Haraldr. 2) boga. 3) örvar. 4) hlífar. 5) smó, smaug. 6) þannig Hk. 7) flug. 8) spjóta. 9) þar er. 10) örvarnar. 11) drekans.

### Bls. 317.

*Steinn Herðísarson:* Vèr börðumst; undr er, ef örmóts viðir[1], þeir er vörðu víða grund, kendu eigi Harald gjörva[2] of[3] síðir, þá er Norðmenn hèldu forðum herskildi[4] fyrir Nizar ósi; hrafn fèkk gnótt náss í óttu.

1) menn. 2) fullvel. 3) um. 4) börðust.

### Bls. 318, 1.

*Arnór jarlaskáld:* Tiggi, lèztu hjálmáro[1] heyra,

er (þú) rautt[2] tvær týrfíngs[3] eggjar, hits[4] fyrir Nisi. Áðr mannfall væri, skriðu borð nýs[5] naðrs[6] norðan, at fýsi[7] allvalds; hrafnþarfr konúngr[8] hlaut skjóta stafni til Hallands.

1) hermenn. 2) rauðst. 3) sverðs. 4) þar. 5) nýsmíðaðs 6) dreka. 7) vilja. 8) herkonúngr.

## Bls. 318, 2.

*Sami:* Heiðmær[1] konúngr, sá er hvergi flýði geirjálm[2], hrauð[3] Dana skeiðir, glaðr und gulli roðnum hjálmi. Buðlúngr! skjaldborg raufst; hoddglötuðr[4] skaut broddum gegnum brynjur bragna, en skúfar[5] súngu of ná.

1) stórgjöfull. 2) úr orustu. 3) eyddi. 4) mk., konúngr. 5) hræfuglar.

## Bls. 319, 1.

*Sami:* Hinn forhrausti Sveinn gekkat[1] saklaust[2] af sinni snekkju: þat er hugi minn; harðr málmr kom við hjálma. Farkostr[3] fljótmælts[4] vinar Jóta[5] hlaut at fljóta auðr, áðr en öðlíngr flýði frá dauðri verðúng[6].

1) gekk ei. 2) án orsakar. 3) skip. 4) -mælts. 5) Sveins. 6) hirð.

## Bls. 319, 2.

*Þjóðólfr:* (Menn) kváðu gegnan Sogns gram[1] hrjóða senn á einni svipstund hit fæsta sjötigu glæst skip Sveins þjóðar[2].

1) Harald. 2) manna.

## Bls. 320.

*Sami:* Sveinn! (þú) átt launa sex jörlum Dana, þeim er vexa[1] hvöt[2] örleiks[3], sigr innan[4] eina gunni[5]. Vígbjartr[6] Fiðr[7] Arnason, sá er vildit[8] forðast[9] snöru hjarta, varð fánginn í miðri fylkíngu.

1) auka. 2) hvatleik. 3) orustu, nl. berjast hvatliga. 4) í. 5) bardaga. 6) frægr af orustum. 7) Finnr. 8) vildi ei. 9) nl. með.

## Bls. 331, 1.

Gramr, sá er gerðir[1] grund[2], lykr lángskipa stöfnum norðr frá Eyrarsundi; hrafngælir[3] sparn[4] höfn

hæli[5]. Gulli glæstir brandar[6] ristu gjálfr, en súðir skjálfa; (þat) var heldr hvast fyrir vestan framm Hallandi.

1) umkríngir. 2) nl. með skipum. 3) þann. Hk., hermk., Sveinn konúngr. 4) sporaði. 5) með kjalarhælnum, nl. lagði til hafnar. 6) framstafnar.

Bls. 331, 2.

Eiðfastr Haraldr! (þèr) gerðut[1] opt skeiðum fyrir jörðu. Sveinn sker ok eysund til fundar annars konúngs. Lofsnjallr hrafngrennir[2], hinn er lykr hvern vàg stöfnum, hefra[3] út[4] lítit lið allra Dana sunnan.

1) girtuð. 2) hermaðr. 3) hefr ei. 4) úti.

Bls. 331, 3.

Snjallr gramr! (þèr) sustóð[1] suðr, þar er allir Danir[2] æsto[3] mæltrar stefnu; enn sèr eigi minni efni[4] Nær[5] Sveinn tekr at nenna[6] norðr til landamæris (at) finna Harald, varð vindsamt[7] fyrir víðri jörðu.

1) skunduðuð. 2) þann. Hk. 3) heimtaðu. 4) nauðsýn til sáttafunda. 5) vaskr. 6) fara. 7) stormasamt.

Bls. 232, 1.

(þá) er seggir hvárstveggja[1] hittast, telja snjallir búendr mjök hátt allmörg orð, þau er fyrða ángrar. þeir þegnar, er þreyta[2] allt í gegnum[3], láta eigi brátt við sáttum. Ofrhugi svellr ollu[4].

1) þannig Hk. 2) keppa. 3) ávalt, um allt. 4) = öldu, mönnum.

Bls. 332, 2.

Ófriði verðr allhætt, ef sættast skal; þeir menn, er kunnu miðla, vega öll mál jöfra í skálum.

Bls. 333.

Hefik[1] heyrt hitt, at glaðr Haraldr ok Sveinn settu hvárttveggi öðrum gisla; þat var góð sýsl[2]. þar laukst[3] fylld[4] sátt með váttum ok öllum fullum frið, at hvárgi[5] skildi; þeir haldi svá særum!

1) eg hefi. 2) raðstöfun. 3) þannig Hk. 4) fullkomin. 5) á hveriga hliðina.

**Bls. 336.**

*Þjóðólfr:* **Öld Steinkels[1], sú er vildi veita lið ógnteitum jarli[2] gefin helju; styrkr stillir olli því. En hinn, er fegir[3], segir: Hákon lèt hörva hvat[4] fyrir, því at aflván[5] þaðan[6] reyndist hánum illa.**

1) þannig Hk. 2) nl. var. 3) sem vill fegra málið. 4) hvatt. 5) líðs von. 6) frá Svíaríki.

**Bls. 339, 1.**

*Sami:* **Landkarlar[1], lystir sleitu[2], lètu[3] gram varla sæma[4] lög; öld gerði ódæmi á jörðu. Ok tröll brutu hrís í hleypikjola hæls[5] þeim andskotum vísa, er ollu því ráði þjóðar.**

1) bændr. 2) gjarnir ófriðar. 3) sögðu. 4) halda. 5) fætr; tröll brutu hrís á fætr þeim, gerðu þeim farartálma, þ. e. *þeir fóru illa för.*

**Bls. 339, 2.**

Sjá bls. 269.

**Bls. 340, 1.**

*Sami:* **Hneykir[1] hólmbúa[2] tók harðan taum við Rauma; ek hygg fylking hins frægsta Haralds gengu[3] þar fast. Eldr var gjörr[4] at gjaldi[5], gramr rèð[6]; en þá tæði[7] hár hrotgarmr[8] at færa arma búendr í hóf.**

1) hnekkir. 2) Haraldr konúngr. 3) hafa gengið. 4) kveyktur. 5) til hegníngar. 6) nl. því. 7) = rèð, náði. 8) eldr.

**Bls. 340, 2.**

*Sami:* **Gagn[1] greipra[2] þegna brann; glóð varð föst í tróði; herjoga hristir[3] laust Heina illum steini. Lýðir báðu sèr lífs; logi þíngaði[4] Hríngum nauðgan dóm, áðr niðrfall Hálfs galla[5] næmist[6].**

1) búsgagn. 2) grimmra. 3) Haraldr konúngr. 4) kvað upp yfir. 5) eldsins. 6) fengist; þannig Hk.

**Bls. 341, 1.**

*Sami:* **Stál bitu rendr[1] fyrir ströndu. Þriðja árit færði fylkir Hörða[2] starf[3] til króks[4] at Hvarfi: friðr namst[5].**

1) skildi. 2) Haraldr konúngr. 3) stríðið. 4) til lykta. 5) fekst.

### Bls. 341, 2.

*Sami:* Nú er vandmælt, svá at afstandist, of[1] þau verk, er[2] vísi kendi Upplendíngum at eiga auðan[3] plóg. Höfuð svinns þengils[4] hefir þessi þrjú missari fengit sèr svá lángs tírar[5] at æ mun vinnast[6].

1) um. 2) þegar. 3) þannig Hk. 4) svinnr þengill. 5) frægðar. 6) vara.

### Bls. 361.

*Sami:* Þórr stórra smiðbelgja[1] varp hvatt höldnum eldíngum[2] ör þrætu þorpi[3] at jötni hafrakjöts[4]. Geirröðr hrökkviskafls húða[5] tók glaðr við þeirri síu[6] or hljóðgreipum[7] afli galdra[8] smiðju[9].

1) járnsmiðrinn. 2) nl. illyrðum. 3) munni sínum. 4) skinnaranum. 5) brákar, nl. skinnari. 6) eldstroku. 7) þjótandi. 8) hljoða. 9) munns, þ. e. hann svaraði þeim illyrðum, er járnsmiðr hreytti að honum.

### Bls. 362.

*Sami:* Sleggju-Sigurðr[1] eggjaði snák váligrar[2] brákar[3], en skapdreki skinna[4] skreið of[5] leistar heiði[6]. Menn sást[7] orm, búinn ilvegs kilju[8], áðr neflángr konúngr tángar[9] ynni á naðri nautaleðrs[10].

1) járnsmiðr. 2) voðaligrar, stórrar. 3) skinnara. 4) skinnari. 5) yfir. 6) golfið. 7) óttuðust. 8) skóflötum, nl. skinnarann. 9) járnsmiðr. 10) skinnaranum.

### Bls. 363, 1.

*Halli:* Mèr sýndist frændi Frísa kyns[1] færðr í brynju; hjálmfaldinn kútfaldi[2] geingr fyrir hirð í hríngum[3]. Túta, vanr úthlaupi, flærat[4] eld í ári[5]; sèk[6] sverð leika á síðu rúghleifa[7] skerði[8].

1) Túta hinn frislendski. 2) kannske: dvergr. 3) hringabrynju. 4) flýr ekki. 5) í ár. 6) eg sè. 7) melköku. 8) honum Tutu.

### Bls. 363, 2.

*Haraldr ok Halli:* *Har.*, Hvert stillir[1] þú, Halli? *H.*, ek hleyp framm at skyrkaupum. *Har.*, þú mun láta gera smjörvan graut. *H.*, þat er gjörr[2] matr.

1) fer. 2) góðr.

### Bls. 364.

*Halli:* Haddan skall, en Halli hlaut of-fylli grautar; ek kveð hornspánu hlýða[1] hánum betr, en prýði.

1) hæfa.

### Bls. 365.

*Sami:* Greppr[1] þá dauðan grís at gruntrauðustum[2] ræsi; njörðr bauglands[3] sèr börg[4] standa á borði fyrir sèr. Ek lít rauðar runa[5] síður; ek ræð skjótgervu kvæði. Seggr hefir brendan rana af svíni; send heill, konúngr.

1) eg, skáldið. 2) huguðustum. 3) skjaldar, mk., cg. 4) svínið. 5) svíns.

### Bls. 376.

*Sami:* Hraung[1] er, þars ek held um háfan þaungul, sízt[2] seldag fjör[3]; sýn[4] er, at sitk[5] at Ránar[6]; snmir ro[7] í búð með humrum[8]. Ljóst er[9] at gista lýsu[10]; ek á lönd út[11] fyrir ströndu; því sit ek bleikr í bruki[12], þari blakkir[13] mèr um hnakka.

1) niðr, hávaði. 2) síðan. 3) eg dó. 4) auðsèð. 5) eg sit. 6) hjá Rán. 7) eru. 8) stórum kröbbum. 9) það er bjart. 10) hjá lýsunni. 11) úti. 12) þángi. 13) slæst.

### Bls. 385, 1.

*Þorgils norðmaðr:* Ek dró ófúsa ýsu; ek átta fáng[1] við laungu: ek vann hlömm[2] of höfði hennar[3]; þat var fyrir skömmu. Þó man ek hitt, at hafðak hrotta[4], vafðan gulli; dúðum[5] dörr[6] í blóði dreings; þat var fyrir leingra[7].

1) strit. 2) þúngt högg. 3) eg rotaði hana. 4) sverð. 5) hristum. 6) spjót. 7) leingra síðan.

### Bls. 385, 2.

*Haraldr konúngr:* Harða[1] dyggir hirðmenn hjuggu stirða; ferð[2] sótti framm á flótta, en þat var[3] skömmu. Hitt var fyrr, at ek rauð branda[4] fjarri fóstrlandi; sverð saung í Serkjagarði, en þat var[5] laungu.

1) mjög. 2) liðið. 3) nl. fyrir. 4) sverð. 5) nl. fyrir.

### Bls. 385, 3.

*Þjóðólfr*: Mildíngr rauð[1] spjótum í móðu[2]; þar var íllt geira mót[3]; goð voru gröm Dönum; en þat var[4] skömmu. Gramr setti niðr merki á slèttu Serklandi, staung[5] stóð at stillis ráði; þat var fyrir laungu.

1) skaut. 2) ánni, Nizi. 3) skæðr bardagi. 4) nl. fyrir. 5) merkis staungin.

### Bls. 386.

*Þorgils*: Konúngr, otvin[1]! heyr þú á uppreist[2] orða minna; gramr gaf mèr vafða gullit[3]; þat var fyrir skömmu. (þú) saddir örn, ok eyddir fjörvi blámanna[4] örum; streingr styrfengins[5] stillis gall; þat var fyrir leingra.

1) vinr manna. 2) frammburð. 3) gullbaug. 4) nl. með. 5) harðfeings.

### Bls. 387, 1.

*Haraldr konúngr*: Hin skýra mær! ek hlaut skjóta framm hlýri[1] af hröðúng[2]; felld súð gekk á flæði[3]; þat var fyrir skömmu. Enn fyrir sunnan England óð borð und mèr norðan; ristin[4] röng skalf í röstum; en þat var[5] laungu.

1) skipi. 2) í skyndi. 3) til sjóar. 4) skekin. 5) nl. fyrir.

### Bls. 387, 2.

*Þorgils*: Vinda mýgir[1]! (þú) lèzt of vunnin virðum kunn römm víg; þrændr drifu ríkt und randir; en þat var (fyrir) skömmu. Enn fyrir sunnan Serkland hjó snarr þengill drengi; gramr kunni gaung at gunni[2]; en þat var[3] laungu.

1) eyðir. 2) var kænn í orustum. 3) nl. fyrir.

### Bls. 401.

*Úlfr stallari*: Ek fèkk jafnan ónauðigr auðar. Stallarum stillis era þörf[1] at hverfa innan[2] stafnrúm[3] Haralds, ef (vèr) skulum tveir hrökkva undan fyrir einum þíngamanni. Hrein herbrekkan[4]! úngr kendag mèr[5] annat.

1) þeir þurfa ekki. 2) gánga í. 3) lyptingu. 4) = hör-brekka, kona. 5) vandi eg mig á.

## Bls. 403, 1.

*Tröllkona*: Víst er, at allvaldr austan[1] eggjast vestr, at leggja mót[2] við marga prúða knútu[3]; þat er minn snúðr[4]. þar á valþiðurr[5] velja beitu, veit sèr ærna steik[6] af stafns haukum[7] stillis; ek fylgi þar jafnan.

1) Noregs konúngr. 2) fund. 3) margan falligan köggul. 4) hagr, gott fyrir mig. 5) hrafn. 6) bráð. 7) skipum.

## Bls. 403, 2.

*Sama:* Skæð[1] brúðr örnis jóða[2] sèr gerfa[3] óför konúngs, (ok) lætr skína rauðan skjöld, er dregr at hjaldri. Svanni[4] sviptir holdi manna í svarðar[5] kjapta; óðlát konan litar úlfs munn innan blóði.

1) þannig Fagrskinna. 2) tröllkona. 3) gjörla. 4) tröllkonan. 5) loðna.

## Bls. 404.

*Draummaðr*: Frægr gramr hinn digri vá flestan sigr til fremdar; ek hlaut heilagt fall til vallar[1], því at sátum heima. Ek uggi efst[2] ráð tiggja; yðr feigð mun of byrjuð: guð veldrat[3] slíku; (þèr) gefit fyllar[4] fákum fíks[5] trölls[6].

1) jarðar. 2) hið síðasta. 3) veldr ei. 4) fylli. 5) gráðugs. 6) nl. úlfum.

## Bls. 407, 1.

*Steinn Herðisarson*: Úngr vísi! (þú) lèzt búendr falla allnær Úsu; herr sótti[1], þar er hlíftrauðr konúngr hætti lífi. þángatkváma þess konúngs mun iflaust vera Englum, er þá lifðu, sem[2] renni enn eptir[3].

1) nl. framm. 2) nl. hann. 3) nl. þeim, elti þá.

## Bls. 407, 2.

*Sami*: Benjaregn[1] fèllu vítt um völlu, en víkíngar óðu blóð bragna; vargr náði bjargast þar.

1) bloðlækir.

**Bls. 407, 3.**

*Arnór:* Vísi rauð eirlaust[1] þúng járn á Englum vel nær Úsu; meira valfall nè kemr[2] um snjallan her.

1) vægðarlaust. 2) kemr ekki.

**Bls. 408, 1.**

*Steinn Herðisarson:* Mörg þjóð fórsk[1] í móðu[2]; sokknir menn druknuðu: ófár drengr[3] lá ár[4] of[5] úngan Mørukára. Fíra drottinn rak flótta framm; herr tók á ramri rás fyrir röskvum vísa. Ríklundaðr veit undir[6].

1) fórst. 2) díkinu. 3) margr maðr. 4) forðum. 5) yfir eða kríngum. 6) so á hèr að standa, einsog bls. 438 stendr; þetta er stef í drápunni: *Ólafr borinn sólu — ríklundaðr veit undir — sik beztan gram miklu;* það skal so upp taka: *ríklundaðr Ólafr veit sik borinn miklu beztan gram undir sólu.* (nl. á jarðríki).

**Bls. 408, 2.**

*Haraldstikki:* Vápnum höggnir Valþjófs liðar[1] lágu fallnir í fen ofan, svá at gunnhvatir Norðmenn máttu gánga yfir á nám einum.

1) liðsmenn.

**Bls. 409, 1.**

*Arnór:* Glóðheitr sveiti[1] fèll ofan, at fundi stillis: ve[2] óðu framm; grjót fló ört á móða Gauta[3]. Hykk[4] tók-fúsa[5] þjóð náðu at láta líf þaðra[6] þúsundum[7]; spjót flugu laus í hausum gumna.

1) blóð. 2) merkin. 3) menn. 4) eg hygg. 5) hernaðr-gjarna. 6) þar. 7) nl. saman.

**Bls. 409, 2.**

*Sami:* Gjafvinr Sygna[1], hinn er aldri fór á hæl fyrir hreinskjaldar[2] mönnum[3], fèkk gagn[4]; hildr[5] gekk at vildra mun[6]. Jarlar dyndu[7] undan til borgar; lið þeirra fèkka[8] eir[9]; mannkyn hefir þann morgun at minnum.

1) Noregs konúngr. 2) fagrs skjaldar. 3) hermönnum. 4) sigr. 5) orustan. 6) að óskum. 7) þustu. 8) fèkk ei. 9) vægð.

Bls. 413.

*Sami:* Ítr ýngvi[1], sá er aldregi sásk[2] háska á æfi sinni, bauð uppgaungu við lítinn helmíng[3]. En öflugr herr fór sunnan um England at berjast við dýran fylki; þeir fundust af stundu[4].

1) konúngr. 2) óttaðist. 3) liðsafla. 4) brátt.

Bls. 416, 1.

*Haraldr Sigurðarson:* Vèr gaungum framm í fylkíngu brynjulausir und blár[1] eggjar; hjálmar skína, ek hefka[2] mína[3]; skrúð[4] vårt liggr nú niðri at skipum.

1) bláar. 2) hef eigi. 3) nl. brynju. 4) herbúnaðr.

Bls. 416, 2.

*Sami:* Vèr krjúpum eigi í bug skjaldar at hjaldri[1] fyrir brakan vápna; haldorð[2] hildr valteigs[3] bauð svå. Menskorð[4] bað mik forðum bera hátt hjalmstall[5] í gný málma, þar er mættist hlakkar íss[6] ok hausar.

1) í orustu. 2) orðheldin. 3) -handar, kona. 4) hún, konan. 5) höfuðið. 6) sverð.

Bls. 417, 1.

*Þjóðólfr:* Þótt sjálfr fylkir falli til vallar, skalka ek[1] hverfa frá úngum erfíngjum grams; gengr, sem guð vill. Sól skínnat[2] á sýnni[3] konúngs efni, en þá báða; hefnendr[4] snjallráðs Haralds eru gerfir[5] haukar[6].

1) skal eg ei. 2) skín ekki. 3) vænligri. 4) synir. 5) sannir, fullkomnir. 6) nl. hreystimenn.

Bls. 417, 2.

*Arnór:* Ofrausn[1] stillis í straungu stáls eli[2] olli þat[3], er stríðir ormalátrs[4] máttið[5] bíða elli: lituðr hramma aldins[6] ótams varðrúnar[7] viggs[8], sá er aldregi sparði sik í vápna glyggvi[9].

1) ofdirfska. 2) bardaga. 3) því. 4) gulls, konúngr. 5) mátti ei. 6) gamals. 7) tröllkonu. 8) úlfs, nl. sá hermaðr. 9) orustu.

Bls. 418.

*Sami:* Hlítstyggr[1] hilmir hafðit[2] litit brjóst[3] fyrir sèr í hjálmþrimu[4], nè bifðist böðsnart[5] hjarta kon-

úngs: þars at blóðugr hjörr hins barra[6] döglínga hneitis[7] beit skatna, til þarfar hersa; menn sá þat.

1) ofrhugaðr. 2) hafði ei. 3) vörn. 4) orustunni. 5) herdjarft. 6) röskva. 7) -hnekkis, yfirkonúngs.

Bls. 419.

*Stúfr:* Varðandi geira regns[1], sá er vætki[2] sparði fjör, gekk glaðr í gegnum orrostur þaðra[3], sem[4] vind. Sá gramr flýðit[5] eld, nè járnit fellda[6]; þess of-dæmi eru síðan sæm[7] und erkistóli els[8].

1) hermk., Haraldr konúngr. 2) alls ekki. 3) þar. 4) gegnum. 5) flýði ei. 6) skot. 7) víðfræg. 8) himni, á jörðu.

Bls. 420, 1.

*Þjóðólfr:* Öld hefir goldit íllt afroð[1]; nú kveð ek her stiltan[2]; Haraldr bauð þjóðum þarflaust þessa för austan. Æfi snjalls siklíngs lauk svá, at vèr 'rom[3] allir í vandum stað[4]: lofðúngr fèkk grand hins leyfða[5] lífs.

1) beðið stóran skaða. 2) staddan í háska. 3) erum. 4) í hættu. 5) fræga.

Bls. 420, 2.

*Arnór:* Dauði hins ýgja[1] konúngs varð eigi auðligr[2]; broddar[3], reknir hoddum[4], hlífðut[5] hlenna sæfi[6]. Allir liðsmenn hins milda mildíngs kjöru heldr meirr falla um[7] fólksnaran fylki, enn[8] vildi grið.

1) óttaliga. 2) varð mönnum til mikils ógagns. 3) skeyti. 4) gullrekin. 5) hlífðu ekki. 6) konúnginum. 7) kríngum. 8) nl. at þeir.

Bls. 422, 1.

*Sami:* Heiti Völsúngs[1] fór vítt; sá er skaut nýtla[2] herskips borði norðan ör Nið, varð harða[3] marglofaðr.

1) konúngs. 2) röskliga. 3) mjög.

Bls. 422, 2.

*Sami:* Mèr er myrkt[1], alls[2] greppr[3] sèrat[4], hver í heimi orkar meira (at) jöfnum þrek; hrafngrennir[5] er orðinn[6] harðr. Mildíngr gat ert[7] mest úsljótt hjarta; vinnur[8] hvers eljunfíms[9] grams und himni hefir minni kostuð[10].

1) óljóst. 2) með því. 3) skáldið, eg. 4) sèr það ekki. 5) hermk., Haraldr. 6) hefir verið. 7) erft, öðlaðist. 8) framkvæmdir. 9) duganligs. 10) það er minna í þær varið, en framkvæmdir Haralds.

## Bls. 423.

*Sami:* Harðgeðr Haraldr vissi sik ríkra hverjum gram und miðgarði[1]; döglíngr rèð slíkri dýrð til dauða. Heilög dýrri fold[2] hefir átt[3] hins stýröndum[4] efra[5] afreka[6]; frægri hilmir hnígrat[7] til moldar.

1) á jörðu. 2) himnariki. 3) ættíngja. 4) konúngum. 5) ágætara. 6) konúngs, nl. frænda Olafs helga. 7) hnígr ei.

## Bls. 426, 1.

*Þorkell Skallason:* Sóknar uggr[1] lèt hundrað hirðmenn jöfurs brenna í heitum eldi, en þat var seggjum sviðukveld. Frètt er, at fyrðar knáttu liggja und kló flagðviggs[2]; imleitum[3] ölsblakk[4] fèkst áta af hræm Frakka.

1) hermk. 2) úlfs. 3) blakkleitum. 4) úlfi.

## Bls. 426, 2.

*Sami:* Vilhjálmr, sá er rauð málma, hinn er skar hèlt[1] haf sunnan, hefir of-vèltan hraustan Valþjóf í trygð. Satt er, at manndráp man síð lètta á Englandi; éi deyr meiri mildíngr, en minn snarr harri var.

1) hélað, kalt.

## Bls. 427.

*Steinn Herðísarson:* Fylkir lèt hin fljótu flaust í haf, er leið at hausti; konúngr skaut stafni[1], þar er beitir Hrafnseyrr[2]. Borð tráðu breiðan veg lángra skipa[3] óðr sjór[4] brimsgángr fèll um súðir. Sik miklu beztan gram[5].

1) lagði frá landi. 2) -eyri. 3) hafið. 4) sjóar. 5) Stef, sjá bls. 408, 1.

## Bls. 428.

*Sami:* Þrýstir Engla otvins[1] hèlt austr liði sínu; konúngr Rauma braut stóran straumsæ um stýri. Allr

herr[2] tók glaðr við öflgum stilli, þá er hrínglestir[3] kom hèðra[4] vestan, Ólafr borinn sólu[5].

1) konúngs, Ólafr konúngr. 2) landsfýðr. 3) mk., hann. 4) hingað. 5) Stef, sjá bls. 408, 1.

Bls. 429, 1.

*Þjóðólfr*: Alldyggr eyðir Selund-byggja[1] naut áræðis; hugr ræðr hálfum sigri manna: Haraldr sannar þat.

1) Sjálendinga.

Bls. 429, 2.

*Sami:* Ráðgegn konúngr refsar þegnum reyndan ofsa; hykk, at rekkar hilmis haldi upp, því er valda[1]. Hljótendr sverðs[2] hafa slíkar byrðar, er (þeir) brjóta sèr[3]: Haraldr skiptir svá heiptum[4]: hverr nýtr sanns[5] við annan.

1) fái maklig gjöld verka sinna. 2) menn. 3) slíkar refsíngar, sem þeir vinna til. 4) refsíngum. 5) rèttinda.

Bls. 430.

*Sami:* Vekjandi snekkio[1] hjaldrs[2] lèt veitt mèr mörk fyrir verka[3]: hann lætr tilgerðir valda hylli sinnar.

1) þannig Hk. 2) hermk., konúngrinn. 3) kvæði mitt.

Bls. 435.

*Steinn Herðísarson*: Sóknörr Engla stillir[1] biðr lið eggdjarfra seggja stika öll sund dörrum[2] fyrir sínu landi. Jörð Fila drottins[3] mun eigi verða auðsótt sverða sóknherðendum[4]. Sik miklu beztan gram[5].

1) óvinr, Ólafr konúngr. 2) hafa allstaðar herskip úti. 3) Noregs konúngs. 4) þannig Fagurskinna. 5) Stef, sjá bls. 108, 1.

Bls. 436, 1.

*Sami:* Danskir drengir gengu utanborðs til jarðar[1] með brynjur ok hjálma; dynr úriks[2] málms varð gjörr. Sárir rekkar sunnan sukku til hafs grunna: hárr hranngarðr varp hausum þeirra á þröm jarðar[3].

1) til botns. 2) vots. 3) sjáfarströndina.

Bls. 436, 2.

*Sami:* Í Kaupángi[1], þar er heilagr gramr[2] hvílir,

mun sóknstrángr jöfur banna Sveini síu óðul; hann er ríkr. Ólafr konúngr[3] mun unna sinni ætt[4] hála[5]; arfi Úlfs[6] þarf-at[7] kalla þar til alls Noregs.

1) Niðarósi. 2) Ólafr helgi. 3) helgi. 4) sínum ættíngja, Óafi Haraldssyni. 5) mjög vel. 6) Sveinn. 7) þarf ekki.

### Bls. 436, mismgr. 1.

*Sami:* Ek veit, hvar óslækinn[1] Ólafr rauð mæki[2] úti fyrsta sinni; mèr deilast minni til mála. Fjölgóðr konúngr hlaut fögur sverð lituð blóði til hafs[3] fyrir sunnan Halland; fyrðar ruðo branda.

1) hinn vaski. 2) sverð. 3) á sjó.

### Bls. 437, 1.

*Sami:* Enn hraustgeðr konúngr bað halda herskildi austan[1] at gerva[2] gunni[3]: gramr bjóst við römum styr[4]. Laung borð færðu út litlu meira lið fyrir norðan Stað; tveir döglíngar tráðu túnvöll reyðar[5].

1) nl. til. 2) heya. 3) orustu. 4) bardaga. 5) sjóinn.

### Bls. 437, 2.

Ólafr varði jörð ógnarorðum ok friðmálum, svá at allvaldr þorði eigi kalla til[1].

1) nl. ríkis í Noregi.

### Bls. 438.

*Steinn Herðísarson:* Konúngr heldr ólaust stóli[1], sízt[2] heiptbráðr jöfurr náði hári[3] foldu; ætt Egða drottins[4] þreifst. Mætr hilmir Rauma verr grund[5] köldum málmi[6] ok röndu[7]; ek man þengils lof. Ríklundaðr veit undir[8].

1) ríki sínu. 2) síðan. 3) hárri. 4) Noregs konúngs. 5) nl. með. 6) sverði. 7) skildi. 8) Stef, sjá bls. 408, 1.

### Bls. 439, 1.

*Sami:* Eggdjarfr þengill þrænda vill leggja öll lönd í frið við ærna snilli[1]; þat líkar skötnum vel. Þjóð hugnar[2], er þrályndr Engla ægir kúgar þegna til friðmála. Ólafr borinn sólu[3].

1) með mikilli snild. 2) líkar vel. 3) Stef, sjá bls. 408, 1.

## Bls. 439, 2.

*Arnór jarlaskáld:* Ek hèt á[1] góðar skipasagnir[2], þá er[3] sátum hvern vetr gagnvert hrafns verðgjafa[4]; gramr drakk jafnan[5] lið[6].

1) ávarpaði. 2) menn. 3) vèr. 4) hermk., konúnginum. 5) opt. 6) öl.

## Bls. 441.

*Steinn Herðísarson:* Hoddörr[1] þengill, sá er rýðr odda, gleðr her[2] hríngum; bragníngr bragna lætr bekksagnir[3] fagna gjöfum. Nenninn[4] Noregs konúngr gefr Norðmönnum stórum[5]; Engla þverrir[6] er örr. Ólafr borinn sólu[7].

1) ör af gulli. 2) menn. 3) veizlugesti. 4) röskr. 5) stórgjafir. 6) eyðir, Ólafr konúngr. 7) Stef, sjá bls. 408, 1.

## Bls. 442.

*Stúfr:* Ek vissa gagnsælan[1] hildar-hyssi[2] fagna mèr af góðum byr gríðar[3]; nýzt[4] er at kanna[5] hann: þá er gjarn bræðir blóðstara[6], grimmr baugum[7] gekk sjálfr með gyltu horni (að) drekka á mik[8] at Haugi.

1) sigrsælan. 2) -hvessi, hermk., konúnginn. 3) hug. 4) best. 5) hafa viðkynníngu við. 6) hermk. 7) mildr af fè. 8) mer til.

## Bls. 447, 1.

*Steinn Herðísarson:* Örr ættstuðill jöfra gefr hábrynjuð skip ok steinda[1] knörru; hann vill[2] synja hnöggvi sinnar[3]. Þjóð nýtr auðar Ólafs; sè[4] þú, hverr annarr konúngr reiðir[5] mönnum slíkt fè. Sik miklu beztan gram[6].

1) málaða. 2) mun. 3) neita því, að hann sè spar af fè, þ. e. hann er örlátr. 4) sjá. 5) greiðir. 6) Stef, sjá bls. 408, 1.

## Bls. 447, 2.

*Sami:* Kynstórr hilmir gefr fírum brynjur ok hjálma, svá at virðir eingis[1]; þau klæði prýða hirð konúngs. Dyggr þeingill lætr dreingi þiggja af sèr þúngar Hars gerðar[2]; vísi launar verðúng[3] svá vás[4].

1) eins ok hann meti það að aungvu. 2) herklæði. 3) hirðin. 4) erfiði sitt.

Bls. 448.

*Sami*: Ólafr, (hinn) mildi konr[1] hildínga[2], gefr höggvit gull[3] til hylli[4], at alls.eingi snjallra jöfra má[5] svå. Spyrrþú, hverr gjörva[6] mun glíkt! gramr er borinn fremstr konúngmanna undir heiðum himni; hann er gjöflundr.

1) frændi. 2) konúnga. 3) sundrhöggna gullhringa. 4) nl. sèr. 5) nl. gefa. 6) gera.

---

## SJÖUNDA BINDI.

Bls. 2.

Ungr frægðar-mildr Hákon kom híngat; hann er alinn beztr manna á foldu; (hann) fór með Steigarþóri; bauð síðan syni Ólafs upp hálfan Noreg, en mildr málsnjallr Magnús vildi hafa allan sjálfr.

Bls. 4.

*Björn krepphenti*: Vörsa drottinn[1] lèt vítt farit Halland brandi[2]; flótti varð rekinn skjótt, Hörða ræsir sveið hús. Síðan brendi buðlúngr þrænda mörg herúð: viðkastar hel[3] blès fasta[4]: viskdölsk ekkja[5] vakti.

1) Noregs konúngr. 2) herskildi. 3) eldrinn. 4) ákafliga. 5) kona.

Bls. 5.

*Þorkell Hamarskáld*: Stórhugaðr Þórir dró vítt saman sínar sveitir með Agli: þau ráð vårut[1].heldr haglig höldum. Ek frá Skjálgs vinum snörp mein á því, er lendir menn urpu steini um afl sèr[2] við morðvals[3] brynni[4].

1) voru ei. 2) reistu sèr hurðarás um öxl. 3) hræfugls. 4) hermk., konúnginn.

Bls. 6.

*Gisl Illugason*: Hann framdi sik úngr, þá er al-

endr imdar faxa[1] vildu ræna landi lofsælan gram, en jöfurr sótti Báleygs[2] viðu[3] með blám hjörvi.

1) ulfs, hermenn. 2) Óðins. 3) hermenn.

**Bls. 7, 1.**

*Sami:* Lofðúngr ýtti liði[1] ör Oslo til Egils fundar at krefja lands. Linns láðgefendr[2] ör tvennum lögum ok Rygir fylgðu ræsi sunnan.

1) skipi. 2) gulls-, menn.

**Bls. 7, 2.**

*Sami:* Þá knátti[1] sjá vel vigligan, sigri vanan siklíngs flota, er óþrotligt lið knúði árar fyrir Yrjar í miklum aga[2].

1) mátti. 2) ófriði.

**Bls. 8.**

*Sami:* Hilmir átti húsþíng við sjó, þat var fyrir innan Örvahamra; stórráðr konúngr bjóst at brenna[1] utan af Staði, en búendr flýðu.

1) nl. allt.

**Bls. 9.**

*Sami:* Helmíngr[1] Egils raufst við róstu[2]; rymr[3] varð í her utan við Illaðir. Hersar máttu eigi ráða landi fyrir láðgöfguðum Haða drottni[4].

1) lið. 2) orustu. 3) hark. 4) Magnúsi konúngi.

**Bls. 10.**

Þat ból[1], er ek veit gólast[2], breðr[3] í miðri Bjarkey; vandar böl[4] þýtr; tær-a standa[5] þarft[6] af Þóri. Jóan[7] mun eigi frýja[8] elds nè ráns, er kveldar: bjartr logi svíðr breiðan bý, reyk leggr til skýja.

1) bær. 2) best. 3) brennr. 4) eldr. 5) ekki stendr. 6) neitt gott. 7) Jón. 8) skorta.

**Bls. 12, 1.**

Skip rendust at hvatla; sverð snarpra fyrða bitu slætt[1]. Ullstreingr spurði orði, hve Þórir mætti[2]. Lundr hjörs[3] kvaðst heill at höndum, en hrummr at fótum: frágum þat gjörva; grjóts glamm gerði[4] á borði.

1) illa. 2) hvurnin honum liði. 3) mk., Þórir. 4) varð.

### Bls. 12, 2.

*Þórir á Steig:* (Vèr) vârum fjórir fèlagar, færðum einn[1] við stýri[2].

1) lètum einn vera. 2) nl. fyrir flokkinum.

### Bls. 13.

*Þorkell hamarskáld:* Sól unnar dags[1]! ek frá satt orð verða Agli á munni við einarðar latta[2] siklíngs þræla; (hann) kvað hvern þeirra makligra at hánga miklu hærra, en sik; eyðir hjaldrbliks[3] beið of mikit ángr.

1) kona. 2) ótrúa. 3) sverðs, mk., Þórir.

### Bls. 14, 1.

*Björn krepphenti:* Snarr Sygna harri[1] rauð sverð á úthlaupsferðum[2]; vargr nam vítt at slíta varma bráð á Harmi. Fráttu[3], hve fylkir mátti leiða[4] drottinsvik? För gunnar gjörvis[5] varð greið: svá fór, at Þórir var heingdr.

1) Magnús konúngr. 2) ránsflokkum. 3) hefurðu frètt. 4) fælá aðra frá. 5) herkonúngsins.

### Bls. 14, 2.

Hlífar-styggr hrafngæðir[1] nam hræða þrænzka drótt, er þeim[2] þótti markar böl[3] sveima[4] í bygðum. Ek hygg, at herbaldr lyki aldri tveggja hersa; syndjór svâru[5] vara[6] svángr: örn fló til hánga.

1) hermk. 2) bændum. 3) eldrinn. 4) geysa. 5) úlfr. 6) var ei.

### Bls. 14, mismgr. 5.

*Björn krepphenti:* Hati vallbaugs[1] vengis[2] letr[3] víkínga falla; mögr Ólafs rýðr vítt[4] en fögru járn á ýtum.

1) orms. 2) gulls, mk. 3) lætr. 4) víða.

### Bls. 15, 1.

*Gisl Illugason:* Hyrr[1] sveimaði[2], hallir[3] þurru[4], hár logi gekk um hèruð þeirra. Knátti[5] sjá landráð[6] konúngs, þar er salir fèllu um liði Þóris.

1) eldr. 2) geysaði. 3) hús. 4) eyddust. 5) mátti. 6) stjórnsemi.

### Bls. 15, 2.

*Sami:* Hugfullr konúngr sættist síðan við hatendr sína; siðr[1] batnaði. Bragníngr gat launat[2] rekkum þann rètt, er ráðspakir bóendr áttu.

1) nl. bændanna. 2) veitti.

### Bls. 16.

*Sami:* Gramr vann glatat þjófum, en gjörvan kaupmönnum frið, þanns[1] konúngr bætti svá, at fírum hlýddi[2] at skorða fagrbúin flaust[3] (með) öxum í Elfi.

1) þann er. 2) dugði. 3) skip.

### Bls. 35.

*Sami:* Ek skal enn[1] kátr, þótt viðir unda teins[2] ætli skáldi[3] andrán[4]; járn taka at orna oss at beinum. Svarri[5]! hverr prúðr seggr deyr eitt sinn; en snart hjarta er skapat dreing[6]; ek skal enn minnast á þrek[7] í óði[8].

1) nl. vera. 2) sverðs, menn. 3) nl. mèr. 4) dauða. 5) kona. 6) mèr. 7) hreysti. 8) vísu minni.

### Bls. 40.

*Þorkell hamarskáld:* Hugprúðr varga nistir[1] lèt snúðat[2] förn[3] vestr; hlýrin[4] stinnu brutu hröpn[5]; hilmir vann bannat frið.

1) hermaðr. 2) hraðað. 3) för sinni. 4) kinnúngar skipanna. 5) báru.

### Bls. 41, 1.

*Sami:* Limsorg[1] of[2] Ljóðhús lèk fíkjum[3] nær himni; eldr gaus ör húsum; ferð[4] var vítt[5] fús á flótta. Örr skjöldúngr fór Ívist eldi: ræsir vann[6] róggeisla[7] rauðan; búendr mistu lífs ok auðar.

1) eldr. 2) í. 3) óðliga. 4) fólk. 5) víða. 6) gerði. 7) sverðið.

### Bls. 41, 2.

*Sami:* Húngrþverrir hríðar-gagls[1] lèt herjat á Skíði; teitr vargr rauð tönn í margri ben innan (í) Tyrvist.

Grænlands drottinn[2] grætti meyjar suðr í eyjum; mylsk þjóð rann til mæði; sökkvir[3] Skota[4] gekk hátt[5].

1) arnar, hermk. 2) Magnús konúngr. 3) óvinr. 4) Magnús konungr. 5) gerði mikið afrek.

Bls. 42.

*Björn krepphenti:* Snarr konúngr bar vítt[1] randir[2] á slètta Sandey; rauk um Íl, þá er menn allvalds jóku á brennr. Seggja kind Satíris sveitar hnè und eggjar; snjallr sigrgæðir[3] rèð síðan falli Manverja.

1) viða. 2) skjöldu. 3) hermk.

Bls. 43, 1.

*Sami:* Hvert hvarf[1], þat er arfi Guðrauðar átti, var hætt; lofðúngr þrænda vann bannat Lögmanni lönd þar. Nýtr úngr gramr Egða lèt fenginn[2] naðrs bíngtöpuð[3] utar Nesjum, þar er túngr vettrima[4] umdu.

1) hæli. 2) handtók. 3) mk., Lögmann. 4) sverð, brandar.

Bls. 43, 2.

*Gisl Illugason:* Jöfra ægir[1] tók Ívistar gram fyrir Skíði, en Skotar flýðu. Fylkir, sá er framm tæði[2] hafði Lögmann konúng í liði[3] sínu.

1) Magnús konúngr. 2) gekk hraustliga framm. 3) á skipi.

Bls. 44, 1.

*Sami:* Fólkvörðr vann þrúngit[1] und sik fjórum ættlöndum eyja-dróttar, áðr en veðrsmiðr Viðurs[2], sá er fylkti hamalt[3], hitti valska jarla.

1) þreyngði. 2) hermk. 3) odda fylkingu.

Bls. 44, 2.

*Sami:* (Vèr) háðum hildi með frænda Haralds við innanverða Aungulsey, þar er konúngr ok ríkis vendir[1] jarlar brutu kapp sitt[2] af reiði[3].

1) — vanir, voldugir. 2) kepptu hverir við aðra. 3) í ákafa.

Bls. 45, 1.

*Sami:* Magnúss liðar[1] höfðu skorit margan baug-

varg[2] björtum oddi. Kapps vel[3] skipuð hlíf hertoga varð at springa fyrir darri[4] konúngs.

1) liðsmenn. 2) skjöld. 3) mjög vel. 4) skeyti.

Bls. 45, 2.

*Björn krepphenti*: Laufa lundr[1] rèð lífspelli Huga hins prúða í Aunguls sundi, þar slög[2] snuddu[3]; broddr fló snúðigt[4]. Jóta fellir[5] hefir farit öll eylönd brandi; grund liggr vítt und dróttum dyggs döglíngs um stundir.

1) hermk., Magnús konúngr. 2) vopn. 3) flugu. 4) fljótt. 5) Magnús konúngr.

Bls. 46, 1.

*Þorkell hamarskáld*: Broddr dundi á brynjur bragníngr skaut af magni, allvaldr Egða[1] sveigði álm[2], blóð stökk á hjálma. Hagl streings[3] fló á hríngа, ferð[4] hnè, en gramr Hörða lèt verða banat jarli í harðri hjarls sókn.

1) Magnús konúngr. 2) boga. 3) örvar. 4) liðsmenn.

Bls. 46, 2.

*Gísl Illugason*: Böðkennir[1] skaut báðum höndum, allir herr hilmis vá prúlliga[2]. Áðr Hugi fèlli, stukku hvítmýlíngar[3] af álmi[4], þeims[5] jöfurr sveigði.

1) hermk. 2) hraustliga. 3) örvar. 4) boga. 5) þeim er.

Bls. 49, 1.

*Kali*: Hve launa þínir þíngríkir höfðíngjar þèr hnossir? reyndu oss, jöfurr! Rengr bifast í röstum vestr.

Bls. 49, 2.

*Magnús berfættr*: Hefig illa fólginn minn auð[1], þanns[2] ek rèð veita margteitum mönnum. Ek læt klökkvan húf[3] klífa[4] kólgur[5].

1) varið fè minu. 2) þann er. 3) skipsborð. 4) fara yfir. 5) bárur.

Bls. 49, 3.

*Gísl Illugason*: Seggir höfðu þegit heimför af

höfuðsmanni[1]; þá var sókn lokit. Landsmenn litu sjá-drifin segl sett við húna yfir göfgu[2] liði[3].

1) konúngi. 2) glæsiligu. 3) skipi.

### Bls. 51, 1.

*Sami:* Vágr þrútnaði; en steinóðr[1] storðar[2] galli[3] keyrði vefi[4] á stag. Dýrr dreki und skelfi Dána[5] braut hrygg í hverri glymbrúði hafs[6].

1) mjög óðr. 2) skógar. 3) stormr. 4) seglin. 5) Magnúsi konúngi. 6) báru.

### Bls. 51, 2.

*Sami:* Blár ægir skaut búnum svíra, gjálfr[1] hljóp í gin gollnu[2] höfði: valfasti[3] djúps[4] skein af hausum döglíngs dreka, sem himins eisa[5].

1) sjór. 2) gylltu. 3) eldr. 4) gullið. 5) elding

### Bls. 53, 1.

*Sami:* Síðan framdist Upplanda gramr[1] á Svía drottni[2] austr frá Elfi. Liðskelfir[3] tók 15 hèruð (með) fránni[4] eggju[5] ór lögum Gauta[6].

1) Magnús konúngr. 2) þ. e. græddi lönd af honum. 3) hermk. 4) snarpri. 5) egg. 6) Gautlandi.

### Bls. 53, 2.

*Þorkell hamarskáld:* Hraustr allvaldr lèt valskan brand ok randir gjalla saman austar[1] Elfi; vitr stillir rauð völlu. Vellmildr[2] konúngr varð[3] þrási[4] á víg, þar er herðir[5] fèllu; gauzkr bolr lá und gulri kló grás arnar.

1) fyrir austan. 2) fémildr. 3) getgáta. 4) gjarn. 5) menn.

### Bls. 54.

*Norðmenn:* Hinn þjóbreiði Íngi dvelr allleingi of-anreið.

### Bls. 57, 1-2.

Gramr spurði, hvat Giffarðr gerði; hann var at kominn þannig, þá er lið barðist; vèr ruðum vápn í

dreyra. Fnaubi[1] var fulltraubr framreibar á raubum jó; valski riddarinn falsk[2], (hann) vill eigi fylla vàrn flokk.

1) sá ósnotri mabr. 2) faldi sig.

Bls. 57, 3.

*Gísl Illugason*: Fólkhvötubr[1] reib fyrst í gegnum safnab Svía, hnugginn[2] sigri. Dreyrugr málmr varb hlaupa á mebal hauss ok herba hans andskota.

1) hermk. 2) sviptan.

Bls. 58, 1.

*Sami:* Helmerki[1] blès um höfbi febr Sigurbar[2], en fránn[3] huginn[4] gladdist; ek sá þann fylki vega snörpu sverbi til sigrs meb mestum frama.

1) hermerki? 2) Magnús konúngs. 3) harbr. 4) hrafn.

Bls. 58, 2.

*Sami:* Ek fylgba fræknum Eysteins föbur[1] í atals drífu[2]; ek, vanr vàsförum[3], brá opt hjörvi meb frænda Haralds[4], þar er vega[5] þurfti.

1) Magnúsi konúngi. 2) orustu. 3) svabilförum. 4) nl. harbrába, Magnúsi. 5) berjast.

Bls. 59.

*Eldjárn:* Hví samir[1] hitt gebstirbum hirbmanni, at dúsa[2] ? vestu[3] nú knár, riddarinn hári[4], þó kjöl kosti[5]. Þat er satt, at ek býb Gjaffarbi (at) reiba[6] byttu; austr er til[7] hár í breibhúfubum hesti hvaljarbar[8].

1) sæmir. 2) vera atgjörbalaus. 3) vertu. 4) gamli. 5) kjölurinn kostist. 6) bera. 7) of. 8) því borbbreiba skipi.

Bls. 60.

*Sami:* Ek frá, at (þèr) ráknt flótta á Foxerni: þar var harbr hernabr; annat lib manna falsk[1], er ek heyrba. Gángr hjálmþrimu herbis[2] var hár[3], þar er Giffarbr barbi í hel gauzka dreingi, er[4] vàru staddir.

1) föl sig. 2) hermannsins, Gjaffarbs. 3) mikill. 4) hvar sem þeir.

Bls. 61, 1.

*Magnús berbeinn:* Mattildr er sú ein, er meinar

mèr leik ok teiti, ok vekr hildi; sveita már[1] drekkr or sárum suðr. Sá hvítjarpr svanni, er verr sín lönd röndu[2], kennir mèr (at) sofa lítið; sverð bitu högna hurðir[3].

1) hrafn. 2) með herskildi. 3) skjöldu.

Bls. 61, 2.

*Sami:* Hvat er betra í heimi, en vifit fagra? skáld hyggr sjaldan á þrá; sá dagr er mjök lángr, er dvelr dreingi. Ek ber þann þúngan harm af þíngi, er[1] ek skal aldregi finna minn svanna; menn skreytast at móti[2].

1) að. 2) á mannfundum.

Bls. 62.

*Sami:* Ek spyr í hljóði góð orð gullhríngs gerðar[1] um skáld; jörp armlín[2] mun eigi verpa á glæ sínum (orðum)[3]. Ek ann ræktar[4] málum guðvefjar þóptu[5], þótt eigi finnag[6] opt; viti menn, at ek hygg henni hála[7].

1) kvk. 2) kvk. 3) nl. tala þau orð til ónýtis. 4) ástar. 5) kvk. 6) nl. hana. 7) vil henni vel.

Bls. 66.

Veðr blæs vegg[1] um[2] tiggja; viðr[3] þolir nauð í löðri; læ klúngrs[4] tekr at knýja keip, en gellr í reipum. Mjórr sjötögr vöndr[5] skelfr, eik[6] skerr at flóði[7], beit[8] verða slíta sjá. Magnús stýrir[9] móð[10] und röndu[11].

1) skipsborðið. 2) kríngum. 3) skipið. 4) skaði viðar, vindr. 5) sjötíu siglutrè. 6) skipið. 7) hleypr eptir sjónum. 8) skipin. 9) hefir. 10) hug. 11) skildi, nl. til að bera.

Bls. 67.

Úhlífinn gramr bað-at eggendr[1] ugga lífi, hvegi er[2] lèt hinn ljóti landgarðr[3] fyrir barði[4]. Satt var, at allvaldr átti borit[5] ógnarart hjarta; geyst súð varð treystast farsælu[6] í gný græðis[7].

1) sína hugrökku fèlaga. 2) hversu sem. 3) sjór. 4) stafni. 5) bar. 6) heppni konúngs í siglíngum. 7) sjáfarins.

## Bls. 70.

*Magnús berbeinn*: (Vèr) skulum hvatt[1] kvitta[2] heimför[3]; minn hugr er í Dyflinni; en ek kem eigi austr til Kaupángs kvenna[4] í hausti. Unik[5] því, at íngjan[6] synjar[7] eigi gamanþínga[8]; ærskan[9] veldr því, er[10] ek ann írskum svanna betr en mèr.

1) skjótt. 2) ljúka við. 3) nl. komast heim. 4) kvenna í Niðarósi. 5) eg uni. 6) sú únga kona. 7) nl. mer. 8) skemtiligs viðtals. 9) æskan. 10) að.

## Bls. 71.

*Þorkell hamarskáld:* Ítr ýngvi rèð áðan uppgaungu með lítinn helmíng[1]; ek hygg föður Eysteins[2] treystast áræði. Hjörr gall hátt, en Magnús sótti í gegnum lið; málmsækir[3] rauð mæki; egg hneit við[4] fjör seggja.

1) liðsafla. 2) Magnús konúng. 3) hermk. 4) kom við.

## Bls. 75.

*Þórarinn stuttfeldr:* Framr hollr herr dreif hvaðan æfa[1] til handa hauksnjöllum[2] grami, svá sem (menn) höfðu frètt rètt konúnga kyn[3] (Hrólfi) margspökum Kraka í för fyrr.

1) allstaðar að. 2) snarlyndum. 3) konúngborna menn, nl. hafa drifit til handa.

## Bls. 76.

*Sami:* Svá mikit lið margspaks fylkis, vilt[1] mildíngi[2], kom saman, at sextigir skarfögr[3] skip hnigu hèðan um lög við sköp[4] hreins guðs.

1) hliðhollt. 2) Sigurði konúngi. 3) falliga samsköruð. 4) eptir ráðstöfun.

## Bls. 77, 1.

*Sami:* Skaplig[1] skafin skipa börð óðu vestr um haf at ættjörðu Eingla. Snjallr jöfurr þrænda þótti þarlands[2], sem hvar[3], allsherjar[4] yfirmaðr.

1) falliga löguð, vel smíðuð. 2) í því landi. 3) allstaðar. 4) allra manna.

## Bls. 77, 2.

*Einar Skúlason:* Vásauðigr[1] vísi rèð mestum helmíngi[2] vestr; ægis marr[3] óð und harra at enska láði.

Heiptglaðr hilmir lèt stál[4] hvílast, ok var þaðra[5] vetrleingis[6]; ne[7] stígr betri gramr af val vimrar[8].

1) þrautsæll. 2) liðsafla. 3) skipið. 4) skipstafnana. 5) þar. 6) allann vetrinn. 7) ekki. 8) skipi.

Bls. 78.

*Sami:* Ok þjóðkonúngr, sá er æztr gat ríki und sólar ranni[1], ól önd[2] annan vetr á Jakobs landi. Þar frá ek hilmi herjar[3] gjalda frömum jarli lausmæli; snarlyndr gramr bræddi[4] svan hjaldr-sima[5].

1) himni. 2) lifði, var. 3) þjóðar. 4) gaf bráð. 5) hræfuglinum.

Bls. 79, 1.

*Haldór skvaldri:* Ok fádýrir[1] víkíngar fóru at móti[2] Fjölnis-hróts[3]-ríkum gram; vísi hlóð[4] vígásum[5]. Herr náði at hrjóða átta galeiðr, þar er fátt lið fèllat[6]. Dreingja vinr[7], hollr fyrðum, hlaut feingi[8].

1) leiðir. 2) á móti. 3) orustu-. 4) lagði að velli. 5) hermk. 6) fèll ei. 7) konúngr. 8) hlutskipti, herfáng.

Bls. 79, 2.

*Sami:* Ek skal inna þau stór verk konúngs, er vâru á Spáni; slaungvir Vânar dags[1] vann prútt[2] sóttan Sintre. Hermönnum, þeim er níttu[3] gerfa[4] goðs rètti[5] sèr boðnum, gerðist heldr grátt[6] (at) berjast við gram Hörða[7].

1) gulls, konúngrinn. 2) vaskliga. 3) neituðu. 4) öldúngis. 5) kristni. 6) hættligt. 7) Noregs konúng.

Bls. 80, 1.

*Sami:* Snjallr lofðúngs kundr! (þú) vann hinn þriðja sigr suðr á fróni, er (þèr) lendut við borg þá, er (menn) kalla Lissibon.

Bls. 80, 2.

*Sami:* Fólkþeysandi[1]! ek frá yðr fýsast at vinna hvassan styr[2] fjórða sinni, út þar, er heitir Alkassi. Ek frá unnit til sorga heiðins vífs í einni eyddri borg; herr hitti[3] at drífa á flótta.

1) herkonúngr. 2) orustu. 3) tók það ráðs.

## Bls. 81.

*Sami:* (þèr) treystust (at) rjóða egg fyrir austan Njörvasund; guð tjóði[1] yðr; náskári[2] fló til nýra[3] unda.

1) hjálpaði. 2) örn. 3) nýrra.

## Bls. 82.

*Sami:* Verk bragníngs á Serkjum hafa gerzt fræg: böðstyrkir[1] lèt barka síga ofan fyrir gagnstig gýgjar[2], en hernenninn göndlar þíngs gnýþróttr[3] sótti með gengi[4] neðan í hall[5] at fjölmennum helli.

1) hermk. 2) bjargið. 3) hermk. 4) menn sína. 5) á brekkuna.

## Bls. 83, 1.

*Þórarinn stuttfeldr:* Gunnhagr[1] gramr bauð guma draga två blásvarta byrvarga[2] á bjarg; þá er ramdýr þrama[3] með lið sigu í reipum fyrir hliðdyr hellis.

1) herkænn. 2) skip. 3) bátarnir.

## Bls. 83, 2.

Formintera varð fyrir stafni styrjar auki[1], friðr raskaðist; þar varð Blámanna lið (at) þola eggjar ok eld, áðr fengi bana.

1) herkonúngi.

## Bls. 84, 1.

*Haldór skvaldri:* Konúngr náði meiða þat fólk, er flýði ferðskundliga[1] undan: illr hreimr[2] varð í helli. (Hann) bauð djöfuls þrælum[3] enn aftig[4] lífs[5], þá er (þèr) unnut gamalt vígi[6]; úsæl öld beið kvöl í eldi.

1) í skyndi. 2) ólæti. 3) heiðingjum. 4) kannske afstig. 5) deyddi þá. 6) virki.

## Bls. 84, 2.

*Sami:* Margdýrkaðr[1] merkir[2] morðhjóls[3] kom skipa stóli til Ívitzu: fremdar ræsir var fúss friðslita[4].

1) víðfrægðr. 2) litandi. 3) skjaldar, hermk. 4) orustu.

## Bls. 85.

*Sami:* Síðan knátti enn hin átta[1] oddhríð[2] verða háit[3] í grænni Manörk; ferð[4] grams rauð Finns gjöld[5].

1) áttunda. 2) orusta. 3) háð. 4) lið. 5) örvar.

### Bls. 86.

*Einar Skúlason:* Skáldi[1] es-at[2] einfalt lof um risnu[3] alvalds: hilmir lèt hafkaldan húf svífa í Grikksalti[4], áðr auðlestir[5] festi skip við einkar breiða Akrsborg; öll öld beið fegins morgin með stilli.

1) mèr, skáldinu. 2) er ekki. 3) stórmennsku. 4) Grikklands hafi. 5) mk., hann.

### Bls. 87.

*Sami:* Ek get þess, er ógnblíðr gramr fór vitja Jórsala bygðar: meðr[1] vituð[2] æðra auðlíng und víðum glyggs[3] sal[4]; ok hauka fróns[5] leyghati[6] náði hvatt[7] laugast í hreinu vatni Jórdanar; þat ráð[8] var leyft[9].

1) menn. 2) vita ekki. 3) vinds. 4) himni. 5) handar. 6) mk. 7) skjótt. 8) verk. 9) lofað, víðfrægt.

### Bls. 92, 1.

*Þórarinn stuttfeldr:* För Endils svörgæðis[1] mun ey[2] uppi, meðan salr sólborgar[3] stendr; vegsamr[4] granns geirs gnýstærir[5]! þú hefir þvegizt í vatri[6] Jórdanar[7].

1) hrafngæðis, hermk., konúngsins. 2) æ. 3) himins. 4) frægr. 5) hermk. 6) vatni. 7) getgáta.

### Bls. 92, 2.

*Sami:* Hvatr fylkir Hörða! (þú) varðir glatt lofi[1] kviksattra[2] at gröf guðs[3]. Siklíngr! sól skín æfa[4] á fjöldyggra Yggs svangæli[5], en þik.

1) getgáta; heiðri. 2) skrínlagðra manna, nl. gulli og gersemum. 3) Krists. 4) aldrei. 5) hrafn-gæli, hermann.

### Bls. 93, 1.

*Haldór skvaldri:* Bræðir benja tíkr[1]! (þú) þátt[2] heiðna borg af ríki, en gaft[3] af mildi; hverr hildr[4] háðist við prýði.

1) ulfs. 2) náðir. 3) gafst hana aptr. 4) orusta.

### Bls. 93, 2.

*Einar Skúlason:* Ek frá deili[1] dróttar[2] vinna Sætt; dreingr minnist þess; valslaungr tóku ríða hvast í hríð Hristar[3]. Styrkr gunnar vals[4] munnlituðr[5] braut vá-

gæðir[4]! framkomit[5] vald allrar aldar[6]; hèr lýsi ek veg vísa[7].

1) Magnus konúngr. 2) þú tókst. 3) verðr kunnugt. 4) herkonúngr. 5) fullkomið. 6) þjóðar. 7) konúngs.

## Bls. 110, 2.

*Sami:* Hraustr þengils son! (þèr) hafit hála[1] fengit dóttur heilags þjóðkonúngs[2]; guð ræðr þik gæfu gnótt. Snjallr Eiríkr má einart stýra[3] öllu við hreinan guð. Alldýr konúngr, yðar þroski[4] gengr (að) óskum.

1) vegliga. 2) Eiriks helga. 3) ráða. 4) uppgángr, hefð.

## Bls. 112.

*Sami:* Fjörnis[1] álfr[2]! þèr líkar at auka yðart vald um heiminn kalda allt norðr und leiðarstjörnu; gegnir fyrðar munu fagna því. Allvaldr! þar hefir engi annarr þengill haldit ríki, en þú; þjóðir reiða[3] þína dýrð þángat lengra en röðull skíni.

1) hjálms. 2) herkonúngr. 3) útbreiða.

## Bls. 110.

*Sami:* Allvaldr! (þú) dýrðkast af mildi þinni innanlands út með Serkjum; þjóðum líka þaðra[1] þínir haukar, allt með Blálands jaðri. Veglig mæti[2] hrjóta vægðarlaust[3] af yðrum frægðum; mærðar tínir[4]! þínar hollar hnossir prýða allan heiminn.

1) þar. 2) gripir. 3) óspart. 4) málsnjalli konúngr.

## Bls. 121, 1.

*Sturla Þórðarson í Hrafnsmálum:* Sóknhvattar[1] sveitir sóttu háleitan geira glyggs glymstæri[2] or Finnbygðum; jarðbeltis gjálfr[3] brá[4] sigrflaustum[5] hásætagætis[6] allt austan af Gautelfi.

1) sóknhvatar, herdjarfar. 2) herkonúng. 3) það gjálfrandi haf. 4) getgáta. 5) sigrsælum skipum, eða herskipum. 6) konúngsins.

## Bls. 121, 2.

*Sami:* Aungr[1] ormvengis[2] ótti[3] sá í einum stað fleiri vígdróttir[4] fleins-flugstæris[5]. Hurðr lómblekkir[6]

lekti útstrandir landa (með) herskíðum hrífa[7] ok rann-garði[8].

1) einginn. 2) gulls. 3) maðr. 4) hermenn. 5) nokkrs herkonúngs. 6) eyðir svika, sá réttláti konúngr. 7) herskipum. 8) skjöldum.

## Bls. 121, 8.

*Sami:* Ægis eldr[1] glumdi of[2] nafnfrægjum allvaldi á gjálfrtömdum[3] Gestils-skeiðhestum[4]. Óþrotlig sól brynreiðar[5] skein af skautvönum[6] skeiðum of[7] snotrum sigdeili[8].

1) gull. 2) yfir. 3) sjóvönum. 4) skipum. 5) sverða sól, gull. 6) kannske *skautvænum,* af *skautvænn,* einsog *skautfagr* 136. 7) yfir. 8) herkonúngi.

## Bls. 122.

*Sami:* Blómum brims-vegljóma[1] laust á bjarthimna[2] af liðföstum ljósum valdrósar[3]. Ferð flokka hrínga-friðskerðis[4] um hafstrauma var áþokkut[5] eldíngum heims.

1) vegligs ljóma, nl. gullblæ. 2) bjarta himna. 3) valkyrju ljósum, nl. skjöldum, er festir voru við skipið. 4) hins gjafmilda konúngs. 5) áþekk.

## Bls. 124.

*Sami:* Landa stýrandi[1] leysti[2] háfaldar[3] bládúfur[4] lángrastar[5] heldum húfum[6]. Hrein höfn lýstist glóðrauðum eldi álfoldar[7] af auðar-hestum[8] skipstöfnum.

1) konúngrinn. 2) sundrbraut. 3) nl. háfaldaðar, *sem hreykja hátt földunum.* 4) öldur. 5) sjáfarins. 6) með heldum skipsúðum. 7) gulli. 8) hamíngjumestum.

## Bls. 125.

*Sami:* Hinn griðmildi fróðr gætir norðsætra[1] tók fyrst gjöld af fjörleystum Nesþjóðum[2]. Öll öld á stórveldum[3] var hrædd við ógnfallinn[4] herklæddan herði böðgerðar[5].

1) Noregs konúngr. 2) Katnesíngum, er greiddu gjald sér til fjörlausnar. 3) í viðlendum heröðum. 4) ógrligan. 5) herkonúng.

## Bls. 127.

*Sami:* Inn hraðmælti víðþíngaðr Hrínga[1] hèlt lofskeiðum[2] leygs[3] leiðir í Suðreyjum. Engna gaf upp herfengna[4] il fyrir alkeppnum èyði dalreyðar[5] ítrbóla[6].

1) Noregs konúngr. 2) þeim vegligu skipum. 3) sjó-. 4) hertekna. 5) orms. 6) gulls, Hákoni konúngi.

## Bls. 128.

*Sami:* Ógn stóð af stórráðum stýri gindýra[1] of[2] jarðir urðvegnar vestrgarða[3]. Friðlausir jöfrar færðu ósvifrum[4] ótta rándróttar[5] hjálmhirða hausa[6].

1) dreka, herskipa, nl. konúnginum. 2) um. 3) nl. jarðir þvegnar vestrgarða úri, þvegnar vestanstorma drifi, vestrlöndin, *Skotland og eyarnar í vestrhafinu.* 4) óvægnum. 5) ránsmanna, nl. Hákoni konúngi. 6) höfuð sín.

## Bls. 129.

*Sami:* Geðstrángir sárs logrunnar[1] vegmæta gætis[2] gengu sunnan um Satíri. Brands-byrgegnir[3] bragnar söddu snóka[4] svartklædda dynflóka[5] á Skotlandi.

1) sverðrunnar, hermenn. 2) eiganda vegligra hnossa, nl. konúngsins. 3) herkænir. 4) fugla. 5) klædda svörtu fiðri, nl. hrafna.

## Bls. 130, 1.

*Sami:* Fræg ok úvægin ferð[1] friðskerðis[2] vann breiða Bót af guðleiðum baugnjótum; hrafn hræyfðist[3] kleyfðan[4] fleygs[5] hjör[6] of[7] valtafni[8] í Suðreyjum; fjandr stillis fèllu.

1) hersveit. 2) herkonúngsins. 3) reif á sèr, hruflaði á sèr. 4) klofinn. 5) vængs. 6) klóna. 7) gizkað. 8) uppá valkestinum.

## Bls. 130, 2.

*Sami:* Hafsætra bygðir[1] údygðar búmanna[2] brunnu; hallar lífgalli[3] var heitr. Fleinþollar[4], sóttir svanteigar[5] herdróttum[6], fèllu feigir af sæskíðum[7] suðr.

1) sjóbygðir. 2) bænda. 3) húsa bani, eldrinn. 4) mk. 5) sjóar. 6) hermönnum. 7) skipum.

## Bls. 133.

*Sami:* Enn böðfróði sigrmagnaðr[1] austan[2] bauð

optarr orrostu spjótskoptum bragna[3]. Úfegnir þegnar útverja[4] þorðut[5] berjast við þrekstærðan bjórs-blikrýri[6].

1) sigrsæli hermaðr. 2) frá Noregi, nl. Noregskonúngr. 3) nl. barðist opt við menn. 4) Nesjamenn á Skotlandi. 5) þorðu ekki. 6) gulls rýri, konúnginn.

## Bls. 134.

*Sami:* Flugskjarrir[1] baugnjótar[2] darra-dynsveigis[3] drógu báta breiðar strandleiðir. Herskatnar[4], úhræddir vegs[5], eyddu geirrþeyjum[6] eyjar í víðbygða vatni.

1) óflóttagjarnir. 2) menn. 3) herkonúngsins. 4) hermenn. 5) vegar. 6) með herskildi.

## Bls. 135.

*Sami:* Geðstirðir virðar herðu[1] víða herferðir[2] í stórbygðir hryggs vargfæðis[3]. Hinn fólkrakki[4] Aleinn fèkk öldum úkaldan[5] lífdvalar[6] felli[7] (í) gunnspelli[8].

1) herðtu. 2) herjuðu víða. 3) hermanns, Aleins. 4) herdjarfi. 5) heitan. 6) lífs. 7) dauða. 8) orustu.

## Bls. 136.

*Sami:* Margfrèttinn framstiklir auðar[1] mætti miklum gerníngum óþjóða Ínga[2]: lábrostinn[3] lögr leysti hin skautfögru flaust[4] bauglestis[5] or frónlæstum festum[6].

1) Hákon konúngr. 2) Skotakonúngs. 3) öldubrotinn. 4) skip. 5) Hákonar konúngs. 6) landfestum.

## Bls. 137, 1.

*Sami:* Fjölmagnat hríðar hregg[1] blès of böðfúsa[2] bragna á herbygðum[3] brimskíðum[4]. Gjálf-rundit[5] grundar grand[6] rak alkeppna öld með herskjöldu upp at Skotlandi.

1) galdraveðrið. 2) hergjarna. 3) fjölskipuðum. 4) skipum. 5) þjótandi, hvínandi. 6) stormr.

## Bls. 137, 2.

*Sami:* Hinn sigrmæti sverða bliksherðir[1] sendi snarlynda sveit síð til brynhríðar[2]; drengja herr[3], sá er drap hina dulgreypu[4] dalganta[5] drótt, dæmdi[6] lof þengils sæmda.

1) Hákon konúngr. 2) orustu. 3) gízkað. 4) dramblátu. 5) hermanna, nl. Skota. 6) talaði um, viðfrægði.

**Bls. 140.**

*Sami*: Hugprúðir varir hríngs virðar[1] hlóðu[2] vegstórum baugnirði[3] at brynþíngi[4]. Valgammar[5] fyldust fjörseldum[6] auðstefni[7] frammi[8]; hverr mân hefna hríngþverris[9]?

1) menn. 2) folldu, lögðu að velli. 3) þann fræga riddara. 4) í orustunni. 5) hræfuglar. 6) drepnum. 7) manni, nl. fylltu sig á hræi þess drepna riddara. 8) í útlöndum. 9) hans, riddarans.

**Bls. 141, 1.**

*Sami*: Hervaldir hersar Norðmæra kæris[1] kvöddu kappstudda[2] hölda gunnversum[3]. Hin gunnrakka[4] hirð hásæta-gætis[5] gekk járnfaldin at[6] hjörstærðum hjaldri[7].

1) Noregs konúngs. 2) kappsama. 3) lögðu til orustu við Skota. 4) harðjarfa. 5) konúngsins. 6) gizkað. 7) orustu.

**Bls. 141, 2.**

*Sami*: Brún egg beit of ódyggvar aldar gunntjalda[1] at brynmóti[2] í rauðtúnum[3]: áðr en skozkir egghríðarskýþundar[4] skyndu[5] undan víglundum[6] alþroskins[7].

1) skjalda, nl. hermenn. 2) orustu. 3) á vígvellinum. 4) skjalda þundar, hermenn. 5) skunduðu. 6) hermönnum. 7) Hákonar konúngs.

**Bls. 143.**

Egða stillir[1] vann skjótt aptr öll skattlönd geirbrúar krapta[2] megingrönduðs[3] af skozkum dróttum. Öngr[4] göndlar veðrboði[5] reisti rönd við ýngva[6]; ríki rógsækis[7] fyrir vestan haf varð úlest.

1) Hákon Noregskonúngr. 2) skjaldar grindar. 3) herkonúngsins, nl. Magnúss konúngs berfætta. 4) einginn. 5) hermaðr. 6) konúnginum, Hákoni. 7) herkonúngsins.

**Bls. 151.**

*Sturla Þórðarson*: Þróttar[1] þínghlynr[2] kom til Björgynjar þrim náttum áðr en ófs-dynviðir[3] grófu prúðan allvald. Margr málma-fergir[4] stóð síðan lítt

kátr með váta brá yfir leiði lýða grams: þat var mikit stríð[5].

1) Óðins. 2) hermk., nl. lík Hákonar konúngs. 3) menn. 4) maðr. 5) harmr.

## Bls. 178, 1.

*Þjóðólfr hvinverski*: Margir hraustir menn gjörðu at heimsækja snaran mildíng; gamlir menn fylgðu eigi síðr öðlíng, ok gerðust (hönum) kærir.

## Bls. 178, 2.

Minníngr[1] sá er miðlaði gull, nam marga speki af gömlum mönnum. Upplanda gramr[2] var ástúðigr öllu fólki af sínum örleik.

1) sá minnugi konúngr. 2) Haraldr hárfagri.

## Bls. 178, 3.

Hróðigr hilmir gaf sínum görpum hit rauða gull ok marga hrínga, bjartar brynjur ok hvassa branda, skygða[1] ok skrautbúna skjöldu.

1) fagra.

## Bls. 179.

*Auðun illskælda:* Þeir heita Úlfhèðnar[1], er bera blóðgar randir[2] í orrostu, (ok) rjóða vigr[3], er (þeir) koma til vígs; þeim er þar sýst saman[4]. Ek hygg áræðismönnum einum hæfa at standa þar, þá er skilvísir skatnar höggva í skjöld.

1) *úlfhèðnar*, þeir sem gánga í vargskinns úlpum (af *úlfr*, og *hèðinn*, skinn. 2) skjöldu. 3) spjót. 4) þeir eiga þar starf sameginliga hvur með öðrum.

## Bls. 180.

(*Þorbjörn*) *hornklofi:* Harðráðr barnúngr hrjóðr[1] ens bleika báru fáks[2] lèt hæstrar[3] tíðar[4] þrúngit[5] skipa börðum[6] á lög[7]. Þar barz[8] svá at borði[9], at hlífarvaldr[10] rak borðhölkvi[11] norðan fyrir hildar hregg tveggja döglínga[12].

1) eyðir. 2) skips, nl. herkonúngr. 3) ættart. N. k., pappírshandrit. 4) bestu heilli, með mestu bamingju. 5) skotið. 6) borð-

um. 7) sjó. 8) ættart. N. k., pph. 9) barst so undir. 10) herkonúngrinn, Haraldr. 11) skip sitt. 12) til bardaga móti tveim konúngum.

Bls. 187, 1.

*Sami*: Gjafli rendr[1] Haraldr! nè kemrat[2] annarr konúng (manna) yðr æðri und gamlan gnapstól-sólar[3]. Gramr háði geira hregg við seggi, þá er bengögl[4] gnúðu[5] á rá[6] Sköglar[7]: rauð ben fnýstu[8] blóði.

1) þekktr að örlæti. 2) ekki kemr. 3) himin, nl. á jarðriki. 4) hræfuglar. 5) kvökuðu. 6) gizkað; *í dyn Sköglar*, i orustunni. 7) á orustuvellinum. 8) blésu.

Bls. 187, 2.

*Sami:* Egglituðr[1] rèð sigri, þá er seggir hnigu fjörvanir á rausn for ræsi; æfr hjör gall við hlífar. Ok ofnæfrir[2] jöfrar kvöddust dynskotum at morði[3] orðalaust; rödd rauðra randa[4] endist[5].

1) herkonúngrinn, Haraldr. 2) mjög knáir. 3) í orustunni. 4) vopnagnýrinn, orustan. 5) varð drjúg, helzt leingi.

Bls. 190, 1.

*Þjóðólfr*: (Þat) heyrði[1], hve hraustliga hinn kynstóri konúngr barðist við Kjötva hinn auðlagða[2]. Kapps um-lystir[3] knerrir kvomu austan með gínandum[4] höfðum ok gröfnum tínglum[5].

1) heyrðist. 2) auðuga eða hepna. 3) kappfúsir. 4) gapandi. 5) ennispónum.

Bls. 190, 2.

*Sami*: Þeir voru hlaðnir hölda, hvítum skjöldum, vestrænna vigra[1], ok völskum[2] sverðum; berserkir grenjuðu, þeim er guðr[3] hlífði; Úlfhèðnar emjuðu, ísarn[4] bitu.

1) spjóta. 2) vallenzkum, frönskum. 3) valkyrjan, orustan. 4) járnin, vopnin.

Bls. 190, 3.

*Sami:* (Þeir) freistuðu hins framráða Austmanna[1] allvalds, er býr at Útsteini, er kendi þeim (að) flýja.

Steindir[2] nökkvar[3], er enn styrjar-nénni[4] stillir átti, stóðu; hlömmun[5] var á hlífum, áðr Haklángr félli.

1) Norðmanna. 2) malaðir. 3) skip. 4) hervaski. 5) slättr, högg.

Bls. 191, 1.

*Sami*: Hinum hálsdigra hilmi[1] leiddist þá at halda landi fyrir Lúfu[2], lèt hólm sèr at skildi[3]; (þeir) er sárir voru, slógust um[4] sessþiljur[5], lètu stjölu[6] standa upp, stúngu höfðum í kjöl.

1) Kjötva auðga. 2) Haraldi. 3) hann lèt hólminn gæta sín. 4) ultu yfir um. 5) þópturnar. 6) stèlin á sèr.

Bls. 191, 2.

*Sami*: Hyggjandi[1] seggir lètu Svafnis salnæfrar[2] blika á baki[3], voru barðir grjóti; (þeir) sæstust[4] austr um Jaðar-bygðir, hlupu heim or Hafrsfirði, ok hugðu á mjöðdrykkju.

1) smeikir. 2) Valhallar næfrar, skildina. 3) þeir köstuðu skjöldunum á bak sèr. 4) sæddu.

Bls. 192.

*Þorbjörn hornklofi*: Hersa drótt[1] ok höfðíngjum leiddist þá at haldast lengr fyrir Lúfu[2]; hverr hraustra víkínga flýði or Hafrsfirði, sem fara mátti.

1) hersum. 2) Haraldi.

Bls. 194-95.

*Þjóðólfr hvinverski*: Þær[1] ambáttir Ragnhildar, dramblátar dísir[2] skulu eiga (hafa) annat at drykkjumálum[3], en þer[4] se[5] hergopur[6], er Haraldr hafi sveltar (á) valdreyra[7], en bræði vera[8] þeirra[9].

1) gizkað. 2) gizkað; konur. 3) borðræðum. 4) þær. 5) gizkað. 6) herteknar ambáttir. 7) nl. svelt, með því að gefa þeim ei annað en blóð að drekka. 8) gizkað. 9) nl. hafi drepið menn þeirra, eða gefið þeim að eta hræ manna sinna.

Bls. 195.

*Sami*: Sjá 1. B. bls. 7.

Bls. 208, 1.

*Haraldr hárfagri*: Drótt, hlýðia mèr, haeggi[1]

ótta; ek ber æ[2] ugg drauga[3]: ek vek dular mey[4], dána á kerlaug[5]. Ek let[6] drápu dynja á bragar stètt[7], meðan hrynr or Dvalins greip[8]; ek býð rekkum rèttan Regins drykk[9].

1) hnekki. 2) eigi. 3) eg hræðist ekki drauga. 4) buldu meyna, hana Snjófríði. 5) eptir þessu hefir þá Snjófríðr dáið í baði. 6) læt. 7) bragar völlinn. 8) úr hendi dvergsins; meiníngin er: *eg yrki drápuna, jafnótt og yrkisefnið dettr mèr í hug; hann lætr, sem Dvalinn* (dvergrinn) *skamti sèr skáldskapinn úr hnefa sínum.* 9) skáldskap.

## Bls. 208, 2.

Þat var ekki farald[1] forðum; þá[2] gat Finnan[3] særðan Harald: honum sýndist sú[4] sólbjört; mörgum verðr nú slíks dæmi[5].

1) almennt. 2) þó. 3) hún Snjófríðr. 4) hún vera. 5) marga hendir enn það sama.

## Bls. 209-10.

*Þjóðólfr hvinverski*: Sjá 4. B. bls. 29.

## Bls. 298.

*Hjalti Skeggjason:* Sjá 2. B. bls. 207.

## Bls. 341.

*Sigvaldi jarl*[1]: Lifa ok deyja. Þú varðar[2] haukey Har.[3] hjörvi[4].

1) rèttara: *Sigvatr skáld*, sbr. 6. B. bls. 44. mgr. 5. 2) ver. 3) Haralds, nl. Gormssonar; þ. e. *Noreg*, Haraldr hefir svo kallað þetta land, af því hann fèkk hauka af því í skatt. 4) með sverði.

## Bls. 342.

Sjá 3. B. bls. 20.

## Bls. 344.

*Haldór ókristni:* Sjá 2. B. bls. 297.

## Bls. 349, 1.

*Hallfröðr vandræðaskáld*: Sjá 2 B. bls. 307.

## Bls. 349, 2.

*Sami*: Sjá 2. B. bls. 306.

**Bls. 351.**

*Skúli Þorsteinsson:* Sjá 2. B. bls. 311, 1.

**Bls. 354.**

*Hallfrøðr Vandræðaskáld:* Úlfgæþir[1], glaðr armgrjóts[2].

1) hermaðrinn, Þorkell. 2) gulls eða silfrs. Sjá 3. B. bls. 3, 2.

**Bls. 359, 1.**

*Haldór ókristni:* Sjá 2. B. bls. 318, 3.

**Bls. 359, 2.**

*Sami:* Sjá 2. B. bls. 318, 1.

**Bls. 359, 3.**

*Sami:* Sjá 2. B. bls. 328, 1.

**Bls. 360.**

*Hallfrøðr Vandræðaskáld:* Sjá 2. B. bls. 319.

**Bls. 362.**

*Haldór ókristni:* Sjá 2. B. bls. 329.

**Bls. 365, 1.**

*Hallfrøðr:* Sjá 3. B. bls. 5.

**Bls. 365, 2.**

*Sami:* Sjá 3. B. bls. 6.

**Bls. 375, 1.**

*Sami:* Svá frá ec hitt, at hörgbrjótr[1] hlóð háva valköstu í mörgum stað; hrafn kom opt [þars heiptum blóði[2].

1) Olafr Tryggvason, sem braut niðr hof og hörga. 2) Fagrskinna hefir: *at heipta blóði*, nl. á vígvöllinn, hvar heiptar blóði var úthellt. Síðara vísuhelming sjá 1 B. bls. 125.

**Bls. 375, 2.**

*Sami:* Sjá 1. B. bls. 125. 130-31.

**Bls. 375, 3.**

*Sami:* Sjá 1. B. bls. 133.

**Bls. 375-76.**

*Sami:* Sjá 1. B. bls. 101. 134.

**Bls. 376, 2-3.**

*Sami:* Sjá 1. B. bls. 144, 2-3.

Bls. 378.

*Oddmjór, kvæði um konúngatal:* Skjöldúngr rak Skeiðarbrand úr landi með skildi; síðan rèð sá snjallr konúngr öllum Noregi.

Bls. 385.

Augu standa mèr ea[1] of eld til Gráfeldar[2].

1) æ, ætíð. 2) mèr verðr altènd starsýnt á hann Gráfeld hinumegin eldsins.

Bls. 400.

*Sighvatr:* Sjá 5. B. bls. 209-10.

Bls. 402.

*Sami:* Sjá 6. B. bls. 43, 2.

Bls. 409-10.

Sjá 6. B. bls. 437, 3.

Bls. 412.

Sjá 7. B. bls. 12, 2.

Bls. 418.

*Sigurðr Jórsalafari:* Búendr þykkja mèr bestir, bygt land, ok (að) friðr standi.

## Noregs konúngatal,

### er *Sæmundr hinn fróði* orti.

1. þat verðr skyllt þeim greppum[1], ef at skilum yrkja, at þeir gleði fyrða; allra helzt, ef þeir virðar[2] eru færi[3], en verit höfðu.

1) skáldunum. 2) skáldin. 3) færri.

2. Fyrst skal (maðr) róa fjarri reyði, ok koma þó niðr nær[1], áðr lúki. þar haf[2] ek hugt[3] at mynda þessum hróðri eptir þeim orðum[4].

1) nærri reyðinni. 2) hef. 3) ætlað. 4) nl. eg ætla að byrja á elztu konúnga ættum, og koma loks niðr til Jóns Loptssonar.

3. Ef virar[1] hlýða minni mærð, vil ek taka þar fyrst til máls, (að) hugpráðr Hálfdán svarti átti frækn-an erfi vörð[2].

1) nl. verar, menn. 2) son.

4. Kappsamr Haraldr hinn hárfagri tók brátt við konúngs nafni, þá er Hálfdán hafði druknat í næfri[1] hængs hallar[2].

1) berki, þaki. 2) vatns, nl. í ís, ísvök.

5. Ok hann er lagiðr[1] í haug á herská Hríngaríki; en framlyndr burr Hálfdánar tók barnúngr við föðurarfi.

1) lagðr.

6. Hann vildi eigi eiga þat eitt, er lángfeðr[1] hans leifðu[2] honum; ræsir Sygna var svá ríkr ok ágjarn við auðgefendr[3]:

1) lángfeðgar. 2) eptirskildu. 3) menn.

7. at fylkir átti allt land á milli[1] (Gaut-)elfar ok Finnmerkr; hann náði fyrst einn at ráða fyrir öllum Noregi.

8. Gramr, sá er veitti gjafir, átti mart barna, þeir er biðu þroska; því kemr kyn hvers skeyldúngs[1] síð[2] til Haralds ens skararfagra[3].

1) konúngs. 2) að lokunum. 3) hárfagra.

9. Snarr siklíngr réð þundar beðju[1] þrjá vetr ok sjötigi, áðr en einkadóttir Ásadólgs[2] kom at ræna lofðúng lífi.

1) landi. 2) Loka, Hel.

10. Þá var reisuligr haugr vorpinn eptir Harald á Rogalandi. Nafn þess hildíngs, sunar Hálfdáns, mun æ lengi uppi.

11. Eirekr blóðöx tók brátt við jöfurs nafni, sem búendr vildu; vígfimr Eiríkr var alls 5 vetr at landi:

12. áðr en vinsæll Hákon, einkafóstri Aðalsteins, kæmi vestan, og beiddi bróður sinn allrar hálfrar erfðar.

13. En heiptargjarn Eirekr flýði undan, ok synir hans; harðráðr hersa mýgir[1] kom síðan aldri aptr í land.

1) yfirkonúngr.

14. Kappsamr Hákon réð einn fyrir konúngdómi nokkura hríð: tírargjarn[1] var samt 26 vetr at landi.

1) fremdargjarn.

15. Gramr háði gunni[1] á Fitjum við erfivörðu[2] Eireks; hilmir var skotinn í hönd, þá er fólkmeiðr[3] knúði[4] flótta.

1) orustu. 2) syni. 3) hermk. 4) rak.

16. Ek hygg, þat lítið sár leiddi snaran lofðúng til bana; hella, er vísir dó, var ávallt kend til Hákonar.

17. En höldar lögðu þann siklíng í haug á Sæheimi; fræknir menn hurfu svá frá fjörvi ræntum Haralds arfa.

18. Ek hef heyrt, at úársæll Haraldr tæki þá jörð ok ríki; Gráfeldr Gunnhildarsun rèð 9 vetr fyrir Noregi.

19. Áðr en Gormssun ok Gullharaldr gerði nafna sinn at nái; siklíngr var ræntr lífi suðr at Hálsi í Limafirði.

20. Harðráðr Hákon jarl tók við Hárs vífi[1] eptir fallin Harald; sá tiggi rèð þundar beðju[2] 33 vetr.

1) landi. 2) landi.

21. Æfilok Eireks föður[1] urðu ei góð í Gaulardal, þá er Karkr þræll meitti[2] hattar stall[3] af Hákoni (með) knífi.

1) Hákonar. 2) skar. 3) höfuð.

22. Rekka kind, sú er stýrði lögum, misti lítt hins bezta ráða, þá er tóku kristinn mann til konúngs norðr í Noregi.

23. Ok liðdrjúgr Ólafr, arfi Tryggva, tók lönd ok þegna, lofða vinr, hinn er kristnaði 5 lönd á fám vetrum.

24. Ólafr var alls at landi at eins 5 faðmins[1] galla[2], áðr Eirekr beiddi þann ræsi rómu með ófriði.

1) orms. 2) vetr.

25. Sú hrotta ríð[1] var hörð ok lengi, áðr Ormr ryddist alls[2]; öld hefir síðan kallat Sváldrar vog, þar er Ólafr fèll.

1) orusta. 2) til fulls.

26. Tíri[1] göfgaðr Eirekr jarl rèð fyrir Yggs mani[2]

**12 vetr, áðr en lofðúngr, sá er gæddi vini, fór ór landi vestr um haf.**

1) orðróm. 2) landi.

**27. þá var skorinn úfr Eireks, áðr en ræsir hæfi Rómför, ok blóðrás leiddi vitran jarl til bana vestr með Englum.**

**28. Sveinn ok Hákon taldi lönd ok lausafè eign sína, ok jarlar höfðu arf Eireks 2 vetr, at telli fyrða;**

**29. áðr konúngmaðr kæmi vestan í land með lítinn her, ok Ólafr mætti jarli í miðju Sauðúngssundi.**

**30. þá varð Hákon at sverja hilmi þess eiða, er Ólafr beiddi, at fólkbaldr[1] skyldi flýja óðul sín til aldrslita.**

1) Hákon jarl.

**31. Ólafr bauð Sveini jarli snarpa sókn austr fyrir Nesjum; liðfár sonr Hákonar varð, sviptr sigri, at flýja lönd.**

**32. Lofsæll Ólafr hinn digri fèkk einn lönd allt með rínum[1]; hróðmögr[2] Haralds hins grænska rèð grýttri foldu[3] 15 vetr.**

1) hèr held eg lesa egi *„ríngum"*, nl. yztu endimörkum. 2) hinn frægi sonr. 3) Noregi.

**33. Kappsamr Knútr hinn ríki bar bjartan seim[1] und marga bændr, sparði lítt auð við lenda menn, til þess at þeir velti[2] jöfr.**

1) gull. 2) sviki.

**34. Kálfr ok þórir, kynjaðir vel, reistu her á móti hilmi; fylkir þrænda var felldr, þar er heita Stiklastaðir.**

**35. þá bar raun um helgan konúng, at ræsir var kærr Kristi; heilagt skrín stendr yfir Haralds arfa í miðri Krists kirkju.**

**36. þá rèð Sveinn, sonr Alfífu, fyri landi 6 snáka stríð[1], áðr en sonr Knúts vinalauss varð at flýja af konúngdómi.**

1) vetr.

37. Ágætr einkasun Ólafs konúngs kom austan or Görðum; Magnús fèkk alla óðalsjörð sína ok mikit ríki.

38. Magnús góði, mönnum þarfr, var tállaust[1] konúngr 12 vetr, áðr Sygna drottinn, afreks maðr, misti andar í sótt.

1) eflaust.

39. Fylkir, harmdauðr hverjum manni, var færðr þar hans faðir hvílir; sá konúngmaðr var grafinn norðr at Krists kirkju í Noregi.

40. Nú hefi ek talt[1] þá tíu landreka[2], er hverr var frá Haraldi; ek inta svá þeirra æfi, sem sagði Sæmundr hinn fróði.

1) talið. 2) konúnga.

41. Þó er eptir miklu meiri lutr þess máls, er ek hygg mæla; nú skal því þaðan af greiða (þat) jöfra kyns, er enn lifir.

42. Þat er mèr sagt, at sonr Haralds hèti forðum Sigurðr rísi; Hálfdán var arfi Hrísa, en Sigurðr Sýr son Hálfdánar.

43. Þá gat Sigurðr ok Ásta þann son, er átti heiti Haralds; sá allvitr konúngr rèð einn víðri foldu 20 vetr:

44. áðr hilmir gerði herför með ofstopa til Englands. Enskir menn felldu Ólafs bróður í vapnþrumu vestr.

45. Friðsamr ok ársæll Ólafr kyrri tók til föðurleifðar; sá gramr ræðr grýttri foldu samfast[1] 27 vetr.

1) samfleytt.

46. Mikil sótt kom ofbrátt at ræna Magnúss föður öndu; sá öðlíngr var enn grafinn at Krists kirkju í Kaupángi.

47. En Olafr enn kyrri átti fræknan ok fjárgóðan son; Magnús rèð 10 vetr fyri mani Yggjar[1], at tali fyrða.

1) landi.

48. Ek frá at Magnús berfættr ætti mörg börn, þau er höfðu metorð; fimm synir þess fremdar fljóts þengils voru konúngar.

49. Úngr málsnjallr Magnús konúngr fór til Írlands at herja; ágætr Eysteins faðir var felldr í þeirri fleina flaug[1].

1) orustu.

50. Þat er sagt, at 3 þjóðkonúngar rèði þá saman fyri landi; ek hefi heyrt þat, at varla hafi fremri bræðr komit á fold.

51. Úngr lofsæll Ólafr hinn góði varð fyrstr at missa lífs; skatnar máttu skamma stund njóta þess Magnússunar.

52. Eysteinn konúngr gerði þat flest innanlands, er gegndi frama; unz hjartverkr leiddi fræknan hilmi brigða[1] brátt til bana.

1) mjög.

53. Þeir bræðr eru báðir lagðir í grund[1] norðr á Niðarbakka; hátt Ólafs skrín stendr þar yfir altari í höfuðkirkju.

1) jarðaðir.

54. En Sigurðr lifði sýnu[1] lengst þeirra þriggja bræðra, hinn er fór úr landi frægsta för út til Jórsala.

1) einna.

55. Ágætr Sigurðr rèð fyrir ríki 27 vetr, áðr mannskæð banasótt brygði lífi Mæra drottins.

56. Lík þess lofðúngs er lagit[1] í kistu austr í Oslo bæ; ný jörð grær yfir beinum jöfurs at hárri Hallvarðs kirkju.

1) lagt.

57. En bæði lifði eptir Sigurð biltrauðr[1] sonr ok dóttir. Dóttir þess Dæla hilmis[2] mun enn (verða) nefnd þokkum[3] síðar[4].

1) ákaflyndr. 2) Noregs konúngs. 3) nokkuru. 4) sjá 68. erindi.

58. Nú er svá, at heldr tekr at halla[1] at telja æfilok jöfra; heiptargjarn mögr Sigurðar hèt Magnús, en Haraldr bróðir.

1) líða á.

59. þeir nánir frændr höfðu mjög rógsamt[1] ríki í Noregi; allt fór verr, en vera skyldi; margr galt þess á meðal þeirra.

1) róstusamt.

60. Unz Magnús misti sæmdarlaust beggja[1], sigrs ok heilsu. þat veit hverr, at Haraldr Gilli var konúngr samfast 6 vetr.

1) bæði.

61. Áðr en fyrðar tóku tírarlaust lofðúng af lífdögum; sá bróðir jöfra er jarðaðr í Björgin at Krists kirkju.

62. Ek frá, at synir Sygna grams tæki landvörn eptir liðinn ræsi; sóknarsnarr Eysteinn var bróðir Ínga en annar Sigurðr.

63. Frægt ríki þeirra náði þeygi[1] standa lengr[2] í friði; þvíat þeir bræðr, er brutu særi, bárust banaspjót eptir.

1) þó eigi. 2) lengi?

64. Varat[1] saklaust, þá er (menn) höfðu ræntan fjörvi Sigurð, frækinn mann; sá er búinn at liggja í fold í Björgin hjá feðr sínum.

1) það var ekki.

65. Eysteinn var ræntr lífi austan fjarðar af liði Ínga; nú er sá andar sparr[1] gramr ausinn grundu[2] austr at Forsi.

1) andaði. 2) moldu.

66. Ínga ríki stóð einart[1] 25 vetr, unz Hákon felldi Ínga austr í Vík með herliði.

1) einlægt.

67. Sá gunndjarfr[1] gramr er huldr hauðri at höfuðkirkju í Oslo, en Hákon hlaut litla stund at ráða landi og þegnum.

1) herdjarfr.

68. þvíat Erlíngr enn skakki átti vænann ok velborinn son; lands fólk gáfu Kristínar bur konúngs nafn eptir liðinn Ínga.

69. Ok fremdargjarn Magnús felldi Hákon norðr á Mæri, sá vinsæll ræsir var huldr vígðri moldu í Raumsdali.

70. Sókndjarfr Kristínar sun var konúngr 17 vetr í samt, unz ágætr Sverrir felldi frækinn gram austr í Sogni.

71. Nú er lík gunndjarfs Magnúss lagit í gröf í musteri á Björgin, þar er skrautgjört skrín Sunnifu stendr gulli búit.

72. Þat er sýnt[1], at ógnar örr Sverrir ræðr nú einn fyri öllu því ríki, er kyn Haralds Hálfdánssunar hefir átt.

1) augljóst.

73. Þó skal ek enn segja þokkum[1] fleira frá börnum Berfætts, þess öðlíngs, er aldrigi hafði óttast eld nè járn.

1) nokkuð.

74. Ein dóttir döglíngs hèt Þóra, sú var gipt göfgum manni. Sú systir jöfra, er fæddi Jón, var allra helzt sonsæl.

75. Ráðvönd, göfuglynd ræsis dóttir kom til nykraborgar[1] næfr[2]-lands góðrar tíðar, allra helzt Íslendíngum.

1) vatna. 2) íss-.

76. Þvíat hugrakkr einka sonr jöfra systur fylgði at[1] honum, sá hjartaprúðr íta vinr, er hefir orðlof allra fíra.

1) fylgðist með.

77. Þat er ok víst, at metorð einarðlynds Jóns verða mest, þar er merkismenn mistar runna[1] eigust við (til að) skipta málum.

1) mk.

78. Engi afreksmaðr vill nú deila kappi við konúngsfrænda; giptudrjúgr vella deilir verðr vinsæll, sem glíkt[1] er.

1) líkligt.

**79.** Faðir hans þótti flestum mönnum örr ok úsvikall; Loptr vissi engan fæddan úvin sinn undir lofi skýja[1].

1) himni.

**80.** En Sæmundr Sigfússonr, faðir Lopts, sá er fírum þótti höfuðsmaðr um alla hluti, vissi jafnan sína snilli.

**81.** Þat jöfra kyns hefir prýdda alla ætt Oddaverja, margnýtr dótturson Magnúss konúngs, sá er fremst[1] dögum optar.

1) er virtr.

**82.** Ek nefnda áðr nær 30 tigna menn, gædda tíri, en þeir jöfrar eru þrætulaust allir Jóns ættar.

**83.** Nú bið ek Krist, at giptudrjúgr konúngs spjalli[1] hafi allt þat, er hann æskir sèr af sjálfum guði, ok njóti unaðs allann aldr!

1) vinr.

---

## ELLEFTA BINDI.

### Bls. 42.

Vinda myrðir[1] varðat[2] vax eitt[3], þá er morðkunnr Haraldr sunnan[4] sparn[5] á má mörnar[6] í faxa[7] ham; en úrikr[8] Byrgir, rekr[9] bergsalar[10] böndum[11] í landi, (var) fyrir[12] í jöldu[13] líki; öld sá þat.

1) Haraldr konúngr. 2) varð ekki. 3) nl. hann var þá nógu hugaðr. 4) Haraldr danski. 5) gekk. 6) elfu, nl. skipið, sem brotið hafði. 7) hests. 8) þannig Hk. 9) rækr. 10) hellra. 11) goðum, nl. af jötnum. 12) á undan honum Haraldi. 13) merar.

### Bls. 43.

*Eyjólfr Valgerðarson:* Selit[1] maðr vápn við verði! verði sverða dynr[2], ef má! (vèr) verðum (að) herða hljóð hæft[3]: (vèr) eigum (að) rjóða slög[4]. Vèr skolom bíða (Haralds) Gormssonar af gömlo þoko-landi Gandvíkr[5]; ván er, at vápnhríð[6] verði hörð.

1) selji ei. 2) ófriðr. 3) í hófi. 4) vopn. 5) Íslandi. 6) orustan.

**Bls. 125, mismgr.**

Sjá 1. B. bls. 165 og 167-68.

**Bls. 127.**

*Einar skálaglam:* Illrar tíðar[1] gerða ek Viðis[2] veig[3] of[4] virða; ek vann þat, meðan aðrir örvafaðar[5] sváfu. Komkað ek[6] þess[7], er fè þótti betra, en skáldit verra; hverr þingsættis[8] meiðr[9] sparir hödd[10] við hróðri?

1) illu heilli. 2) Viðris, Óðins. 3) drykk, ljóð. 4) um. 5) hermk., menn. 6) eg kom eigi. 7) þángað. 8) þíngsætis. 9) maðr. 10) gull.

**Bls. 128.**

*Sami:* Sækjum heim jarl, þanns[1] þorir auka úlfs verð[2] sverðum! hlöðum baugskjöldum við borð á barða[3] Sigvalda! Sá sárlinns[4] sveigir[5] drepr eigi hendi við mèr, er (vèr) finnum gram[6]; berum rönd[7] út á andra[8] Endils[9]!

1) þann er. 2) heya orustur. 3) skipi. 4) sverðs. 5) hermaðr. 6) hann, jarlinn. 7) skjöld. 8) skíð. 9) skip.

**Bls. 130.**

*Þorleifr skúma:* Ek hefi í hendi (kylfu) gerfa til höfuða[1], beinbrot Búa, böl Sigvalda, vá[2] víkínga, vörnHákonar, sjá[3] eikikylfa skal vera óþörf Dönum, ef vèr lifom.

1) til bana. 2) tjón. 3) sú.

**Bls. 130, mismgr.**

*Vigfús Vígaglúmsson:* Þraungr[1] at veðri viðris[2] vandar[3]: góðr leikr er oss fyrir handum[4]; en vinr lauka feimu[5] liggr heima. Ek kveð hlýss[6] bossa[7] neyta hæla[8] und vörmum bægi[9] vífs; vèr skreytum[10] spjör[11]: hann væntir sèr annars.

1) nú líðr. 2) Óðins. 3) sverðs, nl. orustu. 4) höndum. 5) kvennfólksins. 6) hýru. 7) dreing, nl. þann sem er fyrir hlýindin. 8) leita sèr hælis. 9) armi. 10) búum. 11) spjót vor.

**Bls. 137, 1.**

Sjá 1. B. bls. 173, 1.

**Bls. 137, 2.**

*Tindr Hallkelsson:* Sigvaldi, óhræðinn oddgaldrs[1]

gat[2] enn viðrnám[3]: sökk-værinjótar[4] Búa krâmu[5] vítt[6]: áðr grímnis vagna[7] röðuls[8] mótmagnendr[9] mættu þrænskum jarli[10]; sárlá[11] saung[12] at sverða þíngi[13].

1) í bardaga. 2) fekk. 3) hafði enn aldrei látið hugfallast. 4) félagar, nl. *sök-veri-njótar*, sakar verjendr, sporgaungumenn. 5) getg. 6) víða. 7) skipa. 8) skjaldar. 9) þeir Sigvaldi og Búi. 10) Hákoni. 11) blóðið. 12) þaut. 13) í bardaganum.

### Bls. 138, 1.

*Sami*: Hagli dreif á margan tývis[1] virði[2] at Viðris veðri[3]; undkunda[4] valgagls[5] varð grimm vargi: þars[6] hríngofinn Sörla serk[7] blès í sundr fyrir jarli á sandi[8]; seggja sessi[9] hefir merki þess.

1) getgáta, goðs. 2) heiðíngja. 3) orustu. 4) fundr. 5) hrafns. 6) þar er. 7) brynju. 8) við ströndina. 9) vinr, nl. Hákon jarl.

### Bls. 138, 2.

Sjá 1. B. bls. 183.

### Bls. 138, 3.

*Sami:* Enn ørri[1] jarl fórað[2] endr[3] meiri tírar[4] för at mørum[5] geirs glaumi[6]; herr kendi Göndlar[7] dóms[8]. þá er meiðr mýrar fúss auðs[9] hrauð víkínga skeiðar á hauðri Mæra (at) hjaldrgjöldum; en ek ræsi[10] þat.

1) getgáta; ýngri. 2) fór ekki. 3) fyrrum. 4) frægðar. 5) frægum. 6) bardaga. 7) valkyrju. 8) forlaganna. 9) gulls. 10) víðfrægi.

### Bls. 138, 4.

*Sami:* þar er glaumr Göndlar borða[1] naumu[2] öx[3], gjörðust öll lönd auði grimms[4] Dana eyðis[5] at brandi[6]. Heggr hræsævar[7] birtínga[8] hefir kent viggjar[9] veggs[10] veðr-eggjundum[11] at höggva skeggi niðr í gras[12].

1) skjalda. 2) tröllkonu, axar. 3) óx. 4) örláts. 5) getg. 6) báli. 7) blóðs. 8) spjóta, hermk. 9) skips. 10) skjaldar. 11) hermk. 12) hníga til jarðar.

### Bls. 138, 5.

*Sami:* þars ofþíng odda[1] gíngu saman, saddi jarl hánga[2] val[3]; byrgis[4] nafni vann hafna húngri. Mistar[5]

mörum[6] varð gott til vista, at[7] háða morðskýja[8] hríð[9] við síðu markar heiðins dóms[10].

1) orustur. 2) getgáta. 3) hrafninn. 4) hrafns? 5) valkyrju. 6) bestum, nl. úlfum. 7) eptir. 8) skjalda. 9) orustu. 10) heiðins lands, nl. Noregs.

## Bls. 139, 1.

*Sami:* Meðan öld vill byggja yggs kveðju[1], muna[2] aldir þat, er (að) Hákonar æfi veitti göglum[3] glæ[4] gnógt þat[5]. Hykk[6] lýða láreiði[7] hverjum gram betra; því, hykk, (hann) lætr beita bitrum brand[8] at[9] vildu[10] landi[11].

1) = *málu, rúnu,* jörðina. 2) getg. 3) hræfuglum. 4) gleði. 5) nægiliga. 6) eg hygg. 7) hermk., Hákon jarl. 8) sverði. 9) í. 10) kæru. 11) Noregi, því hann ver Noreg hraustliga.

## Bls. 139, 2.

*Sami:* Hroptr hjaldrskýja[1] linds[2] hrauð Dana skeiðar, en um náði nýjum val; þar var leiðángr fyrir landi.

1) skjalda. 2) sverða.

## Bls. 140, 1.

*Sami:* Virðendr bruðar[1] fángs[2] á barða[3] kenda Búa, þá er viðris veðrmagnandi[4] rèð[5] gánga fyri borð. Herr suðan[6] gjörði mikinn hjörva hljóm at breiðu valdi[7] Hákonar. Baugs baldr! Búi rauð skeiðir.

1) sjóar. 2) orustu, hermenn. 3) herskipinu. 4) hermk., Búi. 5) getgáta. 6) sunnan, nl. Jómsvíkingar. 7) ríki.

## Bls. 140, 2.

*Sami:* Undr er þreytt[1] af þundi gulls[2]. Goðmarr, fjarri[3] hræum, kendi þann val, er gumna samnaðr[4] sendi.

1) afrekað. 2) mk., Hákoni jarli. 3) getg. 4) jarlinn.

## Bls. 141.

*Vagn Ákason:* Sigvaldi hefir setta oss sjálfa und kylfo, en fárhugaðr fnauði[1] fór heim til Danmarkar, hyggr fliótt at falla í faðm vinkono sinni; en Búi gekk með hugrekki fyrir et breiða borð.

1) vanmenni.

## Bls. 142.

*Vigfús Vígaglúmsson:* Varð-at[1] hægt at leggja til Vagns, þar er ek sá hjörklofnar Geitis hurðir[2] rofna[3]; hjörva hregg[4] saung hátt. þröngvir[5] Gunnar þunnîss[6]! darra flaug danskra drengja var straung, þar vèr gengum í böð til knarrar.

1) ekki varð. 2) skjöldu. 3) þannig Fagrsk. 4) orustan. 5) getgáta. 6) sverðs, mk.

## Bls. 144.

*Einar skálaglam:* Jarl kvað þat at[1] unnviggs[2] ærri[3] fyrir sunnan haf[4], þá er sárelda[5] spor[6] våro á seima særi[7]: valdr eybaugs[8] viggja[9]! faðir þinn hefir haldit öllungis[10] illa[11], ef (þú) skalt deyja; vèr hyggjom þat.

1) við. 2) skips. 3) mk., við hann þorleif. 4) í Noregi. 5) sverða. 6) sár. 7) mk., honum þorleifi. 8) sjóar. 9) skipa, maðr. 10) öldúngis. 11) honum hefir haldist illa á.

# Jómsvíkínga drápa

## *Bjarna biskups.*

1. Ek kveð aungan málma rýri[1] at örum óði; þó gat[2] ek um hugðan hróðr ferðar[3] at hljóðs smíði[4]. Ek mun um-færa fram yggjar bjór[5] fyrir öldum, þó at einigir[6] ættgóðir ýtar hlýði mèr.

1) mann. 2) fekk. 3) manna. 4) getgáta; fyrir kveðskap minn. 5) kvæði. 6) aungvir.

2. Úteitan[1] sútar hendir mik enn, sem aðra; handfögr kona hefir bundit mèr harm á hendi. þó em ek at hvåru[2] ærit gjarn at auka óð; ek em orðinn mjök úgæfr[3] at mèr um vífa för[4].

1) ógleði. 2) samt. 3) óheppinn. 4) kvenna far.

3. Dreng var dátt um[1] svarra fyrir löngo; in[2] únga dorgar vángs[3] eldreið[4] hefir haldit því ossu[5]

skapi. Þó hefi ek ort allfátt um ítra mjaðar þellu[6]. Vel samir mèr enn (at) þylja um eina ölselju[7].

1) ek elskaði. 2) getgáta. 3) sjóar. 4) kona. 5) voru, minu. 6) kvk. 7) kvk.

4. Varkat ek[1] firri[2] und forsum; ek fór aldrei at göldrum ..... annat allstórum mun fleira þarf at yrkja. ..... greppr[3] um óhljóð snerto[4]. (Vèr) berum þat sögukvæði upp fyrir ýta.

1) ek var ekki. 2) fjærri. 3) skáldið. 4) orustu.

5. Fögr seima guðr[1] rænir mik snemma flaumi[2] ... vèr[3] frágu fimm höfðíngja sitja at Jómi. Víst samir vel at telja vinnor[4] hreystimanna; þar er at yrkja um merkiliga málmþíngs meiða[5].

1) kvk. 2) gleði. 3) getgáta. 4) afreksverk. 5) hermenn.

6. Ek frá (Strút-) Harald hvervitna heyja stóra bardaga; þeir böðgjarnastir niðjar ruðu bitra branda. Siðfornir[1] knáttu sjá þar síðan glym járna; þeim þótti þörf at efla Veseta arfa[2].

1) þeir heiðnu menn. 2) Búa.

7. Geta skal hins, hverr var höfðíngi hvatra drengja; sá, snjallastr at öllu, gat at hrósa sigri. Hverr hreystimaðr var at flestu heldr hóti minni hauklyndum Áka syni í herðiraunum.[1].

1) hörðum þrautum.

8. Sigvaldi hèt höfðíngi fyrir snjöllu liði snarfengra drengja; þorkell rèð þar ok þegnum. Harðráðr Búi var með Sigurði at hverjum hjaldri; frágum víst, at Vagn væri enn mesti ofrhugi.

9. Sterkir rjóðendr dreyrgra darra[1] hèldu sínum skipum til Danmarkar; þeim gafst rausn ok ríki. Ok ógnrakkastir auðbrotar[2] drukku erfi feðra sinna; ek frá þeim ýmsum aukast annir.

1) spjóta, hermenn. 2) mk.

10. En einkum vildu þá öldormenn[1], at[2] skyldo (sinni), leita sèr ágæta; slíkt eru yrkisefni. Ok (þeir)

tóku (að) hefja haukligar[3] heitstrengíngar; segik[4], at ölteiti ýta var eigi lítil.

1) höfðíngjar. 2) eptir. 3) frækniligar. 4) eg segi.

11. Ek frá heiptmildan Sigvalda hefja heitstrengíng; órækinn[1] Búi var örr at efla slíkan[2] þrek. Þeir hètust fíkjum[3], (at) reka Hákun af hauðri, eða ræna (hann) lífi; fjón[4] frægra fyrða var grimm.

1) hugdjarfr. 2) sama. 3) ákafliga. 4) heipt.

12. Hugprúðr Búi lèzt síðan vera barr[1] at fylgja böðmildum Sigvalda til harðrar hjörþrimu[2]. Hranna brjótr[3] kvaðst vilja hafa Hávarð (höggvanda) at gunni[4], hann kvað sèr eigi líka illa Áslák (hólmskalla) í för.

1) ákafr. 2) orustu. 3) mk., Búi. 4) í bardaga.

13. Enn hrausti Vagn kvað hitt: sá frækn Hamdis faldruðr[1] lèzt skyldu atfylgja gunnar tömdum[2] Búa. Þá rèð hríngameiðr[3] at strengja heit til hvítrar Þorketils dóttur; hættr harmr kemr at hendi mèr.

1) getgáta; = *brynju runnr*, mk. 2) hervönum. 3) Vagn.

14. Ein ítrmanns konan[1] drepr fyrir mèr allri teiti: góð ætt gæðíngs[2] of-kemr at mèr grimmo stríði. Útrauðr örr þengill bað ýta skeiðum á lög. Herr guma, hinn er kunni gný darra, gekk á skip.

1) göfug kona. 2) sú ættstóra kona.

15. Sagt var, at snyrtimenn[1] hèldu skipastóli sunnan um hrannir: kaldr marr dreif á morðbáls[2] meiða[3]. Heldir húfar[4] lömdu ísugar bárur; hríð kannaði lýði; svalr sjár gnúði á sýjo[5].

1) prýðimenn. 2) sverðs. 3) menn. 4) skipsborð. 5) umfarinu, borðunum.

16. Reynendr rauðra randa! sagt var, at Jómsvíkíngar komo flota sínum jólanótt at Jaðri. Fírar våru heldr gjarnir á harðan hernat; rjóðendr randorma[1] buðu Geirmundi ríki[2].

1) spjóta. 2) ofríki.

17. Þeir Noregs jarlar buðu þá þeim greppum[1], er sunnan komo, görla til geirhríðar[2] á móti. Þar var mestr landherr fundinn saman á skömmu mæli[3]; margr morðremmandi[4] var at laufaleiki[5].

1) hetjum. 2) orustu. 3) tíma. 4) hermaðr. 5) í orustunni.

18[1]. Eldr, skæðr elri[2], gnauðaði víða um eyjar; logi gaus upp úr húsum: sá rænti gumna griðum.

1) Stefið sjá 14. v. 2) trènu.

19. Ok menn heyra, at þrír hraustir höfðíngjar væri með hvárum flokki, (þjóð hefir þat at minnum) þar er hjálmaskóða[1] hreggviðir[2] hittust á víðum Hjörúnga vâgi; sá fundr þótti fyrðum frægr.

1) vopns. 2) hermenn.

20. Ek frá Hákon verja hauðr hart, svâ at eigi skorti; Eiríkr hefir verit útrauðr (að) rjóða eggjar; ok ýtar sögðu Ármóð vera þar hinn þriðja höfðíngja; sá greppr var glaðr við gumna.

21. Heiptar hvattir herðimenn[1] lögðu saman randir, þar er börðust; herr var at verja hauðr hundíngja[2]. Ok fimm ýtar um-vâro á móti einum víkíng: (menn) kveða þat; (þat) varð eigi árla[3] raun á því[4].

1) hraustmenni. 2) víkíngi. 3) fljótt. 4) nl. að liðsmunr væri svo mikill.

22[1]. ... greiðu[2] mikinn atróðr; glygg[3] eggja[4] magnaðist.

1) Stefið sjá 14. v. 2) getg., greiddu. 3) stormr. 4) bardaginn.

23. Sigvaldi bað sína sóknstránga sveit gánga vel á móti Hákoni; hann var-at samr[1] á sáttir[2]. Hildarörr[3] Haralds arfi[4] klauf hjálma ok skjöldu; hann gekk nâkkvara[5] sinnum hart fram fyrir hlífar.

1) fús. 2) frið. 3) hergjarn. 4) Sigvaldi. 5) nokkrum.

24. Fránlyndr[1] Búi gekk þar hart fram með sveina í fólki[2] sínu; (menn) kveða verða vissu vânir þess. Ok höggum rammir geirviðir[3] görðu grimma vâpna brestu, þeir gengu geysta[4] at gunni.

1) snarlyndr. 2) fylking. 3) hermenn. 4) óðir.

25. Ólmr Gullbúi klauf hjálma með Yggjar eldi[1]; hann lèt hríngserkja böl[2] gánga niðr í herðar. Hávarðr vann at stæra[3] hart högg liði fyrða; verit hefir fíkjum[4] íllt at ega við Áslák.

1) sverði. 2) sverðið. 3) auka. 4) mjög.

26[1]. El stála[2] gnúði mjök; álmr[3] spann[4] af sèr odda[5]; þeir, gunnrakkastir gumnar, gripu í bug snærum[6].

1) Stefið sjá 14. v. 2) bardagi. 3) boginn. 4) sparn, laust. 5) örvar. 6) spjótreimarnar.

27. Ek frá lið verjast þar vápnum. Vagn felldi þegna: hann klauf mörgum hundroðit[1] berg breiðra brúna[2]. Söngr snarpra sverða var grimmr; drengir burgust[3] vel; arfþegi[4] Áka (Vagn) vann ös[5]; blóð fèll á kesjor.

1) mjög bloðugt. 2) höfuð. 3) björguðust, vörðust. 4) sonr. 5) hafði ógáng.

28. Vagn hefir orðit ýtum örfengr[1] at strángri böð (drengir gengu vel fram með fræknum fullhuga), þar er ek frá (at) hann, hinn ríki Áka sonr, hlæði brátt at[2] hugfullum Ármóði í Yggjar eli[3].

1) harðfeingr. 2) banaði. 3) bardaganum.

29. Herr æxti[1] darra gný[2]. Ek frá hölda hvervitna hrökkva fyrir gunnar rökkum hjörva hreggviðum[3], áðr Hákon, grimmr ýtum, tæki at blóta í örva drífu[4]: hin harða heipt kom þegar fram.

1) jók. 2) bardagann. 3) hermönnum. 4) orustu.

30[1]. Ylgr[2] gekk á bólginn ná; úlfr stóð þar í átu. Vargr gein þar um[3] mergjar sal[4]; gráðr[5] gyldis jóða[6] þvarr.

1) Stefið sjá 14. v. 2) úlfr. 3) yfir. 4) beinum. 5) græðgi. 6) úlfa.

31. Ek frá þá Hölgabrúðar hit illa el æða; harða grimt hagl ór norðri glumdi á hlífum: þar er skýja grjóti[1], hreggi[2] keyrðu, barði[3] í ormfrán[4] augu ýtum; þí[5] knátti ben blása[6].

1) hagli. 2) af stormi. 3) laust. 4) ormsnör. 5) þvi. 6) þjóta.

32. þar var þrekförluðum jarli þörfum meiri hugraun; ek hygg, at hann hèldi braut flota sínum. Sigvaldi bað snara segl við húna í köldum byr; hörð hríð gnúði á hlýrum: byrr fèll í váðir[1].

1) getgáta, seglin.

33. þar lèt vegrækinn[1] Vigfús helfarar[2] verða veittar Ásláki; er-a þörf at inna þann þátt. Höggrammr þorleifr of vann brotit þrekstærðum Hávarði þjökva[3] leggi með kylfu; hann lèt hart.

1) framgjarn. 2) bana. 3) þykkva.

34[1]. Straumr dró andat fólk út um eyjar at sundi; miklandi geira gný[2] brá föstu gifrs[3] hesta[4].

1) Stefið sjá 14. v. 2) hermk. 3) tröllkonu. 4) úlfa.

35. Böðsvellandi[1] bað, at allir Búa þegnar skyldi fyrir borð; ek frá lið Vagns verjast áðr (með) vàpnum. Ok hraustr hjörva hreggboði[2] rèði útrauðr á kaf með þúngar kistur: sá[3] var illr af aurum.

1) hermk. 2) hermk. 3) hann, Búi.

36. Ygr[1] yggjar eldbroti[2] vann at stíga fyrir borð; hann, hraustr Gullbúi, bar kistr út af húfum[3]; ok úblauðir[4] lýðir knegu optliga síðan eptir líta þar lángan orm á hríngum[5].

1) ægr. 2) mk., Búi. 3) borðum. 4) hraustir. 5) hringlagðan

37. Ek frá, at Vagn verði skeið valt[1] með sína þegna; þá vàro hroðin öll önnur þunn skip þeirra. Öðlíngs menn náðu eigi at gánga þar upp; þeir rèðu keyra Eiríks vini öfga ofan.

1) ágætliga.

38. Einir þrír tigir úngra snyrtidrengja[1] stóðu þar upp[2] eptir, áðr hugum strángir drengmenn[3] lètti darra dyn[4]. Væn sveit fylgði Vagni vel. Ek frá alls önga aðra jafnmarga burgust[5] svá.

1) prýðimanna. 2) uppi. 3) drengir. 4) bardaganum. 5) hafa bjargað sèr, varizt.

39. Drengr rèð at gánga á land með danska dólga; ek frá dör roðin í dreyra: dauðr herr lá á skeiðum. Vagn kvað eigi ýtum ráð at skunda undan; þeir görðu sitja sáttir saman á einni náttu[1].

1) sjá 1. B. bls. 180-83.

## Bls. 185.

*Óttar svarti:* Sjá 4. B. bls. 50, 2.

## Bls. 186, 1.

*Sami:* Lýtir[1] lavgreiðar[2]! lítt gamall hraztu[3] fram skeiðum; fylkir! fólksveimaðr[4], øri[5] þèr, fórat[6] heiman. Hilmir! bjóttu[7] harðbrynjuð skip, ok hættir kynjum[8]; Knútr! reiðr hafðir þú rauðar randir[9] fyrir landi.

1) eyðir. 2) skips, herkonúngr. 3) getgáta. 4) hermk. 5) ýngri. 6) fór ekki. 7) þú bjóst. 8) lagðir þig í stóra hættu. 9) skjöldu.

## Bls. 186, 2.

*Sami:* Flugar[1] trauðir Jótar atfylgðu[2] þèr; auðmildr skreytir skaut-reina[3] bjó liðvânir Skánúnga[4]. Vísi! vâð[5] blès of[6] þèr; þú settir flesta stafna vestr í haf; þú gjörðir þitt nafn kunnt[7] þenna[8].

1) flótta. 2) veittu lið. 3) skipa, herkonúngr. 4) það lið er hann fékk af Skáni. 5) segl. 6) yfir. 7) kunnugt. 8) þar, á Vestrlöndum.

## Bls. 187, 1.

*Hallvarðr háreksblesi:* Knútr! lèztu harðbrynjuð skip dynja fram til Fljóta. Frægr heiptsnarr vörðr Hildar leiptra[1] leið um ægi. Ullr[2] sunnviggs[3]! lèztu bundit flota við ættleifð Ellu[4], ok reifðir[5] má[6] sverðmanns[7] snyrtigerðar[8].

1) sverða, hermaðr. 2) getgáta. 3) skips, hermk. 4) England. 5) gladdir, saddir. 6) máf. 7) Högna. 8) Hildar, nl. hrafninn.

## Bls. 187, 2.

*Óttar svarti:* Ríkr hilmir! bartu herskjöld, ok hèlduð af slíku; þengill! ek hykkað[1] þik þektust[2] mikla

kyrsetu. Jóta drottinn drap ætt Játgeirs[3] í þeirri för. Stillis konr[4]! (þú) rakt[5] þeim illan þveit[6]: (þú) ert heitinn þrár.

1) hygg ei. 2) hafa þekkzt. 3) Enska. 4) niðji. 5) rakst. 6) laust þá illum steini, veittir þeim stóran skaða.

## Bls. 188, 1.

*Sami*: Buðlúngr! bygðir ok hús heiptar-manna[1] brunnu fyrir þèr úngum; lèztu búendr opt gjörva[2] herkall[3].

1) fjandmanna. 2) gera. 3) heróp.

## Bls. 188, 2.

*Þórðr Kolbeinsson:* Ár-ramn-gefendr[1], þeir er lánga stund vàru Englum leiðir á landi, gengu upp grund af skeiðum. En búendr, þeir er gáðu verja bœi, gjörðu herferð[2] í gegn; lið hilmis galt[3] glaum hjalta skers[4].

1) þeir sem gefa hrafni æti, hermenn. 2) hergaungu. 3) gerði. 4) sverðs, orustu.

## Bls. 188, 3.

*Óttar svarti:* Gramr! lèztu framda gunni[1] í grønni Lindisey; víkíngar hèldu viðr þèr[2] því ríki[3], er (þeir) vildu. Þröngvir[4] Svía! lèztu øst[5] Engskt[6] fólk bíða sorgar í breiðri Hemínga borg fyrir vestan Úsu.

1) orustu. 2) beittu móti þèr. 3) ofbeldi. 4) óvinr. 5) æst. 6) enskt.

## Bls. 191.

*Sami:* Úngr fylkir! lèztu Engla falla dauða allnær Thesu; djúpt dík[1] fløði[2] of líkum Norðimbra. Hötuðr[3] gunnar[4] braut svefn svörtum hrafni[5]; enn snjalli mögr[6] Sveins[7] olli sókn at Skorsteini.

1) díki. 2) flæddi, flóði. 3) hvötuðr, hvetjandi. 4) hernk. 5) vakti hann af svefni. 6) sonr. 7) Knutr.

## Bls. 194.

*Sami:* Hykk[1] randa[2] friðskerðl[3] gerðu[4] Frísi fjörlausa[5] þar[6]; brauztu þèr[7] Brandfurðu með bygðu setri.

Göfugr ættniðr Játmundar laut[8] hættar undir; danskr herr skaut þá drótt (með) dörrum, er þú rakt flótta.

1) eg hygg. 2) skjalda. 3) herkonúnginn, sem gefr ei skildinum grið. 4) hafa gert. 5) dauða, drepið þá. 6) getgáta. 7) undir þig. 8) hlaut.

Bls. 195, 1.

*Sami*: Enn sterki skjöldúngr! vantu skæru verk[1] und skildi; blóðtrani[2] fèkk brúnar bráðir (í) Assatúnum. Nær[3] jöfurr! vattu (vanstu) sverði nafn[4] fyrir norðan stóru Danaskóga; verðúng[5] þótti valfall gnóg.

1) hervirki. 2) hrafn. 3) knár. 4) þú gerðir þig frægan í orustu. 5) hirðinni.

Bls. 195, 2.

*Sami:* Bíðr bjóðr stórgjafa! síðan vantu[1] brynjur rauðar fyrir innan Norðvík; þú lætr önd, áðr þrjóti þinn þrek.

1) gerðir þú.

Bls. 196, 1.

*Þórðr Kolbeinsson:* Ítr jöfra hleti[1] þrifust[2] í favr eggveðrs seggja[3]; mörg mislaung skeið hèlt í móðu[4], sem ek vissa. Áttstórr Ullr brands[5] hèlt báru bládýrum[6] svâ nær landi, at (hann) knátti sjá enska völlu.

1) mægðir. 2) styrktust. 3) hermanna. 4) ána Tems. 5) hermk.; Eirikr jarl. 6) skipum sínum.

Bls. 196, 2.

*Sami:* Enn Knútr, sá er kníði kjölslóðir[1] rendi lángskipum utan at eyrar grunni endr[2] skjöldúngum[3]. Fundr hjálmaðs jarls[4] ok hilmis[5] varð høgr[6] á því døgri, þar er varrláðs[7] fyrðar[8] vildu koma báðir.

1) hafið. 2) móti. 3) þeim, Eiriki jarli. 4) Eiriks. 5) Knúts. 6) gleðiligr. 7) getgáta, sjóar. 8) sækonúngar, Eirikr ok Knutr.

Bls. 196, 3.

*Óttar svarti:* Enn gekk fram[1], þar er (þèr) unnuð. Álmr[2] gall hátt við málma; sverð knáttu verða slæ[3], þar er sóttuð kastala. Hnekkir hlunns hleypi-

blakka[4]! (þèr) unnuð eigi minni rómu[5] á Tempsár grunni; úlfs gómr veit þat.

1) vel. 2) bogi. 3) aljó. 4) skipa, herkonúngr. 5) orustu.

Bls. 197, 1.

Sjá 5. B. bls. 229, 3. 2.

Bls. 197, 2.

Sjá 5. B. bls. 227, 2.

Bls. 198, 1.

Sjá 3. B. bls. 31.

Bls. 198, 2.

*Þórðr Kolbeinsson:* Hvatr fólkstafns[1] freyr[2], sá er nè sjaldan gaf hrafni sollit hold, vann[3] sverðs eggja spor[4] á leggi flotna. Snjallr Eiríkr lèt opt lið Engla þverra, ok olli bana þeirra; herr rauð Hríngmaraheiði.

1) fylkíngar brodds. 2) herforingi. 3) gerði. 4) sár.

Bls. 199.

Sjá 11. B. bls. 188, 2.

Bls. 200.

*Sighvatr skáld:* Ok Knútr útflæmdi Aðalráðs sonu senn, eða ok sló þó hvern.

Bls. 202.

*Sami:* Fár hríngdrífr[1] mun svá hafa metinn fetum feril[2] suðr[3]. Höfuðfremstr jöfr.

1) maðr. 2) nl. farið. 3) til Róms.

Bls. 204, 1.

*Þórarinn loftúnga:* Ek hefi for víst borit fram fyrir málmdyns[1] hlyn[2] gjöld fimmtigu marka, þeirra er víghagr morðstørir veitti mèr fyrir brag, er ek fann mannbaldr[3].

1) orustu. 2) mk. 3) konúng.

Bls. 204, 2.

Sjá 4. B. bls. 292.

Bls. 208.

*Þorleikr fagri:* Haukstorða[1] fursendir[2] vann fjandum fjörspell[3] í hjörfa gný[4]; hrafn fèkk bráð fyrir norðan Heiðabø. Fáir Vindr rákust undan; hundmargr

herr lá dauðr á heiði, en vakar vals[5] ginu þar[6] um hálsa.

1) handa. 2) gulls sendir, konúngr. 3) bana. 4) orustu. 5) flakandi sár. 6) getgáta.

## Bls. 209, 1.

Sjá 6. B. bls. 91, 1, síðara vísuhelmíng.

## Bls. 209-10.

Sjá 6. B. bls. 85, 1.

## Bls. 211.

*Þorleikr fagri*: Þeir hafa stundum hætt sèr, er sóttu til fundar Sveins[1]; þeim þrimr bragníngum hefir lítt hagnað at þreyta[2]. Ógnsterkr höldvinr hefir þó haldit allri Danmörku ok Jótagrund með endum[3]; hann er snjallr konúngr.

1) börðust við Svein. 2) nl. við hann. 3) enda milli.

## Bls. 215, 1.

*Steinn Herdísarson:* Oss dugir[1] leyfa svá húngrdeyfi ens hvassa hrafns[2], at (vèr) lastim[3] eigi annan linns látrs[4] sveiganda[5]. Tveir meiri fullhugar kvöddust aldregi oddum[6]: hverjum er tál[7] at mæla annað um tiggja.

1) ber. 2) herkonúnginn Harald Sigurðarson. 3) löstum. 4) gulls. 5) nl. Svein konung. 6) skutuz aldrei á vopnum. 7) ósatt.

## Bls. 215, 2.

*Sami:* Oss dugir (að) mæla satt um snotran kon[1] sælínga[2]: allvaldr Dana mundi eigi halda undan, ef þeir menn, er hèldu herskildi, tæði[3] vel hrafnfæði[4]; ferðir[5] reiddust at sverð[6] fyrir sunnan sjá.

1) frænda. 2) auðmanna, Sveinn konúng. 3) veittu lið. 4) hermk., konúnginum. 5) menn. 6) reiddu sverð hvurir að öðrum.

## Bls. 222.

Vèr stundum til stikka[1]: styrr[2] vex í Danmörku; Sveins synir er-at[3] sáttir at[4] dauðan föður sinn. Haraldr skal af ørnu[5] magni verja jörð vígi fyrir ellifu brøðrum; þá er stiki vel tamiðr[6].

